# Tímarit



## Þjóðræknisfélags Íslendinga



**XXVIII. ÁR**



WINNIPEG, MANITOBA





# TÍMARIT

**Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi**

XXVIII. ÁRGANGUR

Tilgangur félagsins er:

1. Að stuðla að því af fremsta megni að Íslendingar megi verða sem bestir borgarar í hérlendu þjóðlífi.
2. Að styðja og styrkja íslenska tungu og bókvísi í Vesturheimi.
3. Að efla samúð og samvinnu meðal Íslendinga austan hafs og vestan.

Þetta er sá félagsskapur meðal Íslendinga í Vesturheimi, er aðallega byggir á þjóðernislegum grundvelli og hvetja vill þá til framsóknar og virðingar til jafns við þá þjóðflokka aðra, er þetta land byggja.

Ársgjaldið er aðeins 1 dollar, og fá allir skuldlausir félagsmenn, er það borga, þetta tímarit ókeypis.

**Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi**
Winnipeg, Canada



Modernize
Your Home
With Plenty Of
REDDYBOXES!
©
RK

# IN MEMORIAM

## HEIÐURSFÉLAGAR OG FORSETAR

His Excellency Lord Tweedsmuir, Hon. Patron
Kjartan Helgason, fyrrum prófastur
Stephan G. Stephansson, skáld
Frú Stephanía Guðmundsdóttir, leikkona
Prófessor Sv. Sveinbjörnsson, tónskáld
Þorbjörn Bjarnarson, skáld (Þorskabítur)
Einar H. Kvaran, rithöfundur
Ragnar E. Kvaran, fyrrum prestur og forseti
Kristján Níels Júlíus (K. N.), skáld
Séra Jónas A. Sigurðsson, skáld og forseti
Dr. Rögnvaldur Pétursson, forseti og ritstjóri
Prófessor F. S. Cawley, Ph.D.
Friðrik Swanson, málari
Kapt. Sigtryggur Jónasson
Dr. B. J. Brandson, læknir
J. Magnús Bjarnason, rithöfundur
Dr. Hjörtur Thordarson, raffræðingur
Mrs. Guðrún H. Finnsdóttir, skáldkona

# Félagatal Þjóðræknisfélagsins 1946

**A. Heiðursverndarar**

His Excellency the Right Honourable The Earl of Athlone, K.G.
Herra Sveinn Björnsson, forseti Íslands

**B. Heiðursfélagar**

Dr. Vilhjálmur Stefánsson, landkönnuður, New York
Prófessor Halldór Hermannsson, Cornell University, N. Y.
Prófessor Sigurður Nordal, Háskóla Íslands, Reykjavík, Ísl.
Prófessor Árni Pálsson, Háskóla Íslands, Reykjavík, Ísl.
Prófessor Watson Kirkconnell, McMasters University, Hamilton, Ont.
Dr. Henry Goddard Leach, New York, N. Y.
Rt. Rev. C. V. Pilcher, D.D., Sydney, Australia
Jóhannes Jósefsson, íþróttamaður, Reykjavík, Ísland
Þorst. Þ. Þorsteinsson, rithöfundur, Winnipeg, Man.
Guttormur J. Guttormsson, skáld, Riverton, Man.
Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, skáld, Winnipeg, Man.
Mrs. Jakobína Johnson, skáldkona, Seattle, Wash.
Mrs. Laura Goodman Salverson, skáldkona, Winnipeg
Fröken Halldóra Bjarnadóttir, Ritst. Hlín, Akureyri, Ísland
Jónas Jónsson, alþingismaður, Reykjavík, Ísland
Thor Thors, sendiherra Íslands, Washington, D. C.
Ásgeir Ásgeirsson, alþingismaður, Reykjavík, Ísland
Séra Runólfur Marteinsson, Winnipeg, Man.
J. T. Thorson, yfirdómari, Ottawa, Ont.
J. J. Bíldfell, Winnipeg
Árni G. Eylands, Reykjavík, Ísland
Sigurgeir Sigurðsson biskup Íslands
Gunnar B. Björnson, Minneapolis, Minn.
Ásmundur P. Jóhannsson, Winnipeg, Man.
Einar Jónsson, myndhöggvari, Reykjavík, Ísland
Vilhjálmur Þór, Reykjavík, Ísland
Gísli Jónsson, ritstjóri Tímaritsins, Winnipeg, Man.
Dr. John C. West, forseti Ríkisháskólans í North Dakota, Grand Forks, N. D.
Próf. Ásmundur Guðmundsson, formaður í guðfræðideild Háskólans í Rvík.
Séra Albert E. Kristjánsson, prestur, Blaine, Wash.

**C. Ævifélagar**

Árni Sigurðsson, Seven Sisters, Man.
Dr. Helgi P. Briem, Consul Gen. of Iceland, New York, N. Y.
Grettir Leo Jóhannson, Icelandic, Danish Consul, Winnipeg, Man.

**D. Ársfélagar**

1. ÍSLAND

Hinrik Björnsson, Reykjavík
Þórhallur Ásgeirsson, Reykjavík
Dr. Eggert Steinþórsson, Reykjavík
Frú Gerður Steinþórsson, Reykjavík
Fröken Jóhanna Friðriksdóttir, Reykjavík
Frú Guðrún J. Erlings, Reykjavík
Mrs. Rannveig Schmidt, Reykjavík
Eggert Levy, hreppstjóri, Ósum, Húnavatnssýslu.
Gunnar Norland, Reykjavík
Árni Friðjónsson, Siglufirði

2. ENGLAND

Miss Ingibjörg Ólafsson, Stella Maris, Rottingdean, Sussex

3. CANADA

**Árnes, Man.**

Mrs. Anna H. Helgason
Ísleifur Helgason
Mrs. Guðrún Johnson
Jónas Ólafsson
O. G. Ólafsson
Þorsteinn Sveinsson
Sigurður J. Thorkelsson

**Ashern, Man.**

Hermann Helgason
Dr. S. E. Björnsson

**Benalto, Alta.**

Jóhann M. Hillman

**Brandon, Man.**

Dr. E. J. Skafel

**Calgary, Alta.**

Jóhann Bjarnason
Sigurður Sigurðsson
Mrs. Helga Björnsson
Dr. Jóhannes Pálsson

**Camp Morton, Man.**

Þorsteinn Sveinsson

**Clairmont, Alta.**

Magnús G. Guðlaugsson

**Elfros, Sask.**

J. S. Árnason
Jón Jóhannesson
Sigurður Arngrímsson

**Frobisher, Sask.**

Hjörtur Bergsteinsson

**Hayland, Man.**

Mrs. Stefanía Guðmundsson
Sigurður B. Helgason
Ólafur Magnússon
Geirfinnur Pétursson

**Halifax, N. S.**

Christian Sivertz

**Hnausa, Man.**
Daniel Halldórsson
Hildibrandur J. Hildibrandsson
V. G. Stadfeld
Sigvaldi Vídal
Miss Sigurrós Vídal

**Hodgson, Man.**
Rögnvaldur S. Vídal

**Kenora, Ont.**
Mrs. Sigríður Pálsson

**Keewatin, Ont.**
Bjarni Sveinsson

**Langruth, Man.**
Sigfús Benediktson

**Loomis, Sask.**
B. Bjarnason

**Lundar, Man.**
Sigurveig Benedictson
Emil Guðmundson
Vigfús Guttormsson
Ed. Hallsson
Ágúst Magnússon
Mrs. Ásta Sigurðsson
Grímúlfur Sigurðsson

**Markerville, Alta.**
Mrs. Rósa S. Benediktson

**Marquette, Man.**
Mrs. Sigríður Sveinson
S. G. Sveinson

**Matheson Island, Man.**
Árni G. Johnson

**Montreal, Que.**
Bergthora Robson

**Osland, B. C.**
Kristján Einarsson
Friðrik Kristmansson

**Oak Point, Man.**
Jón Finnsson
Eric Stefánson

**Oak View, Man.**
Mrs. Jóhannes Johnson
Sigurður Sigfússon

**Ottawa, Ont.**
Dr. John B. Watkins.

**Otto, Man.**
Mrs. Guðr. G. Eyjólfsson

**Piney, Man.**
Mrs. B. E. Björnsson
Kristinn Norman
Lárus S. Freeman

**Red Deer, Alta.**
Ófeigur Sigurðsson

**Regina, Sask.**
M. Christianson

**Riverton, Man.**
Mrs. Arnheiður Eyjólfsson

**Saskatoon, Sask.**
Prófessor T. Thorvaldson,

**Selkirk, Man.**
Ásgeir Bjarnason

**Sexsmith, Alta.**
Jón Einarsson

**Siglunes, Man.**
Davíð Eggertsson
Miss Guðbj. Eggertsson
Ásmundur Freeman

**Steep Rock, Man.**
Th. Gíslason
F. E. Snædal

**Swan River, Man.**
Mrs. Thórdís Samson
C. Guðmundson

**Tantallon, Sask.**
Helgi Vigfússon

**Thicket Portage, Man.**
J. H. Johnson

**Toronto, Ont.**
Einar I. Svanbergson
J. Ragnar Johnson

**Vancouver, B. C.**
Mrs. Kristjana Anderson
Magnús Elíasson
Mrs. Matth. Friðriksson
Mrs. H. S. LeMessurier
Mrs. Anna Matthíason
S. Guðmundsson
Thor Guðmundson

**Virden, Man.**
Böðvar Johnson

**Vogar, Man.**
Björn Eggertsson
Framar Eyford
Tómas Guðmundsson

Lestrarfél. "Herðubreið"
Magnús Jóhannesson
Björn Johnson
John S. Johnson
Óli Johnson
Óskar Johnson
Guðmundur Jónsson
Páll Jónsson

**Wapah, Man.**
Mrs. Fritz Erlendson

**Watrous, Sask.**
Pétur N. Johnson

**Westbourne, Man.**
Mrs. Lára Sveinsson

**White Rock, B. C.**
Th. G. Ísdal
S. D. B. Stephanson

**Wilkie, Sask.**
Miss Dóra Davidson

**Winnipeg, Man.**
Mrs. Sigríður Árnason
Dr. Ág. Blöndal
Mrs. Jónína Christie
Sr. V. J. Eylands
Páll Guðmundsson
Jón Guðlaugsson
Mrs. Gyða Hurst
Mrs. Jósefína Jóhannsson
Halldór Johnson
Próf. Skúli Johnson
Guðm. F. Jónasson
Capt. Vilhelm Kristjánsson
Magnús Markússon
S. W. Melsted
Dr. B. H. Olson
Mrs. J. Rafnkelsson
Jón Sigurðsson
Capt. J. B. Skaptason
Mrs. J. B. Skaptason
G. S. Thorvaldson, K.C.

**Wynyard, Sask.**
Jakob J. Norman

4. BANDARÍKIN

**Arlington, Va.**
Mrs. J. Sigmundsson

**Baltimore, Md.**
Dr. Stefán Einarsson

**Bayside, N Y.**
E. B. Johnson

**Berkeley, Calif.**

Dr. Caroline Brady
Próf. Sturla Einarsson
Steindór G. Guðmunds
Mrs. Thordís Guðmunds
Rev. S. O. Thorláksson

**Blaine, Wash.**

Mrs. Kristín F. Líndal
Mrs. Veiga Jóhannson
Gestur Stephanson

**Boston, Mass.**

Kapt. Jóhannes G. Ásgeirsson
Kórmakur Ásgeirsson
Einar Barnes
Ari Bjarnason
Kapt. Jóhannes Björnsson
Kapt. G. K. Eggertsson
Kapt. Björgvin Einarsson
Valgeir Einarsson
Chr. A. Guðjohnson
Ágúst Guðmundsson
Andrés Guðmundson
Kapt. Thor Guðmundson
Kapt. Grímur Hákonarson
Jónas Hallgrímsson
Björn D. K. Haralz
Kapt. Gunnlaugur Illugason
Kapt. Axel Jóhannsson
Kapt. Guðmundur Jóhannsson
Norman B. Johnson
Gunnlaugur Jónsson
Kapt. Theódór Jónsson
K. Markússon
Sigtryggur Ólafsson
Guðmundur Pálsson
Adolf Petersen
Pálmi M. Sigurðsson
Valdimar Peterson
Jakob J. Thorvaldson
Capt. Oskar Gíslason

**Bottineau, N. Dak.**

Ásmundur Benson
Óskar B. Benson
Albert Árnason
Mrs. George Freeman

**Buena Park, Calif.**

Mrs. J. Gillis

**Cambridge, Mass.**

Próf. Francis P. Magoun, Harvard College Library

**Camp Crowder, Mo.**

Chaplain G. B. Guðmundsson

**Chicago, Ill**

S. Árnason
Emil Beck
Bragi Freymóðsson
Dr. Árni Helgason

**Charlottesville, Va.**

Próf. Frederic T. Wood

**Davis, Calif.**

Dr. V. S. Ásmundsson

**Detroit, Mich.**

Hon. Frederick H. Fljózdal
Jónas W. Johnson

**Duluth, Minn.**

Chris Johnson

**Fargo, N. Dak.**

Dr. B. K. Björnsson
Mrs. N. B. Johnson
W. A. Myrdal
Próf. F. W. Thordarson

**Gloucester, Mass.**
Einar Anderson
Jónas B. Johnson

**Grand Forks, N. Dak.**
University Library

**Hallson, N. Dak.**
Árni J. Jóhannsson

**Huntington Park, Calif.**
Dr. Paul V. Jameson
Miss Ellen Jameson

**Ivanhoe, Minn.**
Peter H. Foss
Bjarni Guðmundsson

**Jackson, Mich.**
Andrew H. Palmi

**La Kota, N. Dak.**
Einar Johnson

**Lincoln, Nebr.**
Próf. Joseph Alexis

**Los Angeles, Calif.**
Gunnar Bergman

**Minneapolis, Minn.**
Ásm. Bjarnason
Björn G. Björnsson
Hjálmar Björnsson
K. Valdimar Björnsson
Sr. David Gulbrandson
Guðmund Peterson
Miss Hermania Björnsson

**Minneota, Minn.**
María G. Árnason
Gunnar S. Bardal
Sr. Guttormur Guttormsson
Einar Hallgrímsson
J. P. Ísfeld
Jóseph Jósephson
John A. Johnson
John L. Johnson

**National City, Calif.**
John S. Laxdal

**New Brunswick, N. J.**
Rutger's University Library
Prófessor Helgi Johnson

**New Haven, Conn.**
Próf. Adolph B. Benson
Yale University Libr.

**New Ulm, Minn.**
Hon. A. B. Gíslason

**New York, N. Y.**
E. Grettir Eggertson
Edvard Frímannsson
Garðar Gíslason
Jón Guðbrandsson
Hannes Kjartanson
Gunnar Magnússon
Georg Östlund
Dr. E. Thorláksson
Ólafur Johnson

**Park River, N. Dak.**
Theodore Eyjólfson

**Philadelphia, Penn.**
Próf. Axel J. Uppvall

**Pt. Roberts, Wash.**
Árni S. Mýrdal

**Portland, Ore.**
Barði Skúlason
Guðm. Thorsteinsson

# TÍMARIT

## Þjóðræknisfélags Íslendinga



TUTTUGASTI OG ÁTTUNDI ÁRGANGUR, 1946

Ritstjóri: Gísli Jónsson




WINNIPEG, MANITOBA

Gefið út af Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi

1947

# Myndirnar



Skýringar á bls. 109 og 110.

**Prentað hjá The Viking Press Ltd., 853 Sargent Ave., Winnipeg, Man.**

# EFNISYFIRLIT

# Guðrún H. Finnsdóttir

rithöfundur

Eftir Einar P. Jónsson

---

Yfir þínu æviskeiði
eldar brunnu dag og nótt;
heimaunnin uppistaðan,
ívafið í fortíð sótt.
Breiður var og útskygn andi,
ofið glæst þitt ritna mál;
þú varst út til æviloka
ung og tigin vökusál.

Þér var ungri í blóð þitt borið
bjargföst trú á lands þíns mennt,
og um okkar frægu feður
fjöldamargt í æsku kennt.
Orðsins list frá arni Snorra
yfir þínum störfum brann.
Vaxtarþrá þíns innsta eðlis
aldrei nokkur takmörk fann.

Fangbreið var þín móðurmildi,
margir gistu bæinn þinn;
þaðan streymir ávalt andi
ylríkur um huga minn.

Þitt var yndi alla daga:
eyða skuggum, bæta kjör;
fáir áttu í orðum meiri
andagift né snillisvör.

Æðsta lögmál lífs og þroska
lætur sálir fylgjast að;
máttug Helja, mannsins fylgja,
megnar ei að rjúfa það.
Lífsins sól rís upp af unnum
eftir þungra drauma nótt,
fagurlýsir dánardjúpin
dimm, og veitir öllu þrótt.

Fóstran vestræn vorsins örmum
vefur þig að barmi sér;
þú gafst henni æviátök,
eitthvað þér í staðinn ber.
Þó að lífið lifi alla,
líka dauðinn heimtar sitt.
Fram um ár og aldaraðir
Ísland blessar nafnið þitt.



# Flett við blaði

Eftir Einar P. Jónsson

---

Það er enn svo skamt umliðið síðan skáldkonan Guðrún H. Finnsdóttir hvarf af sjónarsviði þessa jarðneska lífs, að mér er í raun og veru ekki unt, að hugsa um hana í endurminningaformi, þótt eg á hinn bóginn finni til þess með sársauka, að lengra sé orðið milli samfunda, en venja stóð til; rás viðburðanna hafði hagað því þannig til, að leiðir okkar lágu lengi saman, og að með okkur tókst vinátta, sem eg er sannfærður um að styrktist í rót við fjölgandi ár og vaxandi kynni.

Eg vissi, að eg hafði eignast tengdasystur árið 1902 þar sem Guðrún H. Finnsdóttir var; eg vissi að hún var þá kornung; eg kunni nokkur skil á ætterni hennar, því tvo móðurbræður hennar, gilda bændur í Vopnafirði, þá Einar á Þorbrandsstöðum og Gísla á Egilsstöðum, hafði eg þekt svo að segja frá blautu barnsbeini; þeir voru báðir hinir mestu skýrleiksmenn; að Guðrúnu stóð greindarfólk í báðar ættir með styrka sveitamenningu að baki, og þangað sótti hún gáfur sínar og vitsmunaþroska.

Fundum okkar Guðrúnar bar fyrst saman á Seyðisfirði; eg var á leið til æskustöðva minni sunnan úr Reykjavík, en för hennar var heitið vestur um haf til fundar við mann sinn, er flutst hafði til Winnipeg árinu áður; hún var fögur kona í blóma lífs, hún var alla ævi í blóma lífs, og lést í rauninni í blóma lífs við vaxandi útsýn yfir tilveruna og leyndardóma mannssálarinnar; hún var altaf að leita, og hún fann margt, eins og hinar fagurmeitluðu smásögur hennar bera svo glögg merki um.

Seyðisfjörður var í sínum fegursta sumarskrúða, er við Guðrún hittumst þar og kvöddumst; mér fanst eg lesa það úr augum hennar, að hún byggi yfir einhverju óalgengu, einhverju miklu, eins og síðar kom á daginn; eg man hvað hún dáðist að Bjólfinum, þessu tígulega Austfjarðafjalli; eg kvaddi hana um borð í skipinu og beið þess að það legði af stað og hyrfi út í fjörðinn; eg fann, að eg hafði eignast tengdasystur, er verða myndi mér jafnan hugstæð.

Við komu mína til Winnipeg áratug síðar, dvaldi eg fyrstu næturnar á heimili Guðrúnar og Gísla bróður míns manns hennar; þá var Guðrún í kyrþey farin að semja skáldsögur sínar, og las úr þeim fyrir mér nokkra kafla; þær höfðu á mig djúp áhrif; form þeirra var slípað og frásögnin laus við sundurgerð; eg fann að hún í efnisvali sínu kom mikið til að óyrktu landi; viðfangsefnin, mörg hver, gripu djúpt inn í baráttusögu íslenska landnámsins vestan hafs, þar sem sigrar og söknuður féllust í faðma; samúð drengskaparkonunnar varpaði á sögur hennar mildum

bjarma, sem óhjákvæmilega fann viðkvæman hljómgrunn í hugskoti lesandans; það var ekki um að villast, að hér var höfundur að verki, sem ritaði af innri þörf og vissi fótum sínum forráð.

Guðrún H. Finnsdóttir unni hugástum öllu, sem hún unni; hún kunni illa hálfverknaði, hvort heldur sem var í orði eða athöfn; hún var heillynd sjálf og krafðist þess sama af öðrum; hún bar rótgróna ást til Íslands og unni engu síður kjörlandi sínu; henni fanst það fjarstæða, að slík tvískifting þjóðástar þyrfti undir nokkrum kringumstæðum að valda árekstri, nema síður væri; henni var ávalt hugarhaldið um þjóðræknismál Íslendinga vestan hafs, og hún vann þeim mikið gagn; en hún sá jafnan, þótt ekki væri sársaukalaust, hvað verða vildi á þeim vettvangi, eins og ráða má af hinni snildarlegu smásögu hennar "Fýkur í sporin", sem jafnan mun talin verða sönn bókmentaperla, sérstæð í íslenskri skáldsagnagerð.

Guðrún H. Finnsdóttir var fædd á Geirólfsstöðum í Skriðdal þann 6. dag febrúar mánaðar árið 1884. Foreldrar hennar voru þau merkishjónin Finnur Björnsson og Bergþóra Helgadóttir, er bjuggu á áminstum bæ; hún giftist þ. 8. nóvember 1902 eftirlifandi manni sínum Gísla Jónssyni frá Háreksstöðum í Jökuldalsheiði og fluttist til Winnipeg 1904. Var heimili þeirra snemma rómað fyrir alúð og risnu, þar sem mannamunur kom aldrei til greina; þangað voru allir jafn velkomnir.

Það væri synd að segja, að Guðrún hefði unnið að ritstörfum á kostnað hússtjórnar eða heimilishalds, því hún var með ágætum röggsöm húsmóðir og heimilið svo fágað og prýtt, að hvergi bar á skugga.

Guðrún var víðlesin og víðsýn kona, er bjó yfir styrkum lífsskoðunum, er jafnan mótuðust af ríkri réttlætisvitund; hún var skapfestukona, er ógjarna lét sinn hlut ef því var að skifta; hún sór sig ljóslega í ætt við sitt norræna kyn.

Guðrún H. Finnsdóttir varð bráðkvödd á heimili sínu, 906 Banning Street, á mánudagskvöldið þann 25. mars 1946. Sviplegt fráfall hennar kom eins og þruma úr heiðskíru lofti yfir sifjalið hennar og fjölmennan aðdáendahóp út í frá; hún var kærleiksrík vorsál, er jafnan fagnaði nýgróðrinum, og um þær mundir, sem vorið var að ganga í garð, lagði hún upp í langferðina hinstu. Auk eiginmanns síns lætur Guðrún H. Finnsdóttir eftir sig fjögur glæsileg og mentuð börn, Helga, prófessor í jarðfræði við Rutger's University í New Jersey, Bergþóru Robson í Montreal, Gyðu Hurst og Rögnu St. John í Winnipeg, og einn bróður, Helga, sem býr á Geirólfsstöðum í Skriðdal.

Eina dóttur, hið yndislegasta barn, Unni að nafni, mistu þau Guðrún og Gísli, en hin börnin, sem upp komust, kostuðu þau öll til háskólanáms; sköpuðu þau með því fagurt eftirdæmi; í heimilinu ríkti hið unaðslegasta samræmi þar sem ástúðin jafnan skipaði öndvegi.

Útför Guðrúnar H. Finnsdóttur fór fram frá Sambandskirkjunni á föstudaginn þann 29. mars, að undangengnum unaðslegum kveðjumálum á heimilinu, er þeir séra Eyjólfur J. Melan og séra Philip M. Pétursson,

tóku þátt í; frú Elma Gíslason söng þar einsöng, en Gunnar Erlendsson var við hljóðfærið; í kirkjunni var hvert sæti skipað og meira en það; tveir áminstir prestar fluttu þar einnig fögur kveðjumál, og yfir athöfninni allri hvíldi eftirminnilegur virðuleiki; allir höfðu á vitund, að með fráfalli þessarar mikilhæfu konu hefði íslenska mannfélagið vestan hafs og íslenska þjóðin mikið mist, að sæti hennar yrði vandfylt; en hitt mun og öllum hafa verið jafnljóst, hve vel hún hefði skilað ávöxtuðu pundi menningarmálum okkar til gagns og sæmdar.

---

# Þegar vindurinn blæs . . .

**Eftir Jakobínu Johnson**

---

Þegar vindur blæs á vestan
úr víðáttu hafsins Kyrra,
legg eg við örnæmt eyra
ef að eg kynni heyra
andvarp eða orðaskil — — —
— þó andinn þrái meira.
Síðstu kveðju sjóliðans unga
svölun væri að heyra.

— — — Berast orð í blænum?
"Minn hugur svífur heim.
Hjartans kveðjur, faðir og móðir,
bernska mín — og bræður mínir góðir.
Hljóðnað er harkið — hylur móðan alt,
— hylur stríðsins angist og ranglætið alt.
Hlutverkinu lokið. Land í augsýn nýtt.
Langt mun síst til funda,
— langt mun síst til nýrra gleðifunda."

— — — Í morgun blæs vindur á vestan
úr víðáttu hafsins Kyrra.
Heyrði eg kveðjur — heyrði eg boð,
sem hugar-rót mitt sefuðu og lægðu.
— Dauðinn er landnám í ljóssins Kyrrahafi,
— lífsins fullnægt þrá
gegnum þoku og helstríð til hafnar að sjá.

# Sveinbjörn Sveinbjörnsson

## 1847 — Aldarafmæli — 1947

Eftir Gísla Jónsson

---

I.

Það er haft eftir hinu fræga tónskáldi Handel, þegar hann hafði hlustað á niðurlag söngdrápunnar "Messias" eftir sjálfan hann, að þá hafi honum fundist hann sjá himnana opnast. Eitthvað svipað kom fyrir fáfróðan ungling ofan af reginheiði, þegar hann heyrði í fyrsta sinn "Ó, guð vors lands". Hann fann þá, ef til vill í óljósri þoku hugans, að nýtt gullið hlið hafði opnast, og að hann stóð á þröskuldinum, þar sem hrynjandi ljósflóð ljóðs og tóna streymdi um hann allan. Seinna lærðist honum að skilja, að þótt hann hefði orðið þarna fyrir opinberun, þá var sú opinberun aðeins honum ný; því þetta ljóð og þetta lag átti, eins og flest önnur listaverk, rætur í fortíðinni, rætur í listaverkum annara stærri höfunda. Kvæðið fékk sinn innblástur frá Davíðssálmum og lagið hefði getað verið upphaf að, eða grunntónn úr kliðkviðu eftir Beethoven.

Og þegar heiðadrengurinn horfði í anda á þessa glæsilegu andlegu jötna, þessa fjarlægu hátinda, baðaða í rómantískum dýrðarljóma, þá hefði hann kallað hvern þann mann aulabárð, sem hefði spáð því, að hann ætti að lifa þá tíð, að kynnast þeim báðum persónulega. En einmitt þetta átti þó að ske, því af höfundi kvæðisins hafði hann allnáinn kunningsskap um fimm ára skeið, fyrir og eftir síðustu aldamót. Og enn mörgum árum síðar urðu þeir, hann og tónskáldið, nákomnir vinir og svo að segja daglegir heimagangar hvor á annars heimili hér í Vesturheimi.

II.

Áður en næsta Tímarit kemur út, verður hundraðasti fæðingardagur fyrsta tónskálds hins endurvakta Íslands kominn og liðinn hjá.

Það væri freistandi, að litast um á sviði sögunnar árið 1847 á föðurlandinu, en því miður verður því ekki við komið. Samt er ekki úr vegi að festa í minni og átta sig á vissum atriðum.

Á þessu tímabili er yfirstjórn landsins öll í höndum Dana, og einveldið enn óskorað. Staðgengill konungs var nefndur stiptamtmaður. Alþingi hafði að vísu verið endurreist, en með mjög svo takmörkuðu valdi, eða aðeins sem ráðgefandi samkunda, og sat það í annað skiftið það ár. Forseti þess var Þórður Sveinbjörnsson, háyfirdómari í landsyfirréttinum.

Fastir skólar voru þá engir nema Latínuskólinn, sem fluttur hafði verið frá Bessastöðum til Reykjavíkur árinu áður. Var hið ágæta skáld og fræðimaður Sveinbjörn Egilsson yfirmaður skólans. En þá um haustið (1847) er fyrst settur á stofn

Prestaskólinn, er kendi prestaefnum landsins fram að þeim tíma, er hann var gjörður að deild í Háskóla Íslands 1911.

Blöð voru engin, og tímaritin hvorki mörg né fjölskrúðug. "Sunnanpósturinn" mun hafa verið liðinn undir lok, en út mun þá hafa komið snepill, sem nefndist "Reykjavíkur pósturinn". "Fjölnir" var sofnaður, en í hans stað komu nú frá Kaupmannahöfn "Skírnir" og "Ný félagsrit". "Þjóðólfur", fyrsta blaðið, var þá á uppsiglingu — byrjaði árið 1848. Fátt annað var prentað, nema helst guðsorðabækur og rímur.

Helstu skáldin voru Jón Thoroddsen, Gísli Brynjólfsson, Grímur Thomsen, Bólu-hjálmar og Sveinbjörn rektor Egilsson. Þá kom og fram á sviðið sonur Sveinbjarnar, tvítugur, Benedikt Gröndal, sem brátt gerðist forsöngvari í hinum nýrri skáldakór. Jónas Hallgrímsson, sá er söng "allri rödd fegra", hafði þá legið tvö ár í ótímabærri gröf, og Sigurður Breiðfjörð dáið ári síðar en Jónas úr kröm og harðrétti.

Söngur og söngkunnátta voru þá víst ekki upp á marga fiska. Að vísu átti þjóðin þá, eins og bæði fyr og síðar, ágæta raddmenn og konur, en fátt mun hafa verið góðra sönglaga nema þá sum tvísöngslögin, og önnur þjóðlög, misjöfn að gæðum. Vikivakarnir höfðu víst að mestu lagst niður, en í þeirra stað voru rímur kveðnar með misjafnlega áheyrilegum lögum og lotum. Sálmasöngurinn var í afturför, því þótt lögin væru nótuprentuð í Grallaranum, og mörg af þeim ágæt, þá urðu þeir altaf færri og færri, sem höfðu veruleg not af þeim, þar sem mjög óvíða voru nokkur hljóðfæri til stuðnings; svo afleiðingin varð sú, að hver söng með sínu nefi. Samt mun söngur hafa talsvert tíðkast við skólann, bæði á Bessastöðum og í Reykjavík, og voru þar sungin lög útlend jafnt sem innlend. Skáldin kunnu og sungu óefað útlend sönglög, sem sjá má af kvæðum þeirra. Jónas, Jón, Gísli og Grímur, og reyndar fleiri, kváðu undir sönglögum samtíðarmanna sinna, Weyse, Rung, Pacius, Schiött, Bergreen og annara, að ógleymdum sænskum og dönskum alþýðulögum. Sum þessara laga eru nú að mestu gleymd heima fyrir, en hafa orðið að hálfgerðum þjóðlögum á Íslandi. Enda áttum við ekki nokkurt tónskáld fyr en löngu seinna.

Hljóðfæri voru hvorki víða né margra tegunda. Fyrsta orgel var sett í dómkirkju Rvíkur 1840, þó reyndar sé getið eins slíks hljóðfæris löngu áður. Fyrstu klavíer eða píanó eru þá að koma til landsins, og nokkrar konur handléku Guitar og sungu með. Einhver fleiri hljóðfæri slæddust til og frá. Þannig getur Ben. Gröndal manns, sem vel hafi leikið á fíólín í skóla, og segist hann hafa lært af að horfa á hann. Faðir hans, Sveinbjörn Egilsson, blés ágætlega á flautu; mun hafa lært af fóstra sínum í Viðey, og svo síðar utanlands. Kona hans, Helga dóttir Gröndals hins elsta, lék einnig ágætlega á Langspil, og svo var um fleiri. Langspilið var að vísu ekki kallað útlent hljóðfæri, því það hafði legið í landi frá ómunatíð; var smíðað heima og ekki ávalt á einn veg, því sum höfðu aðeins tvo strengi, önnur fleiri. Stundum voru tónbilin mörk-

uð svo ónákvæmlega, að talið er, að það hafi átt sinn þátt í því, að sum lögin smábreyttust svo, að þau urðu um síðir lítt þekkjanleg. Einnig er getið um innlendar fiðlur; en þær voru enn sjaldgæfari en langspilin.

Þá er kominn fram á sviðið maðurinn, sem telja má boðbera hins nýja tíma í söng og hljóðfæraslætti, Pétur Guðjohnsen organleikari við dómkirkjuna. Hann var vel mentaður maður, hafði þar að auki lært söngfræði og organslátt utanlands, og vann um langan aldur að því, að endurbæta kirkju og sálmasönginn, auk þess sem hann kendi söng og hljóðfæraslátt til dauðadags.

III.

Sveinbjörn tónskáld Sveinbjörnsson var fæddur 28. júní 1847 að Nesi við Seltjörn í Gullbringusýslu, skamt frá Reykjavík. Faðir hans var Þórður Sveinbjörnsson, háyfirdómari í Landsyfirréttinum. Sem sjá má af ævisögu Þórðar, virðist hann hafa haft ömurlegt uppeldi og vanheilsu við að stríða fram eftir aldri, og var þó faðir hans af góðu fólki kominn, og, að minsta kosti þegar fram í sótti, vel efnaður, og auk þess í tengslum við vel metið fólk. Hann lærði á barnsaldri í heimaskóla hjá tveimur prestum, en komst ekki á Hafnarháskóla fyr en um þrítugt. Hann reyndist þar framúrskarandi námsmaður, útskrifaðist með ágætis vitnisburði í lögum, og vanst þó tími til norrænna vísindaiðkana; t. d. þýddi hann Grágás, hina fornu lögbók, á latínu og samdi yfir hana orðasafn. Síðar þýddi hann Járnsíðu á sama hátt. Hann gaf og út Fornyrði lögbókar eftir Pál Vídalín og ritaði ævisögu hans. Hann var ritstjóri Sunnanpóstsins, og þótti vel hagorður. Að loknu háskólanámi var honum veitt Árnessýsla, og vann hann þar af miklum skörungsskap, meðal annars að því, að leiða til lykta hin svonefndu Kambsráns mál. Eftir tólf ára sýslumannsstörf komst hann í landsyfirréttinn og tveim árum síðar (1836) varð hann háyfirdómari; og enn tveim árum seinna var hann gerður Konferensráð. Einnig var honum boðin Stiptamtmannsstaðan, en skoraðist undan því. Hann var konungkjörinn þingmaður á fyrsta þingi hins endurreista Alþingis og forseti þess. Hann sat á þjóðfundinum 1851 og reyndi að miðla þar málum með breytingartillögum við stjórnarfrumvarpið alræmda, er endaði með því, að fundinum var slitið af hálfu Dana, sem kunnugt er. Hann var tvíkvæntur.

Seinni kona Þórðar háyfirdómara og móðir Sveinbjarnar tónskálds hét Kirstín, og var dóttir dansks kaupmanns í Reykjavík, er Lárus Knudsen hét, og hálfdanskrar beykisdóttur frá Stykkishólmi, er Margrét Hölter nefndist. Var móðir hennar, hin íslenska, Guðrún Þorbergsdóttir, af ágætu fólki komin. Kirstín og Guðrún kona Péturs Guðjohnsen organleikara voru systur og þóttu mestu fríðleiks og merkiskonur.

Þau hjónin, Þórður og Kirstín, eignuðust saman átta börn, og var Sveinbjörn hið fimta í röðinni. Árið 1851, þegar Sveinbjörn var fjögurra ára gamall, fluttu foreldrar hans alfari frá Nesi til Reykjavíkur. Gekk þá skæð barnaveiki um Suðurland, sem strádrap fjölda barna, þar á meðal tvö systkini Sveinbjarnar. Var

hann einnig svo langt leiddur, að hann misti rödd um lengri tíma á eftir. Skömmu síðar var honum komið í smábarnaskóla hjá tveimur dönskum stúlkum, er nefndust Johnsen, og kom þá brátt í ljós að drengurinn hafði svo slæma sjón, að námið varð honum að stöðugri kvöl. Lagaðist þetta ekki alla skólatíð hans, því þá þektust ekki á Íslandi gleraugu, sem leiðréttu sjónskekkju (astigmatism). Löngu seinna, þegar hann var kominn til Khafnar, var gjört lítilsháttar við hreyfivöðva augnanna og honum gefin viðeigandi gleraugu. Síðarmeir sagði hann konu sinni, að þá hefði sér opnast nýr og bjartari heimur, sem sér hefði verið áður hulinn. Frá dönsku stúlkunum fór hann á drengjaskóla hjá presti, sem síðar varð kennari hans við prestaskólann; og seinna fékk hann undirbúningskenslu fyrir latínuskólann hjá séra Skúla Gíslasyni og Halldóri Guðmundssyni, kennara við skólann, sem af sumum var nefndur Halldór stutti. Lét hann jafnan vel af þeim öllum.

Tíu ára gamall, drengurinn, var hann svo settur á Latínuskólann, og hafði hann þá mist föður sinn veturinn áður (1856). Úr Latínuskólanum útskrifaðist hann vorið 1866 og innritast þegar í prestaskólann. Þaðan útskrifaðist hann árið 1868, þá 21 árs að aldri. Prestsefnum mun þá eigi hafa verið veitt prestvígsla eða brauð, fyr en þeir höfðu náð 25 ára aldri. Hann tók því aldrei vígslu, enda mun hugur hans eigi hafa hneigst til prestsskapar. Á efri árum sýndi hann einstöku vildarvinum sínum útskriftar ræðuna, hina einu kirkjuræðu, er hann samdi á ævinni, og hneigðist hún fremur í skynsemisáttina en til opinberunar. Hygg eg, að nú mundi hann talinn í flokki frjálslyndra presta.

## IV.

Strax í barnæsku Sveinbjarnar var því veitt eftirtekt, að hann hneigðist til söngs og hljómlistar; svo í kringum fimm ára aldurinn var hann sendur til stúlku, er María Thomsen hét og bjó með móður sinni og systur þar í nágrenninu, til að nema Guitarspil. Seinna, eða á skólaárunum, lærði hann söng og söngfræði hjá Pétri Guðjohnsen, sem kvæntur var móðursystur hans. Um það bil, voru fáar slaghörpur eða píanós í höfuðstaðnum. Frú Ástríður, kona Sigurðar Melsted prestaskólakennara, lék vel á það hljóðfæri, að minsta kosti að þeirra tíðar mati, og kendi hún Sveinbirni víst alt, sem hann gat af henni lært í þeirri list.

Haustið 1868, eftir að hann hafði lokið námi við prestaskólann, tók Sveinbjörn sér far með litlu seglskipi til Khafnar með því augnamiði, að stunda framhaldsnám í hljómlist. Lentu þeir í hinum verstu sjóhrakningum, og sáu um hríð strönd Labrador. Eftir 35 daga útivist náðu þeir loks höfn í Leith á Skotlandi með laskað skip. Sveinbjörn var svo þrekaður af sjóveiki, og illri aðbúð, að hann lá þar eftir í tvo mánuði, áður en hann treystist til að halda áfram til Kaupmannahafnar. Leist honum þar svo vel á sig, að það varð orsök til þess, að hann settist að til langdvalar í Edinborg að námi loknu.

Í Khöfn stundaði hann námið af kappi. Lagði hann sérstaklega fyrir sig píanó-slátt og hljómfræði, og hét

aðalkennari hans Anton Ravn. Eftir tæpra tveggja ára nám fór hann til Edinborgar og kendi þar um skeið. Árið 1872 tók hann sig upp aftur og gekk á hljómlistaskólann í Leipzig á Þýskalandi. Var yfirkennari skólans, Carl Reinecke, einkakennari hans. Reinecke var merkur tónlistamaður og strangur kennari; og því var það, að Grieg lenti í ónáð hans fyrir útúrdúra við námið og aðfinslur við skólann. En það var nokkuð löngu áður.

Veturinn 1874 settist Sveinbjörn svo aftur að í Edinborg og bjó þar að staðaldri fram að árinu 1919, eða í samfleytt 45 ár. Kendi hann píanóspil og tónfræði með sívaxandi áliti, og var víst lengstum önnum kafinn.

Oft heyrir maður talað um "ást við fyrstu sýn". En Sveinbjörn steig þar feti framar. Vorið 1889 var hann eitt sinn staddur hjá vinafólki sínu, skotsku, og barst þá í tal sumarfrí. Segir frúin í heimilinu, að þau séu að hugsa um skemtiferð til fjarða Noregs, og býður honum, að slást með í förina með þeim. Á stofuborðinu var ný mynd af ungri blómarós, er hann hafði eigi áður séð. Hann spyr, hver þessi stúlka sé, og segir frúin, að þetta sé systurdóttir sín, og búi hún með móður sinni og systkinum úti í Pertshire. Svarar hann þá: "Ef þér stendur á sama, frú mín góð, þá vildi eg heldur fá kynningarbréf til systur þinnar og frændfólks, en fara með ykkur til Noregs." Var það auðfengið, og kom hann harðtrúlofaður til baka úr því sumarorlofi. Stúlkan hét Eleanor Christie, dóttir John Christie, M.A., vel mentaðs lögfræðings, frá Banff, er þá var látinn, og Williamina Paterson frá Aberdeen, konu hans. Eleanor var vel mentuð og glæsileg, og stóð á tvítugu (f. 1870); en Sveinbjörn var þá vel yfir fertugt. Þau giftust á næsta ári (1890) og reistu bú í Edinborg. Þar bjuggu þau í samfleytt 29 ár, eða til þess tíma, að þau fluttu með börnum sínum hingað til Winnipeg um haustið 1919.

Á næstu tveimur árum, eftir að þau giftust, eignuðust þau tvö börn, dreng og stúlku. Drengurinn, Þórður John Wilhelm, var fæddur 2. apríl 1891 og dóttirin, Helen McLeod, 3. desember 1892. Þórður útskrifaðist frá háskóla Edinborgar í læknisfræði vorið 1914. Hann vann sem læknir, með kapteins nafnbót, í tvö ár í heimsstyrjöldinni 1914-1918, oft við fremstu víglínu, og bilaði þá heilsa hans í þeirri ofraun. Síðar stundaði hann lækningar víðsvegar í Vestur-Canada um nokkur ár. Hann er listfengur mjög, leikur vel á píanó og málar; er ókvæntur og þykir nokkuð einrænn. Helen útskrifaðist frá Listaskólanum í Edinborg í fögrum listum og tók kennarapróf árið 1915. Er hún fríð sýnum, listræn mjög og vel skáldmælt. — Hún kendi dráttlist í Skotlandi um tíma og síðar í Canada. — Árið 1921 giftist hún Ralph Ernest Alwyn Lloyd, liðsforingja úr stríðinu. Hann er nú fyrir skemstu látinn. Þau Helen og Ralph Lloyd eignuðust fjögur börn. Fyrsta barnið, Benjamín Bertie Sveinbjörn, dó innan árs frá fæðingu. Næstur var Francis Charles Sveinbjörn, fæddur 1923, þá Eleanor, fædd 1924; yngstur er Jón Edric Shenstone Maclean, fæddur 1926. Báðir gengu drengirnir í herinn, og komu heilir á hófi til baka úr síðustu styrjöld. Sveinbjörn hinn síðari kom



Helen McLeod



Eleanor Christie



Þórður John Wilhelm

heim kvæntur skotskri stúlku, og hefir nú nýskeð eignast dóttur; svo gamla konan er nú orðin langamma. Er hún komin hátt á áttræðis aldur, og ber ellina vel. Öll fjölskyldan býr vestur í Alberta-fylki, ekki langt frá Calgary-borg.

V.

Eins og áður er vikið að, kendi Sveinbjörn píano-slátt og raddskipunarfræði með góðum árangri óslitið í milli þrjátíu og fjörutíu ár. En bæði var það, að þau munu hafa verið orðin vel efnum búin, og svo mun hann hafa verið farinn að þreytast á kenslunni; svo upp úr fyrsta tug þessarar aldar fór hann að slá meira slöku við kensluna, en gefa sig að sama skapi meira að tónskáldskap.

Þá var það, að ungur læknir íslenskur úr Bandaríkjunum, Guðm. J. Gíslason, var við framhaldsnám við Edinborgar háskólann. Kyntist hann Þórði þar í læknadeildinni og varð tíður gestur á heimili þeirra. Fyrir hans áeggjan tók Sveinbjörn sér ferð á hendur í fyrsta sinn vestur um haf. Kom hann hingað til Winnipeg í september 1911, og hélt til hjá séra Jóni Bjarnasyni og frændku sinni frú Láru, konu hans. Flutti hann þá erindi í Fyrstu lútersku kirkjunni um Norræna söngva og þjóðlög og einkenni þeirra, og söng og spilaði mörg lögin til skýringar. Fleiri samkomur hafði hann þá um veturinn, bæði hér í bæ og út um bygðir Íslendinga, bæði sunnan og norðan landamæranna, einnig vestur á Kyrrahafsströnd. Í maí um vorið hélt hann heimleiðis, og var honum að skilnaði haldið fjölment samsæti í Good Templara húsinu. Þar voru ræður fluttar, söngvar sungnir af all-flestum þeim, er þátt tóku í söng hér á þeim árum, og frumsamin kvæði flutt af skáldunum. Eitt þeirra komst meðal annars svo að orði:

"Þú systir Óðs. þú hljómdís himindýra,
sem heillar, töfrar anda vorn og blóð,
þú Sveinbjörn tókst í ástararma hýra
og yfir honum söngst þín vögguljóð.
Og Sveinbjörn! hljómlist hæst af sólarlöndum
þig hóf frá jarðar vetri, sumars rýrð,
er sál þín lyftist söngs á vængjum þöndum
og sástu **Guð vors lands** í allri dýrð."

Áður en samkomunni sleit var honum

afhent til minja gervi-píanó úr skíru silfri, með viðeigandi áletrun og allstórri gullfúlgu undir lokinu.

Ári síðar kom Sveinbjörn aftur hingað vestur, en hafði litla viðdvöl hér um slóðir. Fór hann alla leið vestur á Kyrrahafsströnd, og ferðaðist um meðal Íslendinga, Svía og Norðmanna norður og suður með ströndinni. Hélt hann þá lengst af til í Seattle. Á heimleið fór hann eitthvað um bygðirnar hér í Sléttufylkjunum.

Svo er að sjá á bréfi, sem eg hefi undir höndum, að hann hafi ætlað þá strax að flytja búferlum hingað vestur, en skömmu eftir að hann kom heim úr þeirri ferð, skall heimsstyrjöldin á, svo ekkert varð af vistaskiftunum. Við það fór líka flest á ringulreið. Verðhrun á fasteignum, hlutabréfum og flestu fémætu gerði margan stóreignamann öreiga, og munu þau þá hafa mist mest af eignum sínum. Hann var þá kominn hátt á sjötugs aldur, og um kenslu ekki að ræða meðan á stríðinu stóð. Þá voru og allir útlendingar litnir tortryggnisaugum, einkum ef vitanlegt var, að þeir höfðu einhvern tíma dvalið eða mentast í löndum óvinaþjóðanna, og mun Sveinbjörn ekki hafa farið varhluta af því.

Á meðan stríðið stóð yfir, mun fjöldi íslenskra hermanna héðan að vestan hafa átt athvarf á heimili þeirra hjóna í frítímum sínum.

Að stríðinu loknu kom fjölskyldan sér því saman um, að taka sig upp með rótum og leita gæfunnar hér í Vesturheimi. Þau komu hingað vestur seint á sumri árið 1919, og tóku sér heimili í Winnipeg. Áður um sumarið hafði Sveinbjörn skroppið heim til Reykjavíkur og haft þar hljómleika. Mun hann ekki hafa búist við, að sjá föðurlandið framar, þó öðruvísi færi. Hann var nú orðinn fullra 72 ára gamall.

VI.

Það hefi eg fyrir satt frá þeim, er skyn báru á, að Sveinbjörn væri ágætur kennari. Sá eg hann og oft að verki með nemendum sínum. Aldrei mun hann þó hafa fengið hér marga nemendur. Hann gat aldrei skilið þetta kapphlaup, sem hér á sér stað í öllum greinum; enda hefði honum ekkert verið meira utan brautar, en að reyna til að smækka eða níða niður fyrir allar hellur þá, er sömu atvinnu stunduðu og hann, með því augnamiði að auka sér fylgi.

Fyrst um sinn gekk þó alt sæmilega. Enda lagði hann mun meiri áherslu á tónverk sín — að æfa þau, leika þau og láta syngja þau á opinberum hljómleikum og samsöngvum. En Winnipeg er ekki nógu stór borg til þess, að slíkt borgi sig, þegar til lengdar lætur, og allra síst meðal Íslendinga einna. Eg hefi hér fyrir framan mig nokkrar skemtiskrár, er sýna, að hann hefir æft karlakóra, blandaðar raddir, strengleika fyrir þrjú og fjögur hljóðfæri, hrynleiki (Rhapsody) og umskriftir af sönglögum fyrir slaghörpuna, að ógleymdri konungs kantötunni, sem sungin var hér tvisvar.

Snemma sumars 1920 kom bróðir hans, Árna-Bjarni, í heimsókn hingað norður. Höfðu þeir bræður ekki sést í 50 ár. Árna-Bjarni var tveim árum yngri en Sveinbjörn, hafði byrjað skólanám heima, en hætt snemma og flutst vestur um haf 1872.

Hann lærði læknisfræði í Bandaríkjunum, og hafði um langt skeið stundað lækningar í Mormóna landinu Utah. Hlustaði hann hér á konungs-kantötu bróður síns og var allur á hjólum yfir. (Hann er nú látinn, eins og öll þau systkini).

Skömmu síðar komumst við, vinir þeirra hjónanna, að því, að þau voru að hugsa um, að flytja til Utah. Bundust þá nokkrir Íslendingar hér samtökum og söfnuðu í kyrþey nokkrum þúsundum dala, svo Sveinbjörn gæti alveg hætt kenslu og gefið sig óskiftan að því, að safna í eina heild tónverkum sínum og búa þau undir prentun. Jafnframt var okkur ljóst, að við þetta gat ekki setið til lengdar. Það varð því úr, að séra Rögnv. Pétursson skrifaði Birni Kristjánssyni í Reykjavík, er þá var að mig minnir í ráðuneyti Íslandsstjórnar, og skýrði honum frá, hvernig hagur þeirra stóð. Bar það skjótan árangur, því skömmu síðar bauð stjórnarráðið Sveinbirni heim með ríflegum lífstíðar heiðurslaunum, eftir því sem þá gerðist.

Seint á hausti 1922 fluttu þau hjónin til Reykjavíkur, en börn þeirra urðu eftir í Canada; enda var þá dóttir þeirra gift, sem áður er sagt. Skömmu áður var þeim haldin fjölmenn kveðjusamkoma, þar sem saman voru komnir flestir bestu hljómfræðingar og söngkraftar Íslendinga hér í borg til að kveðja hið aldna tónskáld og túlka í söng sum af hans allra fegurstu lögum, og um leið votta honum virðingu sína og þakklæti að skilnaði. Var þeim síðar afhent all sæmileg peninga upphæð.

VII.

Eftir að þau hjónin fluttu til Íslands, slitu þau aldrei fullkomlega sambandi við vini sína hér. Þau skrifuðu á víxl, og létu jafnan ótvírætt í ljós þakklæti sitt og hlýhug, ekki aðeins til heimaþjóðarinnar, heldur og til Vestur-Íslendinga fyrir styrk þann og velvild, er hann hefði orðið aðnjótandi í ellinni. Af þessum bréfum sé eg einnig, að hann hafði hljómleika við góðan orðstír og ágæta aðsókn við og við í höfuðstaðnum, eftir að heim kom. Tvö síðustu bréfin eru skrifuð frá Khöfn — hið fyrra 1925, og getur hann þá þess, að krankleiki, er hann kendi hér vestra, átumein á brjósti, hafi farið svo versnandi, að honum hafi verið ráðlagt, að leita sér þar lækninga. Telur hann sér þá bata nokkurn veginn vísan. Síðara bréfið fengum við haustið 1926. Bæði þessi Hafnarbréf bera með sér, að hann sat ekki auðum höndum. Hann ýmist skrifaði ný lög og tónverk, útsetti önnur á ýmsan hátt eða lét hljóðrita þau.

Í mars 1927 fengum við hjónin stutt bréf frá frú Sveinbjörnsson, sem hljóðar svo:

"Minn hjartkæri eiginmaður andaðist snögglega þann 23. febrúar, á meðan hann var að leika á hljóðfærið. Það var fagur og viðeigandi dauðdagi og stóð yfir aðeins fá augnablik. Eg sakna hans voðalega — við vorum svo innilega samrýnd. Líkið verður sent til Reykjavíkur til greftrunar, og verð eg því samskipa."

Í Kaupmannahafnarblaðinu "Dagens Nyheder", 11. mars, er þessi lýs-

ing á útförinni ásamt mynd af stúdentunum og kistunni.

"Í Holmens kirkju fór fram í gær útför hins íslenska tónlistamanns, prófessors Sveinbjörns Sveinbjörnssonar, að viðstöddu miklu fjölmenni. Íslenskir stúdentar við Kaupmannahafnar háskóla stóðu heiðursvörð um kistuna, sem sveipuð var íslenska fánanum. Blómsveigar frá hans hátign konungi Íslands og Danmerkur og hinum hávelborna krónprinsi voru reistir framan við líkbörurnar. Þar voru einnig sveigar frá danska ríkisráðinu, íslensku sendiherra skrifstofunni, dansk-íslenska sambandinu, íslenska stúdentafélaginu í Khöfn, íslenska verslunarfélaginu, Íslendingafélaginu, stúdenta söngfélaginu og Árhúsafélaginu. Í líkfylgdinni voru meðal annara: Ríkisráðherra Madsen-Mygdal, Sveinn Björnsson sendiherra (nú forseti Íslands), ríkisritari J. Krabbe, skrifstofustjóri Sveinbjörnsson, prófessor Valtýr Guðmundsson, magister Bogi Melsted, bókavörður Sigfús Blöndal, kaupmennirnir Thor E. Tulinius og Torfason, söngmennirnir Birkis og Kristjánsson, og fl., o. fl. Séra (Haukur) Gíslason talaði á íslensku, og endaði sorgarathöfnin með því að sunginn var þúsund ára lofsöngur Íslands eftir þá séra Matth. Jochumsson og hinn látna. Íslenskir stúdentar báru kistuna út úr kirkjunni, og var hún síðan flutt í gufuskipið "Brúarfoss", sem siglir til Íslands með morgninum. Þar á jarðarförin að fara fram."

Skipið kom í höfn þann 21. mars, og báru íslenskir stúdentar í Reykjavík kistuna í dómkirkjuna. Fór jarðarförin fram þaðan daginn eftir. Í Morgunblaðinu, dagsettu 23. mars 1927, er lýsing á jarðarförinni, og birtist hún hér á eftir, dálítið stytt:

"Jarðarförin í gær var með viðhafnarmestu jarðarförum, er hér hafa farið fram. . . . Sorgarathöfnin í kirkjunni átti að byrja klukkan hálf tvö. Löngu fyrir kl. 1 byrjaði fólkið að þyrpast að kirkjunni. En allar dyr voru læstar. . . . Kl. 1 var fólki hleypt inn á svalirnar. Lítill munur sást á því, að mannfjöldinn úti fyrir minkaði við það. . . . Þingmenn, bæjarstjórn og nokkrir embættismenn komu laust fyrir hálf-tvö. En á tilsettum tíma komu fimtíu konur skautbúnar inn kirkjugólfið. Mun vart hafa sést hér tígulegri fylking. Á eftir kom fylking stúdenta. Skipuðu þeir sér í tvísetta röð eftir kirkjugólfinu. . . . Kistan var sveipuð íslenska fánanum. Blómskrúð og blómsveigar voru um hana öllu megin. Margt blómsveiga kom frá Danmörku, og mikið bættist hér við. M. a. kom J. Fenger konsúll með blómsveig mikinn frá ræðismönnum erlendra ríkja hér í bænum. Sem fulltrúi þeirra var hann viðstaddur jarðarförina. Fontenay sendiherra var þar sem fulltrúi dönsku stjórnarinnar. Fyrst var leikið Largo eftir Handel; 10 félagar úr hljómsveitinni spiluðu með orgelinu. Þá var sunginn sálmurinn "Kendu mér, líkt þér, bjarkarblað", sem er þýðing eftir Grím Thomsen á danska sálminum (eftir Oehlenschlæger) "Lær mig, o, Skov, at visne glad". — Að því búnu flutti séra Friðrik Hallgrímsson ræðu. Hann talaði m. a. um, að hið aldna tónskáld hefði skoðað listina

sem heilagt ætlunarverk, og það ætlunarverk rækti hann m. a. með því, að gefa þjóð sinni dýrðlegasta þjóðsönginn, sem til er.... Í endalok ræðu sinnar talaði hann nokkur orð á ensku, er einkum var beint að ekkju hins látna, sem fylgdi honum til grafar eftir 37 ára samveru. Karlakórinn söng því næst fyrsta versið úr "Hærra minn guð til þín" á frumtexta. Þá .... þrjú erindi úr "Alt eins og blómstrið eina".... En að þeim sálmi loknum skifti um raddir uppi á svölunum og blandaður kór söng "Ó, guð vors lands".... Með þjóðsöngnum sjálfum sendi þjóðin höfundinum síðustu kveðju...."

Á meðan Reykjavíkur-búar voru að jafna sig eftir þessa óvenjulega hátíðlegu sorgarathöfn, fór öldruð, sorgmædd og einmana ekkja að tína saman plögg sín og búast til ferðar lengst út í vestrið sólríka og víðfeðma, þar sem sonur hennar og dóttir biðu eftir henni með opnum örmum. En gröfin í Víkurgarði varð henni að innsigli á þeim sáttmála, sem gjörður var löngu áður, að Ísland væri hennar annað föðurland.

VIII.

Snemmendis mun sá orðrómur hafa komist á, að Sveinbjörn Sveinbjörnsson væri efni í tónskáld. Reyndar var þá ekki í mörg hús að venda. Á nokkrum stöðum í bréfum Matthíasar, í kringum þjóðhátíðarárið, er vikið að því, að hann sé að fá Sveinbjörn til að yrkja lög við ljóðflokk (kantötu), sem hann hafi í smíðum fyrir þjóðhátíðina 1874. Af því varð nú samt ekki; því á öðrum stað getur Matthías þess, að hann hafi ort aðeins fyrsta versið af "Ó, guð vors lands" þá, og svo bætt hinum tveimur við nokkru síðar, svo um kantötu varð þar aldrei að ræða. Enda hafði skáldið í mörg horn að líta, þar sem hann orti að minsta kosti tólf önnur kvæði fyrir sömu minningarathöfn.

Þegar Sveinbjörn orti lagið við "Ó, guð vors lands", var hann fyrir skemstu sestur að í Edinborg, önnum kafinn við kenslu, og hafði fátt eitt skrifað, sem á prent hafði út komið. En samt rann þetta fyrsta lag hans við íslenskan texta svo inn að hjartarótum þjóðarinnar, að engum datt til hugar um langa tíð, að hann hefði ort nokkuð annað í tónum. Það lag eitt gaf honum eilífan tilverurétt.

Það fer því ekki að ólíkindum, að það muni koma flatt upp á marga, jafnvel enn, þegar þeir heyra, að eftir hann liggja á prenti um eða yfir 60 sönglög og önnur tónverk, frumsamin og endurskrifuð, og meira en helmingi fleiri óprentuð. Það, að svona mikið liggur í handriti og ekki líklegt til að verða prentað, er útaf fyrir sig ómetanlegur skaði fyrir íslenskt sönglíf og tónlistarstarfsemi. Eg þori að fullyrða, að margt af hans allra merkustu, og frá hljómfræðislegu sjónarmiði stærstu, tónsmíðum eru í flokki hins óprentaða.

Hér verður ekki farið út í það, að leggja nein listfræðileg met á hvert einstakt lag eða tónverk. Enda mundi dómur þess, er þetta ritar, naumast talinn ábyggilegur. En til þess að bæta upp fyrir það, birtist hér aftan við listi yfir öll verk hans, frumsamin, raddsett og endurskrifuð, eins og eg fékk hann frá erfingjum hins látna. Því miður eru þau ekki ávalt

í réttri aldursröð, og höfundanöfn kvæðanna eru mér fæst kunn.

Eftir að Sveinbjörn hafði ljóðað þetta fyrsta lag við íslenskt kvæði, virðist hann hafa lagt sig eftir enskum kvæðum eingöngu til lagasmíða; enda það eina, sem vænlegt var til sigurs. En hann tók stundum kvæði um norræn efni, svo sem kvæði Longfellows úr "The Wayside Inn", o. s. frv. Til þessa tímabils má óhætt telja fyrstu 20—26 lögin á prentaða listanum og all-flest af þeim 30 lögum við ensk kvæði, sem talin eru sérstaklega í lista hinna óprentuðu laga, auk ýmislegs fleira. Pentland útgáfufélagið sem prentaði flest af verkum hans, taldi sér síður ábata von í útgáfu söngva með útlendum texta. Þó gáfu þeir út á seinni árum íslensku þjóðlögin, sem að vísu höfðu flest enska texta jafnframt þeim íslensku, ennfremur "Fánann" og einhver fleiri á íslensku.

Um síðustu aldamót fara að birtast eftir hann lög við íslensk ljóð. Má vera að það hafi að einhverju leyti verið í sambandi við það, að þá voru Íslendingar, sem oft voru á ferð til Khafnar eða heimleiðis, farnir að venja komur sínar til þeirra hjóna, þeim til ósegjanlegrar ánægju. Fyrstur held eg að hafi komið "Landnámssöngur Íslands", við Ingólfsminni séra Matthíasar, er fyrst var sungið á þjóðhátíðinni 1874 undir steðjaslætti Jónasar organleikara Helgasonar, sem reyndar bjó til fáein einkar þýðleg og snotur smálög. Eftir það yrkir Sveinbjörn hvað af hverju lög við íslensk kvæði, og hafa mörg af þeim aldrei verið prentuð, svo sem hið meistaralega lag "Valagilsá", sem hann einnig endurritaði fyrir píanó-leik. Meðal helstu enskra tónverka frá því tímabili er flokkur söngva, er hann gerði fyrir enska rithöfundinn Hall Cane, og fluttur var í Drury Lane leikhúsinu í Lundúnum 1905 í sambandi við leikinn "Prodigal Son", sem höfundurinn hafði sniðið upp úr sögu með sama nafni, eftir sjálfan sig, um íslenskt efni.

Þá koma konungaskifti í Danmörku og væntanleg heimsókn Friðriks konungs VIII til Íslands. Var Sveinbirni þá falið að yrkja Kantötu við ljóðaflokk eftir Þorstein skáld Gíslason. Var hún í 5 flokkum (kvæðin voru 7), en einhverra orsaka vegna voru aðeins fjórir prentaðir. Þessi söngvaflokkur var fluttur í fyrsta sinn í Alþingishúsinu í Reykjavík við konungskomuna árið 1907, og svo síðar þar heima, hér vestra og víðar.

Um það bil, að Sveinbjörn kom hingað vestur í fyrsta sinn, mun hann hafa fyrst farið að gefa sig að alþýðusöngvunum íslensku; enda hafði Þjóðlagasafn séra Bjarna Þorsteinssonar, sem prentað var í Khöfn á árunum 1906—1909, þá fyrir skemstu komið á bókamarkaðinn. Fyrsta lagið úr þeirri átt var "Lover's Lament", sem hann endursamdi upp úr "Björt mey og hrein", og gaf út hér vestra og tileinkaði Vestur-Íslendingum. Söng hann það hér fyrsta veturinn (1911—1912) á samkomum; sömuleiðis lék hann útsetningu af því með tveimur öðrum á píanó, knéfiðlu og fíólín. Það var hinn yndislegasti strengleikur; en því miður mun hann hafa glatast. Báða þá vetur, sem hann dvaldi einn hér vestra, en einkum þó Seattle-veturinn, mun hann hafa

fengist mest við raddsetningu þjóðlaganna. Þann vetur var hann tíður gestur á heimili þeirra hjóna Ísaks byggingarmeistara og skáldkonunnar Jakobínu Johnson. Þýddi hún á ensku tvö kvæðin fyrir hann, en dóttir hans, Helen, endurkvað á ensku efni flestra hinna, eftir að hann kom heim til Edinborgar um vorið. Mér var vel kunnugt, að honum þótti æ vænna og vænna um þjóðlögin, eftir því sem hann sökti sér meira niður í þau, enda þótt hann efaðist um, að þau væru öll af innlendum uppruna. Í þessu sambandi get eg ekki stilt mig um að taka í leyfisleysi örfá orð úr bréfum hans til frú Jakobínu frá vorinu og sumrinu 1914:

"Mér er það sönn ánægja, að senda þér eintak af íslenskum þjóðlögum, sem meðal annara hefir inni að halda lögin, sem þú þýddir kvæðin svo snildarlega við. Þú munt líka taka eftir því, að sum hin lögin hafa einnig enska texta. Helen dóttir mín hefir gert þá, og er það fremur endurkveðið en þýtt. . . ."

Og svo tveimur mánuður síðar:

"Það gleður mig sannarlega að heyra, að þú ert ánægð með frágang minn á gömlu lögunum. Mörg þeirra voru mér í minni síðan eg var barn; og eg verð að segja, að af fáu hefi eg haft meiri ánægju en því, að raddsetja þau. Það er líkast því, og að mæta að nýju hjartkærum fornvinum og rifja upp með þeim gamlar og stundum hálfgleymdar endurminningar. . . ."

Á Winnipeg árunum orti hann allmörg sönglög, bæði til einsöngs og fyrir hópsöng; mætti þar til nefna "Móðurmálið", "Roðar tinda", "Á ströndu", "Sveitin mín" og mörg fl. — öll óprentuð. Þá skrifaði hann og tvo píanó-einleiki, sem hann nefndi "Icelandic Rhapsody" No. 1 og No. 2, ofin utan um íslensk þjóðlög. Ennfremur umskrifaði hann allmörg af lögum sínum og annara fyrir píanóslátt. Þá raddsetti hann og 18 sönglög eftir Þórarinn Jónsson organleikara við Unitarakirkjuna hér og víðar, og lét svo um mælt, að hann hefði dýpri eðlisgáfu til sönglagasmíða en nokkur annar, sem hann hefði gjört samskonar verk fyrir.

Eftir að heim til Evrópu kom sat hann heldur ekki auðum höndum. Frá þeim tíma stafa lögin "Sprettur", "Þú nafnkunna landið", "In Vernalis Temporis" og fleiri. Í Khöfn fékst hann einkum við að koma verkum sínum á hljómplötur, og að umskrifa og frumskrifa fyrir strokhljóðfæri og píanó, og fyrir fult orkestur. Eftir alllanga upptalningu á verkum af þessu tæi í síðasta bréfi sínu, segir hann meðal annars:

"Eins og þú minnist á í bréfi þínu hefi eg samið tónverk fyrir hátíðahaldið 1930; er það hátíðar-polonaise fyrir stórt orkestur. Síðarmeir samdi eg þetta verk fyrir píanóforte og strokhljóðfæri, og lék eg það með fjórum músíkölskum kunningjum á síðustu samkomu Islansk - Dansk Samfund's. Eg nefni þetta vegna þess, að af misskilningi komst inn í íslenskt blað, að eg hefði samið Kantötu fyrir 1930, en það er ekki svo."

Dr. Valtýr Guðmundsson segir svo í grein, er hann ritaði um Sveinbjörn rétt fyrir aldamótin:

"Hann er mjög íslenskur í anda, og hans mesta þrá er, að semja lög við söngleik út af einhverri íslenskri fornsögu. En hann vantar hentugan,

ljóðaðan texta til þess, og væri vert fyrir íslensku skáldin, að spreyta sig á honum, svo vöntun hans þyrfti ekki að vera því til fyrirstöðu."

Eg get með fullri vissu sagt, að þetta var reynt. Leikurinn átti að vera í sönnum óperusorgarleiks stíl: mansal, leyndar ástir, svikin tiltrú, vonbrigði og sorg, og svo að líkindum manndráp, dauði eða sjálfsmorð. Sveinbjörn og Einar Benediktsson töluðu sig saman um þetta. Leikurinn átti að vera í ljóðum og lausrímuðu máli — eitthvað í sambandi við Tyrkjaránin á Íslandi. En þeir gátu ekki komið sér saman. Báðir stórlyndir og ofstopafullir, ef um árekstur andstæðra skoðana var að ræða. Sveinbjörn að sjálfsögðu hugsaði fyrst og fremst um fegurð lagsins og samhljómanna og næst eða jafnframt hrynjanda og tilbreytni í formi. Einar aftur á móti þrammaði á sterkum og stoltum bragafótum, með innofna, þunglamalega og bundna hætti. Þessi tilraun hafði því bráðan enda. En til merkis um hana eru tvö kvæðabrot í "Vogar" eftir Einar, sem hann nefnir "Óttar Serkjahersir" og "Serkjadans". Og í óprentuðum tónbrotum Sveinbjarnar er að minsta kosti eitt, sem segir til nafns. Það heitir líka "Serkjadans", og átti að vera inngangur að sóló og kór kvæðisins með því nafni. Þrátt fyrir þetta orti hann lög við kvæði Einars bæði fyr og síðar; má þar til nefna "Til fánans", "Væringjar" og fleiri. Sveinbjörn mat Einar mikils sem skáld, en Einar áleit Sveinbjörn lítið tónskáld, og fékk meira að segja ítalskan skussa til að semja lag við hið snjalla kvæði "Vestmannavísur", sem drap kvæðið og drekti sjálfu sér um leið. Minnir það ekki svo lítið á Goethe, sem aldrei vildi eða kunni að meta lög Schuberts við kvæði sín, og tók öll önnur tónskáld fram yfir hann, þangað til heimsfræg söngkona svo að segja þrengdi "Álfakonginum" niður í kokið á honum.

— — — —

Að maklegleikum fékk Sveinbjörn margar heiðursviðurkenningar. Fyrir lagið "Ó, guð vors lands", var honum veittur heiðurspeningur úr gulli, og ást alþjóðar, sem er öllu gulli dýrri. Í tilefni af konungs-kantötunni var hann sæmdur riddarakrossi Dannebrogs-orðunnar. Árið 1909 hafði hann hljómleika í Kaupmannahöfn, eingöngu af sjálfs síns verkum. Heiðraði Friðrik konungur hann þá með nærveru sinni, drotning hans og öll konungsfjölskyldan, systur konungsins Alexandra Englandsdrotning og María keisaraekkja frá Rússlandi, auk sendiherra Bandaríkjanna og Englands, og fleira stórmenni þeirrar tíðar. Árið 1911 veitti Friðrik konungur honum að síðustu prófessors nafnbót.

## IX.

Prófessor Sveinbjörn Sveinbjörnsson var meðalmaður á hæð, grannvaxinn, kvikur á fæti; augun stór, gráblá, snör og leiftrandi, eða blíðleg og hýr — alt eftir mismunandi geðbrigðum. Höfuðið minti mjög á höfuðlag tónlistamannsins, eins og sjá má á myndinni. Hárið var silfurhvítt á efri árum, en hafði verið þykt og dökkjarpt fram eftir aldri. Hann hafði hreina og hreimmikla bassarödd, og beitti henni vel; var nokkur hæfa fyrir því, sem dr. Valtýr segir,

að manni hafi fundist gneistar standa út frá honum, þegar hann handlék hljóðfærið og söng með. Hann hafði öðlast ákveðinn stíl við hljóðfærið engu síður en í tónyrki sínu.

Hann mun hafa iðkað einna mest tónverk Beethovens og Liszts, og lék þau af eldmóði, hjá Chopin lét hann mann dreyma, en með Mozart og Schubert klappaði hann manni á vangann. Hann lék ávalt af tilfinningu og skilningi, og því varð maður aldrei þreyttur eða leiður af að hlusta á hann. Hann eyddi meirihluta ævinnar í það, að kenna öðrum, og því væri als ekki sanngjarnt, að jafna honum við stærstu listamenn samtíðar sinnar, en þó gerði sú hugsun stundum vart við sig í huga manns, hvort hann hefði ekki eitthvað það til brunns að bera, sem þeir höfðu ekki.

Manneskjan, sem þekti hann best, lýsir skapferli hans svo í fáum orðum:

"Hann var víðsýnn, góðhjartaður, blíðlyndur, með mjög ákveðinni skapfestu undir niðri, sem kom upp á yfirborðið, þegar svo við horfði. Hann var bjartsýnn að eðlisfari, og speglast þau lundareinkenni í tónverkum hans, sem eru yfirleitt fjörleg og með gleðibrag. Þessi andi bjartsýnis fylgdi honum til daganna enda, og birtist meðal annars í ást hans á tónlistinni og góðum bókum, og í þátttöku hans í kjörum meðbræðranna. Hann talaði og las mörg tungumál, hafði gaman af manntafli og spilum, átti skarpa kýmnisgáfu og var hrókur alls fagnaðar í samkvæmislífinu." — Við þetta mætti bæta, að í daglegri umgengni var hann kátur og ástúðlegur; en það gat fokið í hann skyndilega, ef honum fanst virðingu sinni misboðið. Hann var mjög gestrisinn heim að sækja, enda var öll fjölskyldan honum þar samhent.

Eins og tekið er fram í þessum kafla úr bréfi frá ekkju Sveinbjarnar eru tónverk hans yfirleitt glaðleg, hressandi og létt í spori — og, við mætti bæta, oftast karlmannleg; þó verður við og við vart þægilegs þunglyndis í sumum sönglögunum, svo sem "Hvar eru fuglar?", "Á Ströndu" og í nokkrum þeim ensku. En aftur á móti kennir þar hvergi hins djúpa söngvatrega, sem einkennir til dæmis Schubert svo oft, og nær hámarki í ástarsöngvum Tistrams og Ísoldu hjá Wagner, og á myrkustu stundum Tschaikowskys.

Þegar hann samdi sönglög, sagði hann mér sjálfur, þá las hann kvæðið fyrst vegna efnisins, þar næst setti hann á sig vandlega hljóðfall eða hrynjanda háttarins; en ef honum fanst það ekki láta að stýri, gaf hann það upp á bátinn. En rynni hvorttveggja saman í eina ljúfa heild í huga hans, settist hann vanalega að hljóðfærinu og dró upp lauslega mynd í tónum, áður en hann festi nokkuð á pappírinn. Honum var ant um, að undirraddirnar túlkuðu engu síður, eða jafnvel fremur en söngröddin, anda kvæðisins. Samanber hófahljóðið í "Ólafur og Álfamær", hraðinn og þeysireiðin í "Sprettur", og straumfallið og vorleysingin í "Valagilsá". Þessvegna féll honum líka svo vel lífsgleðin og hið heiða útiloft í ferðakvæðum Hannesar Hafstein.

Annars var það skaði, hve seint og

lítið hann kyntist bestu skáldum samtíðar sinnar heima. Sum vel þekt skáld þekti hann naumast, eins og t. d. Þorst. Erlingsson, Guðm. Guðmundsson og fleiri, sem sjálfgjörðir eru svo að segja fyrir tónskáldskap. Kendi þess jafnvel í samræðum. Hér er eitt dæmi. Einu sinni vorum við, nokkrir strákar, að æfa með honum "Ó, blessuð vertu sumarsól", og segi eg þá í gamni og ógætni: "Þú hefir gert þetta lag við dönsku þýðinguna eftir Olaf Hansen en ekki við frumkvæðið." Hann sendi mér allra snöggvast leiftrandi augnaráð, sem snerist þó strax í bros og sagði: "Hvernig veistu það?" og eftir andartak bætti hann við: "Það er reyndar satt. Maður, sem var mér samferða á skipi milli Skotlands og Danmerkur, gaf mér þetta kver Ólafs. Kvæði Páls Ólafssonar hafði eg þá aldrei séð."

Sannleikurinn var sá, að hann varð viðskila við þjóð sína í fullan fjórðung aldar. En það, sem bjargaði honum, var, að hann var í eðli sínu tungumálahestur — kunni latínu, þýsku og öll Norðurlandamálin vel, auk ensku og íslensku. Þegar það er íhugað, að hann er uppalinn í Reykjavík á þeim árum, sem hún var hálfdanskt smáþorp, fær mentun sína meira en að helmingi á útlendum tungum, og fer svo, tvítugur unglingurinn, alfari af landi brott, fær tónlistarfræðslu á framandi tungum, elur önn fyrir sér hjá útlendri þjóð og kvongast svo að lokum þarlendri konu — þá eru það stærstu undrin, hve töm honum varð íslenskan, eftir að hann fór að tala hana og skrifa aftur. Hann átti þó fátt íslenskra bóka, og vanst lítill tími til lesturs, því hljómlistin var honum fyrir mestu. Dóttir hans sagði okkur einu sinni sögu af föður sínum. Þegar það skeði, var hún lítil stelpa. Kenslustofa hans var uppi á lofti í húsi þeirra í Edinborg. Einu sinni, eftir að kenslustundum var lokið að afhallandi degi, heyra þær mæðgur hávaða og samtöl uppi. Þær höfðu ekki opnað húsið fyrir neinum gesti, og allir nemendur voru farnir, svo þær fóru að grenslast um, hverju sætti. Hann var þá í óða önn að tala við sjálfan sig — á íslensku, og dró ekki af framburðinum. Játaði hann þá, að hann gerði þetta oft.

Mig minnir, að einhver segði einhvern tíma, að fyrst, þegar Sveinbjörn fór að gefa sig við tónsmíðum við íslensk kvæði aftur, hafi hann verið orðinn svo enskur í anda, að hann hafi ætlað að þýða kvæðin fyrst á ensku og yrkja svo lögin við þau. Þetta held eg að hafi verið hinn mesti misskilningur. Með því var hann aðeins að fylgja algengri reglu, sem tíðkast um víða veröld, að hafa söngtextana á fleira en einu tungumáli til þess að auka útbreiðslu söngvanna. Þetta gerði hann með Þjóðlagasafnið og "The Lovers Lament", sem hann sneið uppúr laginu við "Björt mey og hrein", eftir séra Stefán í Vallanesi, sem áður er sagt.

Í áðurnefndri grein dr. Valtýs, og eg held víðar, er því haldið fram, að sönglög Sveinbjarnar, jafnvel þau við ensku kvæðin, séu ramm-íslensk í anda. Ekki skil eg vel, hvernig komist verður að þeirri niðurstöðu. Í fyrsta lagi er það vafasamt, hvert nokkur stíll eða skóli er enn til í íslenskri tónment. Vér eigum að vísu allmörg alþýðulög, tvísöngslög og rímnastemmur, sem óefað eru íslensk.

En ekki verður áhrifa þeirra vart í hinum frumsömdu sönglögum hans. Þjóðlögin og útsetning þeirra var aðeins tímabil í tónræktarsögu hans, og kom ekki fyr en löngu eftir að þessi ummæli voru höfð. En hann átti það sammerkt við önnur merk tónskáld, eigi síður en betri ljóðskáldin, að hann hafði myndað sér nokkurn veginn sérstakan stíl, einkum á seinni árum, svo að vel mátti ráða í um höfundinn, þótt maður hefði aldrei heyrt lagið áður. En er sá stíll íslenskur? Þá spurningu læt eftir sérfræðingum íslenskrar tónlistar að svara.

Annars háðum við marga snerru um þjóðlögin, sem hann hélt fram, að mörg hver væru af útlendum uppruna; og í síðasta bréfi sínu getur hann allnákvæmlega um blaðadeilur, sem hann hafi lent í við Jón Leifs, Emil Thoroddsen og séra Bjarna Þorsteinsson útaf tvísöngnum íslenska, sem hann fullyrti að þekst hefði víðar um heim og fyr en á Íslandi.

Síðan hefir mér stundum dottið til hugar í einfeldni minni, að rímnalögin eigi fyrirmynd í Gregoríanska kirkju-baulinu, þau fyrstu að minsta kosti, og svo fengið meiri tilbreytni, eftir því sem rímnaháttunum fjölgaði. Tvö af hinum fallegustu alþýðulögum íslenskum eru við kvæðin "Björt mey og hrein" og "Eg veit eina baugalínu" eftir séra Stefán Ólafsson, og gætu verið eftir hann sjálfan, því hann var einnig talinn tónskáld og góður söngmaður, eða þá að hann hafi lært lögin í útlöndum. Magnús Grímsson var söngvinn og "verulegt skáld á blíð og lýrisk kvæði", segir Gröndal. Hann orti "Bára blá", óefað til söngs. Það lag gæti auðveldlega verið brot úr stærra tónverki eftir Weber. "Ólafur og Álfamær" hefir öllum lögum fremur verið talið íslenskt þjóðlag eða Vikivaki. Ef það var þekt og sungið á Íslandi fyrir 1823—1825 má telja það ekta; annars mundi eg freistast til að halda, að það eigi uppruna sinn í innganginum að "Rosamunde" eftir Schubert. Aldur margra þessara laga þyrfti að rannsaka. En þetta eru nú útúrdúrar.

Enda þótt Sveinbjörn hefði öðlast nokkurn veginn sérstakan stíl í tónlist, vílaði hann eigi fyrir sér, fremur en flest önnur tónskáld, að byggja sum verk sín á eldri lögum. Þannig má segja, að hornsteininn að "Sverrir konungur", sem er eitt hið allra tilþrifamesta sönglag hans, sé að finna í lagi Lúters, "Óvinnanleg borg". Sama er að segja um konungs-kantötuna, þar sem alþekt danskt lag er ofið inn í einn þáttinn. Þá er og "In Vernalis Temporis" ort mjög í dönskum stíl, og "Ó, guð vors lands" greinilega í anda Beethovens.

Eins og áður er sagt, gaf hann sig á seinni tíð meira en áður að því, að skrifa fyrir ýms hljóðfæri önnur en mannsröddina, og lagði hann þá ýmist sín eigin verk eða annara til grundvallar. En í öllu því, er eg kyntist af því tæi, var píanó-þátttakan ávalt yfirgnæfandi parturinn. Hann náði, að eg held, aldrei fullum tökum á töfrasprota fiðlunnar né skilningi á víðfeðmi hennar, og því tóku þær raddir, er hann skrifaði fyrir strokhljóðfæri, sjaldan mikið út fyrir svið mannsraddarinnar. En þrátt fyrir það voru þær ávalt sætróma og aðlaðandi.

X

Eg átti oftar en einu sinni tal við Sveinbjörn um lagið "Ó, guð vors lands". Hann var vitanlega hrifinn og þakklátur yfir því, að það skyldi hafa unnið sér hefð sem þjóðsöngur Íslands.[1] En hann viðurkendi jafnframt, að það hefði þann annmarka, að taka yfir of vítt raddsvið fyrir allan almenning og, að versið væri of andlegs eðlis. Sagði, sem satt var, að hvorttveggja hefði verið samið fyrir þenna einstæða atburð — þúsund ára hátíðina — og hefði engan þá dreymt um, að gera úr því þjóðsöng.

Enn, sem komið er, hefir ekkert annað lag íslenskt verið samið við íslensk ættjarðarkvæði, er jafnist á við þetta, að tignarbrag og alvöruþunga; svo ef einhvern tíma kemur að því, að íslenska lýðveldið löggildi hjá sér þjóðsöng, þá heldur þetta lag eflaust áfram að verða ofarlega á baugi. Mætti þá til sanns vegar færa, það sem Björnstjerne Björnson sagði á einhverjum stað, að það sé þó gott, að eitthvað liggi svo hátt, að hver maður nái því eigi.

1) Fyrir nokkru skrifaði eg greinarstúf í þetta tímarit um nýjan þjóðsöng fyrir Ísland. Sýndi eg þar fram á, að flest bestu ættjarðarkvæðin væru ort við útlend lög, og að eina verulega undantekningin, "Ó, guð vors lands", væri of erfitt til alþýðusöngs, og sálmurinn ekki vel viðeigandi. Er mér sagt, að fornkunningi minn heima hafi ráðist á hana með fúlmannlegum útúrsnúningum, en hvergi minst á neitt af þessu, né heldur það, að enginn þjóðsöngur hefir enn verið löggiltur, svo hver má að ósekju syngja það er hann lystir við hátíðlegar eða opinberar athafnir. Bandaríkin voru nákvæmlega í sömu súpunni. Þar voru ýmiskonar lög sungin eða blásin, þangað til "Star Spangled Banner" var löggilt fyrir fáum árum. Canada er enn óákveðið, þótt "O,Canada" sé oftast sungið nú orðið. Á síðasta þingi, ef eg man rétt, var talað um nýjan þjóðsöng, í sambandi við fánann, sem enn er ekki ákveðinn.

## LIST OF COMPOSITIONS

**By Sv. Sveinbjörnsson**

---

PUBLISHED

**Vocal Solos**

1. Miranda.
2. The Windmill.
3. Up in the North.
4. The Song of the Country.
5. The Fairies.
6. The Willow Song.
7. Soldier Rest!
8. The Soldier's Dream.
9. The Fisher's Call.
10. When the Boats Come Sailing In.
11. Serenade.
12. Two Sacred Songs.
13. The Challenge of Thor.
14. The Viking's Grave.
15. The Yankee Girl.
16. Come To Me.
17. On Rippling Waters.
18. Echo.
19. The Troubadour.
20. The River's Whisper.
21. Trysting.
22. The Lords of the Main.
23. War.
24. Two Spring Songs.
    (Like a Lilac & Apple Blossoms)
25. Green and Gold.
26. Winter Roses.
27. Vetur (Steingrímur Thorsteinson).
28. King Sverre (Grímur Thomsen)
29. The Lover's Lament.
    Founded on an Icelandic folksong.
    (Inscribed to the Icelanders in America).
30. Ísland, þú nafnkunna landið.
    (Eftir Bjarna Thorarensen).
31. In Vernalis Temporis.
32. Sprettur (Hannes Hafstein).
33. Fáninn (Einar Benediktsson).

**Vocal Duets**

1. The Month of Maying.
2. In Pride of May.

**Volume**

Volume of Twenty Icelandic Folksongs.

**Partsongs**

1. The Icelandic National Hymn. Ó, guð vors lands (for mixed voices). With Icelandic and Danish Text. Words by Matthías Jochumsson.
2. Cantata (containing three choruses and solo).
   1. Sóló og kór (Introductory).
   2. Dana gramur.
   3. Danmerkur ljóð.
   4. Norræni stofninn.

   Words by Þorsteinn Gíslason.
3. Páskadagsmorgun (Anthem for mixed voices), with Icelandic and English Text. Words by V. Briem.
4. O Lovely is the Fatherland.
5. Snowdrops.
6. Iceland (for mixed voices). (Jón Thóroddsen).
7. Landnámssöngur Íslands. (Matthías Jochumsson).
8. Ísland. (Valtýr Guðmundsson).
9. May Song.

**Pionaforte Solos**

1. Menuet & Trio.
2. Impromtu.
3. Descriptive Pieces for the Young.
4. Pastorale.
5. Vikivaki (founded on two Icelandic folksongs).
6. Idyl (founded on an Icelandic folk song).

**Pianoforte Duets**

1. Íslands Nationalhymne.
2. Scottish Dances.
3. Descriptive Duets for the Young.

**Duets for Violin & Piano**

1. Berceuse.
2. Saga.
3. Humoreske.
4. Lyriske Stykker.
5. Vuggevise.

## LIST OF COMPOSITIONS
**By Sv. Sveinbjörnsson**

---

UNPUBLISHED

**Vocal Solos** (Icelandic text)

1. Valagilsá (H. Hafstein).
2. Væringjar (Einar Benediktsson).
3. Frón.
4. Sumarvísa.
5. Roðar tinda sumarsól (Einar P. Jónsson).
6. Á ströndu (Kr. Stefánsson).
7. Hugsað heim.
8. Visnar vonir.
9. Að leikslokum.
10. Til næturinnar.
11. Sumardagur.
12. Köbenhavn.
13. Ræða Warrens (an address).
14. Der Sommerabend.
15. The Ghost (Danish Melody). Arranged.

**Vocal Solos**

(Scandinavian folksongs—arranged)

1. Stóðum tvö í túni (Icelandic).
2. Ólafur og Álfamær (Icelandic).
3. Ó mín flaskan fríða (Icelandic).
4. Stóð jeg úti tunglsljósi (Icelandic).
5. Ja sku a ha lyst at gifte mig (Norwegian).
6. Dovre fjæld (Norwegian).
7. De vare syv og Syvsindstyve (Danish).
8. En Sommerdag (Danish).
9. Grimmer han gar paa Gulvet (Swedish).
10. Per Svinehyrde (Swedish).
11. Nackan (Swedish).
12. Kærasta Brödra (Swedish).
13. Dit du ikke vil (Swedish).
14. Nu lunke vi (Swedish).

**Vocal Solos** (Set to English words)

1. Shed No Tears.
2. Daisy's Song.
3. My Dove.
4. The Feathers of the Willow.
5. I've Been Roaming.
6. The Butterfly.
7. The Fairy's Wedding.
8. The Daffodils (with Icel. words by Gísli Jónsson).
9. When I Am Dead.
10. The Lure of Little Voices.
11. White Heather.
12. Reveille.

13. All Suddenly the Wind Comes Soft.
14. Song of the West Wind.
15. The Masquerade.
16. The Streamlet.
17. To the Nightingale.
18. June.
19. O Ships That Pass in the Night.
20. Norwegian Boat Song.
21. Hunting Song.
22. Dark Brown is the River.
23. Wandering Wishes.
24. The Rainy Day.
25. Lullaby (Vis, Vis) arranged.
26. The Flag of Flags.
27. Hymn (Sleep Thy Last Sleep).
28. I Love This Land.
29. Where Thou Art Loath To Go. With English & Swedish text.
30. Shepherd Show Me How To Go.

**Vocal Duets for the Karlakór**

1. Ó, guð vors lands.
2. Ingólfsmyndin.
3. Frón.
4. Sveitin mín (words by Stephan G. Stephansson). Fyrir fimm blandaðar raddir og sóló.
5. Sveitin mín (fyrir fimm ósamkynja raddir).
6. Séra Magnús settist upp á Skjóna. (Canto fermo og tvöfalt contrapunctum).
7. 'Cello Obligato to "Echo".
8. Heilir Frændur, (fyrir tvær bassa raddir). Nr. 8 er sá partur konungs-kantötunnar sem ekki var prentaður.

**Literary Works**

1. Treatise on Harmony (written in English).
2. Treatise on Pianoforte Touch (written in English).
3. Northern Folksongs. Lecture with musical illustrations. (No. 3 was printed by the Viking Club, London, in 1907.

**Partsongs for Male Voices**
(Set to Icelandic words)
The Property of Jón Haldórsson's Karlakór

1. Ísland (Töframynd í Atlantsál).
2. Ísland (Ó, fögur er vor fósturjörð).
3. Sumarkveðja (Ó, blessuð vertu sumarsól).
4. Aldamótakvæði.
5. Móðurmálið (Er vindur hvin). — Words by Gísli Jónsson.
6. Ólafur og Álfamær (Ólafur reið með björgum fram). Arranged.
7. Dalvísur (Fífilbrekka gróin grund). Arranged.
8. Til stjörnunnar.
9. Að leikslokum.
10. Dettifoss (Þar sem aldrei á grjóti gráu). Words by Kristján Jónsson.
11. Þar sem elfan er tær.
12. Ingólf's minni.

**Partsongs** (For mixed voices)

1. Morning.
2. Anthem on one of David's Psalms. (With organ accompaniment).
3. Te Deum (Organ Solo & Chorus).
4. Shepherd Show Me How To Go.
5. Profanity.
6. The Fields in May.
7. The Fairy Queen.
8. The Power Beyond the Thunder Clouds.
9. Sveitin mín. (With Icelandic & English text).
10. We Praise Thee O Lord.
11. Ved Korsets Fod. (Hymn for boy's voices, with organ accompaniment).

**Pianoforte Solos**

1. Icelandic Rhapsody. No. 1.
2. Icelandic Rhapsody. No. 2.
3. Álfadans.
4. Séra Magnús og Látum af hárri heiðarbrún.
5. Íslenskur vöggusöngur.
6. Árniðurinn (Transcription).
7. Barcarolle in B. Flat.
8. Paraphrase.
9. Fagurt galaði fuglinn sá. (Transcription.
10. Sverrir konungur. Transcription.
11. Scottish Songs. Transcription.
12. Austan kaldinn á oss blés. Transcription.

13. Björt mey og hrein. Transcription.
14. Roðar tinda sumarsól. Transcription.
15. Daffodils. Transcription.
16. Fairies' Wedding. Transcription.
17. I've Been Roaming. Transcripiton.
18. Shed No Tears. Transcription.
19. Valagilsá. Transcription.
20. The Feathers of the Willow. Transcription.
21. The Yankee Girl. Transcription.
22. Vuggevise.
23. Hugsað heim.
24. Á ströndu.
25. Wedding March.
26. Serkjadans (unfinished), founded on a Moorish melody.
27. Fyrir lága karlmannsrödd.
28. Þar sem elfan er tær.

**Pianoforte Duets**

1. Icelandic Rhapsody, No. 1.
2. Novelette.
3. Springtime
4. Romance, by Johan Svendsen. (Arranged as a Pianoforte duet).
5. Symphony in G. Minor by Mozart. (Arranged as a Pianoforte duet).
6. Danmark's Minde (from the Cantata) arranged.

**Instrumental Music**

1. Trio in E.
2. Trio in A.
3. Sonata (for Violin & Pionaforte).
4. Reverie (for Violincello & Pianoforte).
5. Foraarstemning (for Pianoforte, Violin & 'Cello).
6. In Vernalis Temporis (for Strings, Flute & Clarinet).
7. In Vernalis Temporis (fyrir strokhljóðfæri, flauter og klarnietter).
8. Vikivaki (for strings).
9. Reverie (for Flute, 'Cello & Harp).
10. Sonata in F. (for Violin & Pianoforte).
11. Fest Polonaise.

**Orchestral Music**

1. Morgen (for orchestra & choir).
2. Spring.
3. Íslandia.
4. Olaf and the Fairy.
5. The Power Beyond the Thunder Clouds.
6. Ísland. Words by Hannes Hafstein.
7. Reveille. (Song with orchestral accompaniment).
8. War.
9. The Challenge of Thor.
10. The Icelandic National Hymn (with orchestral accompaniment).
11. The Icelandic National Hymn (for the small orchestra).
12. Icelandic Rhapsody No. 1 (for the full orchestra).
13. Icelandic Rhapsody No. 2 (for the full orchestra).
14. Ísland farsældar frón (for the full orchestra).
15. Arise (chorus with orchestra & organ).
16. Fairy Dance.
17. Kantata.
    1. Velkominn hilmir af hafi.
    2. Dana gramur.
    3. Danmerkur ljóð.
    4. Norræni stofninn.
18. Incidental music for Hall Caine's "Prodigal Son":
    1. Elin's Song.
    2. Kyrdekor.
    3. Thora's Death.
    4. Chorus for Boys.

# Ein tilraunin um manninn

Eftir Guttorm J. Guttormsson

---

Og sögn er að herrann braut heilann og vann
Í himneskri tilraunastofu,
Nú skyldi hann framleiða fullkominn mann,
Ei frum-mann úr engu, né vofu.

En fullkominn maður var augum hans í
Jafn-afburða vondur og góður.
Öll dygð yrði meiri á metunum því,
Í manninum eilífur gróður.

Og þá eins og fyrr, en ei síðar, það sást:
Á sigur hins góða hann treysti,
Og manninum skyldi hann úthluta ást
Sem í væri hatursins neisti.

Hann þurfti í flýti að fara o'ná jörð
Að finna sér tvo í þann eina,
Helst einhvern sem dulklædda úlfinn í hjörð
Og annan sem vínviðinn hreina.

Þeir tveir skyldu ráða um útlit þess eins
Sem áttu þeir báðir að vera.
Og fegurð hins góða ei fanst þeim til meins,
Sá fullkomni skyldi hana bera.

Og þegar hinn eini var orðinn úr tveim
Af almætti sérlega högu,
Hann sendur var niður af himni í heim
Í heild til að skapa sér sögu.

Hinn góði hélt áfram sem líknandi lið
Án launa, án þakka og gróða,
Sá vondi sín óknytti framdi í frið,
En fyrir þau hegnt var þeim góða.

Og herrann nú sá það ei sársaukalaust,
Að síst fór að því er hann vildi,
Og takmarki að ná ei hans tilgangi hlaust,
Svo tvímennin sundur hann skildi.

Sá vondi hélt leið sína fleygur og frjáls
Og fegurð hins góða ei blektur,
Og af því hann hafði nú andlit sín sjálfs,
Af afbrotum varð hann ei þektur.

Og sigur hins illa úr býtum hann bar,
Þá bara um sannleikann rengdur,
En fyrir þá glæpi, er hann gert hafði, var
Hinn góði og saklausi hengdur.

---

# Fýlupokinn

Eftir Guttorm J. Guttormsson

---

Með andfýlu, hryglu og hrotum
Og hugans svörtu lút
Hann hefst við í skúmaskotum,
Og skríður þaðan út.

Hann staðnæmist steini lostinn
Af stygð við gleðihljóm.
Og augu hans eru brostin
Sem undir hinsta dóm.

En gleðina manns hann myrðir
Með myrkri úr augum tveim;
Og menn eru margir stirðir
Fyrir' Medusuhausnum þeim.

Í heiminum er hann hálfur
Á heimleið í sína kör,
Og eini syrgjandinn sjálfur
Við sína jarðarför.

# Nýárs-Kveðja til íslensku þjóðarinnar

**Frá Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi.**

**Flutt af forseta þess, séra Valdimar J. Eylands.**

**Talað á plötu í Winnipeg, Man., 4. des. 1946.**

---

Kæru þjóðbræður og systur:

Gleðilegt nýár—

Þökk fyrir gamla árið—

Þannig mun nú flestir Íslendingar mæla, er þeir hittast þessa daga, hvar í heimi sem þeir dvelja. Þannig viljum við Vestur-Íslendingar, einnig ávarpa ykkur, þjóðbræður okkar og systur fyrir handan hafið. Við Vestur-Íslendingarnir höfum enn ekki týnt sjálfum okkur né Íslandi. Þótt margir okkar hafi dvalið hér vestra langvistum, þótt við höfum eignast kjörlönd sem okkur eru kær, og sem við sýnum fulla þegnhollustu, jafnvel þótt margir á meðal okkar hafi aldrei Ísland augum litið, tölum við enn um það sem landið okkar, og íslensku þjóðina sem þjóðina okkar. Aldrei verður meðvitund okkar um íslenska arfinn eins glögg og einmitt um jólin og nýárið, þessar tvær stórhátíðir sem standa svo djúpum rótum í jarðvegi minninganna. Okkur finst við þekkja ykkur öll, að við séum vinir og kunningjar, já, meira að segja meðlimir sömu fjölskyldu. Við vonum að ykkur finnist það sama um okkur. Við gleðjumst innilega yfir hinu andlega samfélagi sem við njótum við ykkur, en slíkt samfélag er okkur lífsnauðsyn, þjóðernislega talað. Við treystum því einnig að ykkur sé nokkur gróði í því að kynnast okkur, og að eiga okkur að útvörðum íslenskrar menningar og máls hér í Vesturheimi.

Við Vestur-Íslendingar segjum allir sem einn maður við ykkur heima á þessum tímamótum: Þökk fyrir gamla árið. Nýliðna árið hefir að ýmsu leyti verið merkisár í samfélagi okkar beggja megin hafsins. Okkur er það fullljóst að í þessum viðskiftum höfum við verið þiggjendur en þið veitendur. Þessvegna þökkum við ykkur fyrir gamla árið, fyrir vaxandi skilning á kringumstæðum okkar hér, örlæti ykkar og alla rausn.

Við þökkum tækifærið sem Ríkisstjórn Íslands og Þjóðræknisfélagið þar veittu fulltrúum okkar héðan að vestan til að heimsækja Ísland á næstliðnu sumri, þeim ræðismanni ykkar hér, og ritstjórum íslensku vikublaðanna og konum þeirra. Þessum gestum var það ljóst að þeir nutu heimboðsins, ekki eingöngu vegna persónulegra verðleika, heldur sem einskonar staðgöngumenn okkar allra. Er þið heiðruðuð þessa fulltrúa okkar, heiðruðuð þið okkur alla, og sýnduð okkur öllum frábæra velvild. Þannig skildum við þetta heimboð, og þannig skildu einnig gestirnir sjálfir hlutverk sitt, og í þeim anda hafa þeir talað og ritað um ferðina síðan þeir komu heim aftur. Við



Fremsta röð (talið frá hægri til vinstri): 1. Daníel Þórhallsson, 2. Sveinn G. Björnsson, 3. Kári Sigurðsson, 4. Fritz Weisshappel, 5. Guðmundur Jónsson, 6. Stefán Íslandi, 7. Sigurður Þórðarson, 8. Gunnar R. Paulsson, 9. Þórhallur Ásgeirsson, 10. Hallgrímur Sigtryggsson, 11. Eiríkur Eiríksson, 12. Haraldur Sigurðsson.

Mið röð: 13. Jón E. Guðmundsson, 14. Kristinn Þorsteinsson, 15. Maríus Sölvason, 16. Magnús K. Jónsson, 17. Lárus Hansson, 18. Þráinn Þórisson, 19. Karl Sveinsson, 20. Ólafur Magnússon, 21. Björgvin Jóhannesson, 22. Óskar Sigurgeirsson, 23. Guðmundur Ámundason, 24. Sverrir Pálsson, 25. Þorvaldur Ágústsson, 26. Sigurður Benediktsson, 27. Kristján Kristjánsson.

Aftasta röð: 28. Loftur Hjartarson, 29. Haraldur Kristjánsson, 30. Magnús Guðmundsson, 31. Hermann Guðmundsson, 32. Marinó F. Kristinsson, 33. Garðar Guðmundsson, 34. Gísli Símonarson, 35. Jón E. Ágústsson, 36. Jón Sigurbjörnsson, 37. Sigurður Sigurgeirsson, 38. Þorsteinn Ingvarsson, 39. Guðmundur Þorkelsson, 40. Magnús Gíslason, 41. Jón Bergsveinsson, 42. Einar Ólafsson. Myndin tekin í New York 9. desember 1946.

treystum því að okkur muni verða mikill þjóðræknislegur styrkur að þessum fulltrúum og málaflutningi þeirra í framtíðinni. Gagnkvæmar heimsóknir góðra gesta eru tvímælalaust heillavænlegasta leiðin til viðhalds sambandinu milli okkar og ykkar, því alkunnugt er sannleiksgildi hins forna spakmælis, að "hrísi vex og háu grasi vegur sá es vætki tröður".

En á þessu nýliðna ári hafa ekki aðeins gestir farið heim til ykkar, heldur hafa einnig góðir gestir komið hingað vestur... Það hefir ávalt verið okkur hið mesta gleðiefni að taka á móti gestum frá ykkur. Við höfum skoðað þá í hlutskifti þeirra manna sem bera eld á milli, eld, sem bæði vermir og lýsir. Við höfum notið þeirrar ánægju að fá margar ágætar heimsóknir frá ykkur nú hin síðari ár; eftir þeim mun lengi munað á meðal okkar, og fyrir þær þakkað. En á áliðnu árinu sem leið nutum við þeirrar heimsóknar sem vakti almennari hrifningu og aðdáun en nokkur dæmi eru til áður, en það var koma Karlakórs Reykjavíkur. Vitanlega kom kórinn ekki til þess eins að heimsækja okkur, en við nutum góðs af komu hans. Þeir sungu fimm sinnum á aðalstöðvum Íslendinga hér vestra, þrisvar í Norður Dakota, og tvisvar í Winnipeg; en hér í borginni hlustuðu sjö þúsund og fimm hundruð manns hugfangnir á túlkun listar þeirra. Og það var íslensk list. Í öllum þeim mikla fjölda umsagna sem birst hafa um söng kórsins í stórblöðum Bandaríkjanna og blöðum hér, er naumast hægt að segja að heyrist hjáróma rödd. Viðkvæðið er allstaðar hið sama: Söngur Íslendinganna var með þeim ágætum að fyllilega jafnast á við það besta sem áður hefir heyrst í þeirri list. Enginn hópur listamanna hefir átt þvílíkum viðtökum að fagna í Winnipeg. Ísland gat naumast sent heppilegri hóp manna til landkynningar vestur um haf en söngflokk þennan. Það var valinn maður í hverju sæti. Í kveðjusamsæti sem Þjóðræknisfélagið hélt söngflokknum til heiðurs, var hinum prúða fararstjóra afhent skrautritað ávarp frá Vestur-Íslendingum. Eg leyfi mér að tilfæra nokkrar málsgreinar úr þessu ávarpi vegna þess að þær túlka hug okkar allra gagnvart söngflokknum, landinu, og listinni. . . .

"Vér biðum yðar með eftirvæntingu; vér hlustuðum á yður með hrifningu, og vér minnumst komu yðar með þakklæti. Söngför yðar til Ameríku hefir verið sigurför, sjálfum yður og þjóð yðar til mikils sóma, en oss hið mesta fagnaðarefni. Þér hafið leyst af hendi merkilegt kynningarstarf fyrir Ísland. . . . Í hljómlist yðar höfum vér Vestur-Íslendingar heyrt bergmál frónskra fjalla, fossanið á flúðum, storma hafs og brimgný, lækjanið og lóukvak. . . . Vér höfum heyrt fagnaðaróð frjálsra manna sem elska og treysta á landið. Æskulýð vorum hefir aukist metnaður við það að kynnast yður, hinum ungu og frjálsmannlegu sonum "Nýja Íslands" í austri. . . . Hérlendum samferðamönnum vorum hefir vaxið skilningur á því að Ísland á rétt til sætis á meðal helstu menningarþjóða heimsins, ekki aðeins vegna sígildra fornbókmenta sinna, heldur vegna söngmenningar sinnar sem þér hafið túlkað með svo ógleymanlegum hætti

fyrir tugaþúsundum þessa meginlands.... Þér hafið treyst brúna yfir hin breiðu höf; þér hafið yljað oss um hjartarætur; þér hafið aukið hróður ættlands vors... Vestur-Íslendingar þakka..."

Svo að síðustu bjóðum við ykkur gleðilegt nýár. Enginn veit hvað þetta nýbyrjaða ár kann að flytja í skauti sínu, en við óskum þess af heilum huga að það megi verða blessunarríkt og farsælt fyrir íslensku þjóðina. Okkur var það mikið gleðiefni að frétta nýlega að Íslandi hefði verið veitt sæti á þingi hinna Sameinuðu þjóða, og að fulltrúar ykkar væri komnir til New York, og hefði tekið sæti sín undir forystu hins vinsæla og ágæta vinar okkar Thor Thors, sendiherra. Við vitum að fulltrúar íslensku þjóðarinnar muni leggja til mála mannvit og drenglyndi, og bera bróðurorð milli manna á því örlagaríka þjóðþingi. Návist þeirra þar boðar nýjan dag í viðskiftum þjóðanna við Ísland, og verður landi og þjóð til hinnar mestu sæmdar.

Þökk fyrir gamla árið, og gömlu árin öll. Gleðilegt nýár! Við Vestur-Íslendingar erum með ykkur í anda, og biðjum þess að hjá ykkur megi æ verða "gróandi þjóðlíf með þverrandi tár, sem þroskast á guðsríkisbraut."

---

# Brot af öðru broti

**Tileinkað Karlakór Reykjavíkur við komu hans til Winnipeg, 1946.**

**Eftir Ragnar Stefánsson**

---

Þó að hugurinn bygði' yfir hafið
sínar háreistu óskabrýr, —
voru áttaskil Austur og Vesturs
þó ávalt í reyndinni skýr.
En nú eru umhorfin önnur,
og aðferð og skilyrði breytt —
og vegalengd Atlants-ála
ekki orðin í sannleika neitt.

Í dag eru afrek unnin
sem ekki þektust í gær.
En við erum auðugri' en áður,
því Ísland er helmingi nær.
Með flugkraftsins farartækjum

þeir ferðast um bláloftin heið
þá áfanga á örfáum stundum,
sem áður var mánaðar-leið.

---

.... Og hér var sá frumbyggjahópur,
sem hóf sig á vestrænni slóð
úr örbirgð og umkomuleysi
til álits hjá framandi þjóð.
Þeir sáu' ekki ættlandið aftur,
hér enduðu flestra spor —
og síðustu andlátsorðin
voru Ísland, og Faðir Vor.

---

Að listanna lárviðar sveigum
er leiðin ei blómum stráð,
og því fágætt að hafa þeim heiðri
í heimsálfum tveimur náð.
Þið vörpuðuð ljóma á landið
og litla, en stórláta þjóð,
sem andbyrs og aðstæða vegna
um aldir í skugganum stóð.

Að koma, að sjá, að sigra,
hefir sannast í ykkar för. —
En að heilsast, og hrífast, og kveðjast
er hlutskifti flestra og kjör.
Við þökkum í hrifningu hugans
hin hljómskæru, töfrandi lög —
því gnýrinn og undiraldan
voru ættlandsins hjartaslög.

Í leiðangrum listamanna
er lítið um dvalarfrest.
Þið haldið til landsins helga,
því heima er jafnan best.
Þar rís upp úr sollnum sævi
hin sólskygða hyllingaströnd —
þar sem æskan á enn sína drauma,
og ellin sín minningalönd.

# Guðmundur Friðjónsson og Dettifoss

Eftir dr. Stefán Einarsson

---

I.

Sigurður Nordal hefir, sem kunnugt er, farið í skáldjöfnuð reistan á kvæðum þeirra Kristjáns Jónssonar, Matthíasar Jochumssonar og Einars Benediktssonar um Dettifoss. Hinsvegar hefir hann ekki minst kvæðis Guðmundar Friðjónssonar um fossinn og liggur það þó beint við að nota það í sama tilgangi. Kvæðið birtist fyrst í *Iðunni* 1916, og var það áður en Nordal skrifaði greinina um Matthías. Hinsvegar kom það fyrst út í safninu *kvæði* 1925, eftir að grein Nordals kom út.

"Niðurstaðan í kvæði Kristjáns," segir Nordal, "er magnleysi og bölsýni. Lífið er hverfult og fánýtt, fossinn einn er sterkur og breytist ekki. Skáldið vill "deyja í fossinn" að fornum sið, án þess að nokkur minnist hans eða felli tár yfir honum. Aftur á móti sækir Einar Benediktsson kraft og kyngi í fossinn. Honum ógnar aflð, en það stælir hann. Hann vill gera bandalag við það, láta það þjóna sér. Hann dreymir um að láta mannvitið spinna gull og gróður úr því. En í raun og veru er hann heillaður af fossinum." Síðar bætir Nordal við þeirri athugun, að fossinn vekur líka í hug Einars hugsunina um "nýja magnsins straum, þá aflið, sem í heilans þráðum þýtur, af þekking æðri verður lagt í taum."

En "Matthías hvorki beygir kné sín fyrir trylling fossins né ágirnist hestöflin í honum. Hann finnur undir eins, að hann og fossinn eru hvor af sínum heimi. Hann stendur fyrst álengdar og undrast, óttast, en hopar ekki. . . ." Matthías teflir ekki fram gegn fossinum albrynjuðum og alvopnuðum verkfræðingi, heldur barninu, eins og það kom nakið af móðurlífi; "þó af þínum skalla þessi dynji sjár, / finst mér meir ef falla / fáein ungbarns tár."

Bak við tárin vakir afl, sem er annars eðlis en afl fossins, það er sálin, tilfinningin, kærleikurinn, gegn afli efnisins.

II.

Hvernig bregst þá Guðmundur Friðjónsson við fossinum?

Hann yrkir honum tvítuga drápu, dróttkvæða. Þótt ekki væri annað, hlyti það að benda mönnum til fornaldarinnar, enda lýsir Guðmundur fossinum sem eldfornum jötni og bergkonungi:

> Jöfur gljúfra, jörmunhávi,
> jafn í kvöld, sem fyrr á öldum,
> setið hér að sumbli lætur,
> syngur og tónar voðakyngi.

Í samanburði við hina tvítugu drápu Guðmundar eru kvæði hinna skáldanna eigi aðeins styttri, heldur líka heilsteyptari. Þau gætu kallast "Matthías við Dettisfoss", o. s. frv.,

því þau lýsa áhrifunum við fossinn, af fossinum á huga skáldsins.

Kvæði Guðmundar væri hinsvegar réttnefnt: "Guðmundur bóndi sækir Dettifoss heim". Það hefst með þriggja vísna inngangi, þar sem bóndinn lýsir höftum þeim er önn og skylda leggja á útþrá hans og skýra það hversvegna það er "roskinn maður, frændi feyskju", er "oki smeygði af hálsi beygðum" og "essi beindi austur að fossi" til þess að skoða hann í "aftanseldi sólmánaðar."

Þessi inngangur er ekki ólíkur byrjuninni á sumum drápum fornskáldanna. Þannig segir Egill frá ferðalagi sínu til Englands í upphafi *Höfuðlausnar*: "drók eik á flot / við ísa brot". Sá er þó munurinn, að Egill færir Eiríki drápuna, en Guðmundur yrkir sína drápu eftir að hann kemur úr ferðinni, sem er yrkisefnið.

Sá er annar munur, að hér yrkir bóndi en ekki víkingur. Þótt eigi væri önnur rit Guðmundar til vitnis um hag hans, stöðu og hugsunarhátt, þá gæti engum blandast hugur um það eftir lestur þessara lína:

Sitja margir í þröngri kytju
önnum kafnir, engu sinni
útþrá sína rétta úr kútnum

og

Kúgar margan konungshuga
kergju vekur, magnar ergi
hringur sjónar helsti þröngur
— hlóðum áþekt Berurjóður.

Og bóndinn leynir sér heldur ekki á öðrum stöðum í kvæðinu. Á leiðinni austur fer hann um "eyðimörk, sem eftir bíður / endurgreiðslu, vilja, hendi / talar á svæði margra mílna / misturgjörn um dána kvisti." Hér er maður, sem ann landinu og hefði vilja til að klæða það. Og þegar hann kemur til fossins, lætur hann fossöldunginn líta yfir "erilmold og grjótin beru" og "gera fala bót við kala," þótt slíku boði verði ekki sint af "þjóð, sem þreytir / prætutafl í skjóli nætur, / tafl um fúið keppikefli / kálfskinnstytlu gamla og hálfa." Hér mun Guðmundur bóndi eiga við og sneiða að deilunni við Dani og kröfur þær er sjálfstæðismenn þeirra tíma bygðu á Gamla Sáttmála. Hefir Guðmundi þótt sú deila lítt raungæf, og hefir hann litið svo á, að hitt stæði mönnum nær, að hlúa að landinu og bændunum, sem ræktuðu það, með því að vinna að virkjun fossorkunnar; en fossamálið svonefnda var einmitt á dagskrá um þessar mundir.

En fossinn minnir bóndann líka á aðrar jarðabætur, því það sem hann malar af björgum og grjóti í kvarnarhyl sínum, það flytur áin fram til sjávar uns það hleðst upp í óslöndunum og verður að "engjaböndum með fjörusöndum Öxarfjarðar", eða "þróar engi og þinghá drýgir Keldhverfinga."

Loks birtist viðhorf bóndans við höfðingjum landsins ljóst í næst síðustu vísu, þar sem hann ber þessa "hrokagikki í valdaskikkju" saman við hinn ópersónulega og þessvegna saklausa jötunmátt fossins.

## III.

Svo mörg eru þau orð um bóndann, og skal nú athygli snúið að fossinum,

lýsingunni á honum og áhrifum hans á manninn og skáldið.

Fyrst lítur skáldið fossreykinn úr fjarlægð: "hvítan strók úr fjarska lítur / viðra sig í moldryksmóðu / — mjaldur gljúfra sér að falda."

Svo stendur hann augliti til auglitis við fossbúann, bjargaskelfi Jökulselfar, sem "kulda blæs um allar aldir / út úr barka straumasvarkur."

Skáldinu ógnar "ásýnd þessa byrgisbúa" og hann sundlar og svimar, þegar hann horfir í svelginn, þar sem iðan ólgar. Svo rennur honum í hug, hvað fossinn hafi séð á jötunævi sinni. Saga landsins svífur öll fyrir hugskotssjónir skáldinu. Viknaði fossinn við komu svartadauða og eld móðuharðindanna? Hefir hann pata af stjórnmálakrit nútíðarinnar? Enginn veit, en svo mikið er víst, að

Jöfur gljúfra, jörmunhávi,
jafn í kvöld sem fyrr á öldum,
setið hér að sumbli lætur
syngur og tónar voðakyngi.
Sýður niðrí svaðahlóðum
saupið gráa úr jökulhlaupi;
ísalög og eldabrösur
oft hefir séð og fellivetur.

Þessi gljúfrajöfur rís nú eigi aðeins fyrir hugskotssjónum manns í myndum úr forneskju skáldamálsins, heldur nálgast hann það að verða manngervingur hinnar grimmu en blindu náttúru, sem skáldið hefir öndverður við klóast frá æskuárum í líki norðanhríða, brunagadds, hafísa og drottins, sem lætur alt líf farast og krókna í grimdarreiði sinni.

Hliðskjálf titrar hilmis boða.
Harkalegur er jötuns barki.
Virkið hristir villiorka
valdafíkin í tröllaríki.

og þegar skáldið játar það síðar, að "þín er engum manni að meini / máttarþrá né lyndisháttur", þá er það af því, að hann sér hlutleysi fossins í ljósi flokks-höfðingja samtíðarinnar.

En nú er liðið á kveld og miðnætursólin varpar geislum sínum á fossreykinn:

Úða fossins mánabrúður
reifar dátt í reginhofi
rykkilíni og gullinskikkjum.

Skáldinu verður að renna augunum norður eftir í áttina til sólar. Næst honum er heiðin "sem brædd með blóði" og lengst í fjarska "bera norður-unnir sólina á höndum sér." En svo gefur skáldinu sýn við fjöruborðið:

Alda í logni unga heldur —
æðarbarni í máli flæðar —
undir skírn, en ástarstjörnur
(þ. e. augu)
eiginmóður skína á legi.

Þessi æðarmóðir í flæðarmálinu verður honum svo til íhugunar um mátt móðurástarinnar og hlutverk konunnar í mannlífinu, og hann sér þetta magn kærleikans sem andstæðu fossaflsins:

Fórnarlíf, sem fróar barni,
fegurðin á gróðurvegum,
vildareðli móðurmoldar,
máttur vors og sumarnáttar —
öðrumegin að mér viðra
anganþey að brjósti og vanga;
annars vegar í mig toga
úði fossins, hæð og lúður.

Hér er með öðrum orðum hugsun Matthíasar færð í nýjan búning: vald kærleikans gegn regindómi náttúruaflsins. En Guðmundur velur ekki jafnhiklaust milli þessara tveggja eins og Matthías gerði: "Hugur minn á báða bóga / beitir sér", segir Guðmundur, og hann stendur í kvæðislokin skiftur í togstreitu þessara tveggja skauta. Sennilega veldur þessu ólíkt eðlisfar skáldanna, en þó mætti líka láta sér til hugar koma að skáldleg aðdáun fyrir hinu vilta í náttúrunnar ríki hefði verið lengra á veg komin á dögum Guðmundar en Matthíasar. Síðasti anginn af þessari aðdáun er hin tiltölulega nýja tíska borgarbúa að ganga á fjöll og firnindi og það ekki aðeins að sumrinu til heldur líka í hríðum vetrarins. Svo langt gat Guðmundur ekki fylgt tískunni.

Hitt er víst engin tilviljun, að þar sem Matthías teflir barninu gegn fossinum, þar hugsar Guðmundur fyrst til ungamóðurinnar og síðan til allra góðafla tilverunnar. Lotning Guðmundar fyrir móðurástinni á sér langa rót í ást hans á sinni eigin móður, er hann misti ungur og orti síðan um þrjú merkileg kvæði. Og hún á sér ekki síður rót í ást hans og lotningu fyrir fórnareldinum í barmi konu þeirrar, er varð móðir hinna mörgu barna hans og lýsti honum veginn til leiðarenda.



*Dettifoss*

# Lifði eg mig inn í ævintýrið bjarta?

Eftir Jakobínu Johnson

---

Lifði eg mig inn í ævintýrið bjarta?
Andersen og Hafmeyjan lýstu mér veginn.
Kom eg þar í draumi sem konungshöllin stendur,
krystallsdýrð og regnbogans litbrigðum slegin.
— — Fegurð er í djúpinu dulin.

Hallargarður — skrúðjurtir — hafmey á sveimi,
heldur sig að blómreit í skærustu litum.
Flytur þangað skeljar með fjölstirndum gljáa,
fegri en nokkur orð geti lýst því í ritum.
— — Töfrum leynir dimmbláa djúpið.

Fjölbreytnin og ljóminn! — Eg færi mig að reitnum.
Finnst þar hvíli bjarmi með dulkendum roða.
Voga mér að spyrja — en vel með gætni orðin —
vildi hafmey leyfa mér blómin að skoða?
— — Hafdjúpið er heimkynni þagnar.

Vildi hún leyfa gestinum skeljar að skoða?
Skynjaði hún þrá mína? — Leyfið hún veitti.
"Reiturinn er legstaður": Ljóðræn féllu orðin.
"Líkið flaut á bárum er tunglsljósið skreytti.
— — Svipast eg um sæflöt á kvöldin.

"Mánaskin og lognsær — en líkin flutu í hrönnum.
— Lagði eg á flótta í djúpið mitt kæra.
Hafði með mér örenda ungmennið fríða
allra fyrst er leit eg í geislanum mæra.
— — Leiðið skal í hafdjúpi hulið.

"Leiði hans eg merki með skínandi skeljum.
— Skyldi hann eiga móður í jarðlífsins stríði?
Hennar vegna strauk eg um hárið hans dökka
huldi síðan legstaðinn sæblóma prýði.
— — Hógleg sé í hafdjúpi hvílan!"

# Skáldið Þorsteinn Gíslason

Eftir prófessor Richard Beck



Eins og vera bar, voru ýmsar prýðisgóðar greinar skrifaðar um Þorstein Gíslason ritstjóra að honum látnum (d. 20. okt. 1938), því að hann hafði um langt skeið staðið framarlega sem stjórnmálamaður og skipað heiðursess sem ljóðskáld, rithöfundur í óbundnu máli og blaðamaður. — Þá var bókaútgáfa hans merkur þáttur marghliða starfsemi hans. Hann var þessvegna auðsjáanlega óvenjulega fjölhæfur maður, og liggja spor hans víða á vettvangi íslenskrar menningar síðan fyrir aldamót og fram á síðustu ár.

Verður hér engin tilraun gerð til þess, að rekja starfsferil hans í heild sinni, né heldur æviferil hans, nema að litlu leyti, því að það hefir þegar verið gert allítarlega í greinum þeim, sem um hann hafa verið ritaðar, svo sem: "Þorsteinn Gíslason skáld og ritstjóri" eftir Pál ritstjóra Steingrímsson (*Vísir,* 3. nóv. 1938) og "Þorsteinn Gíslason ritstjóri og skáld" eftir prófessor Alexander Jóhannesson (*Morgunblaðið,* 4. nóv. 1937); eins og höfundur tekur fram, er þar þó eigi um neitt heildaryfirlit að ræða. Þorsteinn var hinsvegar svo merkilegt ljóðskáld og ljóðaþýðari, að hann á það inni hjá okkur af miðaldra kynslóðinni, sem notið höfum yls og yndis af ljóðum hans síðan á æskuárum, að þeirri hliðinni á bókmentalegri iðju hans sé lýst nokkuru gjörr en gert hefir verið.

I.

Þorsteinn Gíslason var af mætu og

herra Eðlisfræðingur gerir sér ekki grein fyrir þeirri fræðimensku og útreikningi, sem útheimtist til starfs okkar hagfræðinga. Það er sitt hvað, að sannfæra heilvita menn um að vitleysan sé vit og lýgin sannleikur, eða að leita svars upp á þessa eða hina spurning, hjá móður náttúru.

*Bankastjóri* — (Rís úr sæti æstur.) Vér — vér — vér —

*Forsætisráðherra* — (Kemur. — Bankastjóri sest.) Gott kvöld, herrar.

*Allir* — Gott kvöld, herra Forsætisráðherra.

*Bankastjóri* — Nú vonum vér, að verði mælt af viti, en ekki glópsku. Eða hvers megum vér vænta af herra Forsætisráðherra?

*Forsætisráðherra* — Gleðiboðskaps og góðra ráða frá öllum sem hingað koma í kvöld. Frá stjórnarráðinu er það að segja, að það hefir ekki setið auðum höndum, síðan vér fengum vitneskju um þetta vísindalega slys, er kollvarpað gæti menningunni, væri ekki vel og viturlega ráðið. Stjórn vor mun fara hægt í sakirnar. Þó hefir hún, nú þegar, skipað einskonar gjaldeyrisnefnd, til að rannsaka og yfirvega orsök og afleiðing þessa dæmalausa óhapps, sem vísindin eru völd að.

*Bankastjóri* — Hvað varðar oss um orsakir og afleiðingar? Ekkert kjaftæði! Ekkert fimbulfamb! Hvernig verður fjármálum vorum og þar með siðmenningunni, haldið í horfinu án gulls? Það er eina spursmálið sem oss varðar nokkru.

*Forsætisráðherra* — Mikið rétt. En það verða fleiri og flóknari spurningar sem háttvirtir kjósendur leggja fyrir oss.

*Bankastjóri* — Hvað varðar oss um þá? Ekki erum vér háttvirtir kjósendur.

*Forsætisráðherra* — Mikið rétt. — Meginstarf nefndarinnar verður, vitanlega, að tefja tímann, gefa út alskonar tillögur og umsagnir, sem koma þó málinu lítið við. En á meðan vinst yður, auðvaldsherrum, tími til að losast úr þessari úlfakreppu vísindanna. Auk þess gefst blaðamönnum tækifæri til að sýna háttvirtum kjósendum, að engu máli skifti á hverju gjaldeyrir byggist.

*Bankastjóri* — Oss finst hreinn óþarfi, að taka skrílinn til greina, í sambandi við þetta mál. Eða til hvers er lögregla og landher?

*Forsætisráðherra* — Oss má aldrei gleymast, að lýðræðið ríkir í landi voru. Og nú sem oftar munu kosningabrögð reynast best. Skal aðalritstjóri deila ritstjórum í andstæða flokka, svo blöðin fari þannig með alt sem málinu viðkemur, að háttvirtir kjósendur hafi engin skilyrði til að mynda sér ákveðnar skoðanir, botni ekki upp né niður í því, og missi þannig áhuga fyrir því.

*Bankastjóri* — Og enn staðhæfum vér, að gátan sé óráðin. Eða er nokkurt það efni, í jörð, eða á, sem óhult er á þessari vargöld vísindanna?

*Forsætisráðherra* — Mjög óvíst, úr þessu verði ráðið, án aðstoðar Musterisins; en í andanum verður gátan leyst, og það hér í kvöld.

*Bankastjóri* — Sú ráðning kemur varla frá þessum kumpánum. Þeir virðast lausir við áhuga og ábyrgð, gagnvart málefninu.

*Eðlisfræðingur* — Eg endurtek það, að fjármál og hagfræði eru utan míns starfsviðs.

*Hagfræðingur* — Og ofar skilningi ykkar, vísindamanna. Enda hafið þið nóg á ykkar könnu, meðan vísindaleg gjöreyðilegging hefir ekki lagt alla jarðarkringluna í rústir.

*Bankastjóri* — Þarna heyrir herra Forsætisráðherra hljóðið í þeim.

*Eðlisfræðingur* — Ekki mun Musterið sækja ráð til okkar.

*Forsætisráðherra* — Bravó! Ágætt! Í lýðræðislandi eiga menn að vera opinskáir. Rifrildi og skammir er hinn eini sanni mælikvarði frelsisins. Öðru máli gegnir hver sameiginleg sannfæring vor verður, eftir að hafa allir lagst á eitt, til varðveislu og viðhalds vors andlega og efnalega status quo. Ekki óttumst vér neina sundrung meðal vor, sem hér höfum mælt oss mót. Hið heilaga framtak einstaklingsins, ásamt andanum, mun binda oss bandi friðarins. Hitt getur reynst erfiðara, að halda háttvirtum kjósendum í sundrung og rifrildi, eins lengi og nauðsyn ber til.

*Hagfræðingur* — Með leyfi herra forstjóra Heimsbankans. Er hugmyndin að sameina alla mestu vitringa þjóðarinnar í eitt bræðralag? (Þögn.)

*Forsætisráðherra* — Já, og allrar veraldar. Til þess erum vér komnir á þennan samtalsfund. Vel að merkja, er hann ekki officialis, og vildum vér benda herra Aðalritstjóra á, að það sem hér fer fram, kemur ekki háttvirtum kjósendum við.

*Bankastjóri* — Vér höfum aðvarað Aðalritstjóra.

*Aðalritstjóri* — Eg mun gera skyldu mína.

*Gabríella* — (Kemur. Fundarmenn rísa úr sæti og hneigja sig, standa grafkyrrir, þar til hún hefir sest, og stara á hana. — Hún virðist svífa inn salinn, með útbreidda arma.) Náð og friður andans sé með oss öllum.

*Allir* — Amen. (Taka sæti.)

Stjörnufræðingur — (Kemur.) Heil, háttvirt.

*Lögfræðingur* — (Kemur.) Heil, háttvirt.

*Stærðfræðingur* — (Kemur.) Heil, háttvirt.

*Allir* — Heilir herrar, og gott kvöld.

*Gabríella* — Friður sé með yður.

*Allir* — Amen.

*Bankastjóri* — Þá eru allir komnir, sem hingað voru kvaddir.

*Gabríella* — Látum oss öll sameinast í andanum.

*Allir* — (Lúta höfði í þögn, en gefa Gabríellu auga.) Amen.

*Bankastjóri* — Tilgang fundar þessa er óþarft að skýra fyrir ykkur. Eins og oss er öllum kunnugt, hefir gullið verið undirstaða siðmenningar vorrar, að segja má, frá ómunatíð. En nú hafa vísindamenn vorir, að ástæðulausu og fyrirvaralaust, fundið aðferð til að leysa það upp í gráa ösku, (Ber klút að augunum.) þetta fegursta og dýrmætasta hnoss vors jarðneska lífs. Eftir því sem oss skilst, er aðferð þeirra svo einföld, að spillvirkið verður auðveldlega framið af Bölsvíkingum og öðrum óvinum menningar vorrar. Takist oss því ekki, að finna nýtt verðmæti, sem svarar til helstu eiginleika hins dýrðlega málms, má búast við, að siðmenning vor öll hrynji til grunna, en skríllinn stígi djöfladans á rústunum. Mun lýðræði og einstaklingsframtak falla með gullinu, og snertir þetta mál því herra Forsætisráðherra

ekki síður en oss. Með það, segjum vér fund settan.

*Forsætisráðherra* — Eins og ráða má af orðum herra forstjóra Heimsbankans, stendur menning vor á alvarlegum tímamótum. Ekki kemur oss þó í hug að örvænt sé um heppilega úrlausn málsins. Hvort sem oss fellur það betur eða ver, gerast straumhvörf og breytingar í lífi þjóðanna; og verða þær því stórfeldari, sem menningin er á hærra stigi. En æðsta skylda vor, stjórnmálamanna, er að verja háttvirta kjósendur frá byltingum sem hafa í för með sér alskonar böl og blóðsúthellingar. Vér höfum vikið að því, við herra forstjóra Heimsbankans, hversu áríðandi sé að fara hægt í sakirnar og rasa í engu fyrir ráð fram. Þetta verðum vér öll að hafa hugfast, uns sigurinn er unninn. En um hann efumst vér ekki, leggjumst vér öll á eitt, í einingu andans og bandi fjármálanna. Finnum vér nothæft staðgengi gullsins, sem vér munum gera, sjáum vér enga ástæðu til að breyta þeim meginreglum, eg vil segja því lögmáli, sem viðskiftalíf vort byggist á, nema svo að eins að herra forstjóra Heimsbankans lítist svo.

*Bankastjóri* — Engar breytingar! Ekkert rót! (Slær í borðið.) Bylting er ekki spursmálið. Hvernig verður siðmenningu vorri viðhaldið án gullsins? Það er spursmálið!

*Forsætisráðherra* — Vér ítrekum það, að þeirri spurningu verður svarað, og það bráðlega.

*Bankastjóri* — (Ákafur.) En því að draga oss á svarinu?

*Forsætisráðherra* — Vér verðum, umfram alla muni, að hafa lýðræðið hugfast; því hvað sem vér ákveðum hér, verður ekki framkvæmt án þess að hafa háttvirta kjósendur bak við eyrað. Þeir munu rita og ræða um byltingu. Gott og vel, vér gerum það líka. Og það verður heilög skylda vor, að lofa þessu og bollaleggja um hitt, og sefa þannig hina barnslegu nýungagirni háttvirtra kjósenda. Svo taka ritstjórarnir við, og spinna og vefa umræður sínar. Því fleiri og ólíkari skoðanir sem koma í ljós, því meir ruglast hugsun háttvirtra kjósenda. Sín á milli koma þeir sér ekki saman um neitt, svo stjórnarráðið er nauðbeygt til að taka ákveðna afstöðu, upp á eigin spýtur. Hinu skyldum vér þó aldrei gleyma, að eins og sagan sýnir, getur öflugur uppreisnarflokkur risið úr skarninu, og vaxið svo fiskur um hrygg, að háttvirtir kjósendur missi sitt dýrmætasta, og oft sitt eina verðmæti, kosningaréttinn, og þar með siðmenningu vora.

*Bankastjóri* — Stjórnarráðið ætti að leggja blátt bann við, að bölsvíkingar og aðrir menningarféndur ræði og riti um málið.

*Forsætisráðherra* — . Að vorum dómi, mundi ekkert fremur hamla framkvæmdum vorum.

*Bankastjóri* — Lögreglan ætti þó að vera fær um að koma þeim í steininn.

*Forsætisráðherra* — Mættum vér minna herra forstjóra Heimsbankans á, að stjórn vor er skuldbundin til að vernda einstaklingsfrelsi háttvirtra kjósenda, ekki síður en framtak vort. Nei, hér mega engin ofbeldisverk eiga sér stað, frá vorri hálfu. Aðferð stjórnarráðsins gengur í alt aðra átt. Vér höfum ákveðið, að skipa nefndir til að grannskoða og ræða allar til-

lögur háttvirtra kjósenda. Að sjálfsögðu verða þær nefndir svo fleiri tugum skiftir. Í nefndirnar skipum vér ekki aðeins þá menn sem unna menningu vorri, heldur einnig hina, sem róttækir eru í skoðunum, og vísir eru til, að æsa háttvirta kjósendur, gangi þeir lausir. Sem fastir nefndarmenn, eru þeir launaðir þjónar stjórnarinnar. Á þennan hátt kemst ekki kjaftæði þeirra til háttvirtra kjósenda, fyr en þá um seinan.

*Bankastjóri* — Svo best að ritskoðun sé í lagi.

*Forsætisráðherra* — Aðalritstjóra verður falin öll ritskoðun.

*Aðalritstjóri* — Ekki mun eg og starfsbræður mínir láta okkar eftir liggja.

*Forsætisráðherra* — Til frekari skýringa, skal þess getið, að stjórnarráð vort hefir gert áætlun um, að öll nefndarálitin komi upp á tíu miljónir orða og, að minsta kosti, tuttugu smálestir pappírs. Hér er því ekkert smáræði að moða úr, fyrir ritskoðara og blaðamenn. Slík ógrynni af tillögum, skýrslum, áætlunum, nefndarálitum má daglega bera fyrir háttvirta kjósendur, að enginn þeirra, sé hann bókfær, hafi hugmynd um hvað gerist eða gera skal.

*Bankastjóri* — Herra Forsætisráðherra hefir sagst vel og viturlega. Þó er gátan enn óráðin. (Lítur til Eðlisfræðings. — Þögn.) Hafa þá vísindin ekkert að leggja til málanna?

*Eðlisfræðingur* — Fjármál koma vísindunum ekki meira við, en lögboðin miljónamorð. Hitt fullyrði eg, að sem stendur, þekkist ekki það efni á jörðu hér, sem vísindunum lærist ekki innan skamms, að leysa upp.

*Bankastjóri* — Nú er af sem áður var. Sú var tíðin að vísindamenn vorir unnu verk sín oss til uppbyggingar, en ekki niðurdreps.

*Eðlisfræðingur* — Starf okkar gengur nákvæmlega í sömu átt nú, og að undanförnu. Við höfum ætíð verið, og erum enn í leit eftir nýjum sannindum, svo mönnunum aukist þekking á náttúrunni. Því miður leita valdhafar veraldarinnar ekki álits okkar um það, hvernig sú þekking skuli notast. Og er það því á ábyrgð þeirra, hvort árangur vísindaiðkana verður til blessunar eða bölvunar, uppbyggingar eða niðurdreps, eins og herra forstjóri Heimsbankans orðar það.

*Bankastjóri* — (Hristir höfuðið. — Í vondu skapi.) Hagfræðingi var stefnt hingað, sjálfsagt til að flytja oss nýjan boðskap, ekki síður en fulltrúi vísindanna. Fundurinn bíður því með eftirvæntingu eftir tillögum hans.

*Hagfræðingur:* Þrátt fyrir meinhæðni herra forstjóra Heimsbankans, ætla eg að leyfa mér, að benda fundarmönnum á ýms verðmæti, sem reynst hafa mönnunum eins nothæf og gull. Skal fyrst nefna fríðindi ríkisins. Fyrir rannsóknir landkönnuða og jarðfræðinga, má gera nokkra áætlun um þau auðæfi, sem landið felur í skauti sínu. Þar á meðal er gull, sem naumast verður leyst upp í ösku, sé það látið í friði, þar sem náttúruöflin gengu frá því, en ekki grafið upp af námaþrælum, og síðan grafið í jörð af stjórnarþjónum í Kentucky-fjöllum. Þó virðist skynsamlegra, að miða auðmagn landsins við þá málma sem gagnlegir eru, og ekki þarf að grafa í jörðina, jafnóðum og þeir eru grafnir upp. Verð-

mæti mætti einnig kalla, kol og olíu, víðáttu og gróðrarmagn engja og akurs, afl fossa, auðlegð skóga, fiskisæld vatna og sjávar, jafnvel hagsælt tíðarfar. Svo langt hefir þetta gulltrúarleysi gengið, að menn hafa álitið framleiðslu til lífsviðurværis lýðsins og jafnvel andlegt eða líkamlegt starf iðjumannsins öllum málmi dýrmætara. Fyrir mína miklu lesning og fræðimensku, er mér kunnugt um, að eitthvað af þessu tæi átti sér stað í viðskiftum manna, í landi einu, langt fram á nítjándu öldina. Þar var ekkert gull til, en gjaldmet talið, í álnum klæðis, tölu fiska, sauðfjárs og svo framvegis, en síðan voru þessar afurðir miðaðar við jarðeignir.

*Bankastjóri* — (Æstur.) Ómentaðir öreigar! Sjálfsagt bölsvíkingar. (Þögn.) Vér álítum réttast að Hagfræðingur nefni landið, sé það annars til.

*Hagfræðingur* — Það heitir Ísland.

*Bankastjóri* — (Reiður.) Ætlast Hagfræðingur til, að vér seljum gullmenningu vora fyrir villimensku og gerumst Eskimóar?

*Hagfræðingur* — Hvorugt. Fyrst og fremst er engin gullmenning til sölu, fyrst hún er á faraldsfæti. Í öðru lagi eru Íslendingar ekki líkari Eskimóum en háttvirtir fundarmenn.

*Bankastjóri* — Hefir nokkur siðaður maður heyrt þessa lands getið. (Þögn.)

*Aðalritstjóri* — Með leyfi herra forstjóra Heimsbankans, Ísland er strjálbygt eyland, norður í hafsauga, annálað fyrir fegurð, fisk og fyllirí, draugagang og skáldskap.

*Bankastjóri* — Þetta grunaði oss. Altaf versnar útlitið. (Andvarpar.) Eru þá engin ráð?

*Gabríella* — Leitið og þér munuð finna. Ekki hjá fákænum mönnum heldur í vísdómi Musterisins.

*Allir* — Amen.

*Gabríella* — En þér, aumir menn, snúið sjaldan huganum til vor heilagra, fyr en fokið er í flest eða öll skjól. Ætti yður þó að vera kunnugt um, að frá Musteri voru streymir sá andans kraftur, sem ber hina aumu og lítilsigldu í himininn, en þá hraustu og hugrökku til auðs og valda í heimi hér. Vor heilaga Höfuðsmey sá þetta fyrir, sem nú er framkomið, og í vísdómi sínum leitaði hún í andanum, og fann veg út úr vandanum. (Allir glápa agndofa á Gabríellu. Bankastjóri ókyrrist í sæti.) Eins og Forsætisráðherra er kunnugt, höfum vér fullkomna heimild frá Musterinu, til að flytja yður gleðiboðskap þann er reynast mun æskileg úrlausn yðar vandamáls.

*Bankastjóri* — (Æstur.) Ó, heilaga mær! Leys oss úr þessum spenningi. Í andans bænum og fjörutíu þúsund, flytjið oss gleðiboðskap Musterisins nú strax í hvellinum!

*Fundarmenn* — (Í spenningi.) Amen.

*Gabríella* — (Lyftir höndunum til þagnarmerkis.) Yður mun reka minni til, að þegar hið heilaga musteri lagði undir sig hinar ýmsu kirkjudeildir um víða veröld, sló það eign sinni á öll sérréttindi sem kirkjurnar höfðu áskilið sér, bæði á himni og jörðu. Einnig fylgdi þessu alt það fé sem þeim hafði græðst um margar aldir, þar á meðal gull og gersemar, meiri að vöxtum og verðmæti, en nokkur önnur stofnun hefir umráð yfir, ef til vill, að undanskildum Heimsbankanum. Oss var því ekki með öllu sárs-

aukalaust, að sjá fram á það tap, sem andinn varð að líða, fyrir fálm vísindamanna, sem upp til hópa, eru óendurfæddir efnishyggjumenn. Því sneri hin heilaga Höfuðsmey sér til andans, og öðlaðist opinberun. Eins og Eðlisfræðingur staðhæfði áðan, er alt útlit fyrir, að vísindin leggi jörð vora í rústir þá og þegar. Og getur slíkt óhapp hent oss án ásetnings þeirra eða vilja. Hitt mun þeim veitast örðugra, að raska gangi og gengi himintunglanna, eða má fegurð þeirra og dýrðarljóma. En minnir ekki sú fegurð og dýrðarljómi oss á, gull og gimsteina? Jú, sannarlega. Því svo bjó hinn mikli andi um hnútana, að börn hans mættu sækja auðæfi í himnana, nær sem hin jarðnesku verðmæti féllu í gildi. Vísdómur andans, en engin tilviljun, réði því, að máninn er silfraður, sólin gullroðin, fjölstirnið sindrandi, eins og demantar. Já, bræður vorir, elskanlegir í andanum, himnarnir en ekki heimurinn geyma þann fjársjóð, sem hvorki mölur né ryð fær grandað, og ekki heldur vísindin. Og þennan dýrðlega fjársjóð býður hin heilaga Höfuðsmær fram, í stað hinna jarðnesku fjármuna, sem alt að þessu hafa reynst oss æðsta heimsins hnoss. Þér munið að misklíð út af himneskum sérréttindum, átti mestan þátt í að sundra kirkjunni og verða henni að falli, og að Musterið tók öll slík sérréttindi í sínar hendur. En eins og herra Lögfræðingi er kunnugt um, kostaði þetta oss löng og flókin málaferli, og erum vér því vel komnar, að öllu því, sem hinar gömlu kirkjur höfðu umráð yfir. Auður Musterisins var því unninn fyrir framtak, í frjálsu landi. Fyrir þá sök áskilur hin heilaga Höfuðsmey sér og Musterinu æðsta úrskurðarvald í nefnd þeirri eða karteli, sem skipuð verður, til að verðleggja himintunglin og skipuleggja hinn nýja stjörnustandarð. En svo leggjum vér og blessun vora og andans — yfir standarðinn og Heimsbankann.

*Bankastjóri* — (Missir alla stjórn á sér.) Hallelúja! — Bravó! — Amen. — Hallelúja! (Þögn.)

*Gabríella* — Látum oss sameinast í andanum.

*Allir* — (Lúta höfði í þögn.) Amen.

*Bankastjóri* — (Utan við sig.) Fjársjóðir himnanna. Silfur mánans. Gull sólarinnar. Stjörnudemantar. Já, öllu þessu munum vér ráðstafa, í ráði með heilagri Höfuðsmey.

*Gabríella* — Í einingu andans.

*Bankastjóri* — Í einingu andans og bandi Heimsbankans.

*Forsætisráðherra* — Hvernig líst herra forstjóra, að hlýða nú á mál herra Stjörnufræðings?

*Bankastjóri* — Honum ætti að vera málið skylt. Veitum vér honum því orðið, með þeim skilmálum, að hann brjóti ekki upp á neinum bölsvíkingakreddum.

*Stjörnufræðingur* — Við stjörnufræðingar erum jafn ófróðir um fjármál og bölsvíkingar. Þó skilst mér, aðalspursmálið vera það, að miða allar vörur og vinnu, og sér í lagi nauðsynjavörur, við eitthvað það, sem í sjálfu sér er ónýtt til allra hluta. Álít eg því, að tillaga hins heilaga Musteris sé mjög viturleg. Himintunglin munu reynast viðlíka vel, þeim sem er að drepast úr hungri eða kulda, eins og gull. Menn hafa talað um að gleypa sjöstirnið, en það hefir aldrei orðið af því, svo eg viti til.

Annað mál er, hvort himintungl eru óhult fyrir áhlaupum vísindanna. En litlu mundi muna þó nokkrir smáhnettir væru sprengdir upp. Á hinn bóginn er ekki óhugsandi að sjálf jarðarkringlan yrði fyrir fyrsta áverkanum. Nokkurt spursmál tel eg það, hvort vanalegir bókhaldarar ráði við þá reikninga og töluraðir, sem stjörnustandarður hefði í för með sér. Einnig efast eg um, að núverandi stjórnfræði gefi valdhöfum þjóðanna nokkrar vísbendingar viðvíkjandi milliþjóðaþrætum og styrjöldum, sem hljóta að spinnast út af skiftum og óskyldum skoðunum um verðlag hinna ýmsu himintungla.

*Bankastjóri* — Vill herra Stjörnufræðingur ekki halda sér við efnið, og ræða málið frá hagsmunalegu sjónarmiði.

*Stjörnufræðingur* — Með ánægju, herra forstjóri Heimsbankans. — Stjörnustandarð álít eg hið mesta happ fyrir mig og starfsbræður mína. Mér þykir líklegt að fjárveitingar til nýrra stjörnufunda verði mjög ríflegar. Til þeirra mætti verja því fé sem fram að þessu hefir verið eytt til að grafa gull úr jörðu og í. Svo vænti eg hærri launa eftir en áður; og við hærri laun, ættum við stjörnufræðingar, að þokast svo upp í mannfélaginu, að virðing okkar yrði ekki minni en bankastjóra, svindilbraskara og kartelista. Í nafni starfsbræðra minna, lofa eg því málefninu óskiftu fylgi stjörnufræðinnar.

*Allir* — Heyr! Heyr!

*Bankastjóri* — Nokkrar athugasemdir, við ræðu herra Stjörnufræðings? (Þögn.)

*Stærðfræðingur* — Óþarft mun vera, að bera kvíðboga fyrir fæð eða fáfræði reikningsmanna, í sambandi við fyrirhugaðan stjörnustandarð. Herra stjörnufræðingi er kunnugt um, að langar töluraðir eru oftar táknaðar með bókstöfum en tölustöfum. En sú aðferð við bankareikninga mundi vart reynast auðvaldinu þrándur í götu. Alt fram að þessu hefir almenningur haft ofurlitla nasasjón af ársskýrslum þeim, sem bankar og önnur stórgróðafélög gefa út. Nú eru þær sjaldan samdar og sendar út, til að leiða fólkið í allan sannleik um aðferðir fjárbraskara. Færri mundu þó renna grun í hvar fiskur liggur undir steini, væru skýrslurnar einn óumræðilegur hrærigrautur úr tölum og bókstöfum. Að mínu áliti mælir það mest með stjörnustandarðinum, að hér liggur ótæmandi auðsuppspretta fyrir höndum, svo enginn þarf lengur að kvíða fjárkreppu og fátækt. Eða er ekki herra Hagfræðingur mér samdóma um þetta?

*Bankastjóri* — Hagfræðingur hefir orðið.

*Hagfræðingur* — Hagfræðin er fær um að sanna fólkinu, að hvaða fjármálabrask, sem herra forstjóra Heimsbankans þóknast best, sé hið eina sanna. Og ekki verður það okkar skuld, hagfræðinga, þó einhver efist um að hann geti látið stjörnurnar í askana, eða þær gerist einskonar nægtaábyrgð, eins og síðasti ræðumaður gaf í skyn.

*Gabríella* — Fátæka hafið þér ætíð hjá yður.

*Bankastjóri* — Amen. (Þögn.) Þá viljum vér kveðja fulltrúa sérréttinda og alls réttlætis yfirleitt, til máls. Herra Lögfræðingur á orðið.

*Lögfræðingur* — Eins og nærri má

geta, hleypti ekki Musterið stjörnustandarðinum af stokkunum, án þess að vér, lögfræðingar, hefðum rækilega gagnrýnt hann. Og værum vér mótfallnir hugmyndinni, mundi hún ekki hafa komið hér á dagskrá. Vér búumst varla við, að þér gerið yður fulla grein fyrir þeirri breyting, eg vil segja bylting, sem hér er á döfinni. Gömul lög og reglugerðir verða að sníðast upp eða falla úr gildi, en ný samin. Fyrir oss lögfræðingum liggur því ótakmarkað verksvið og glæsileg framtíð. En hversu dásamlegur sem þessi nýi standarður er, og það er hann, verðum vér að hafa hugfast það rót sem hann hlýtur að valda í viðskiftalífi framtíðarinnar. Jafnvel umbót á einum stjörnukíki getur valdið usla í veðsölum allrar veraldar. Til nánari skýringar, skulum vér taka lítið dæmi. Einn góðan veðurdag, sofnum vér að kvöldi vitandi lögmætt verðmat á hverri stjörnu. Næsta morgun rísum vér úr rekkju, grípum morgunblaðið og lesum um fund nýrrar sólar, nýrrar stjörnu eða nýrrar vetrarbrautar. Oss er nær að halda, að háttvirta fundarmenn rámi lítið í, hvílíkt reiðarslag slík frétt mun reynast allri verslun og viðskiftum. Vér göngum út frá því, að verðmat á nýjum hnöttum og verðfall hinna eldri verði ákveðið og ráðstafað af fjárhaldsmönnum — í einingu einstaklingsframtaks, lýðræðis og bandi Musteris og Heimsbanka. En hér má engu muna og engum skjátlast; því hversu næm og beitt sem ritskoðun reynist, mun það sannast, að allar stjörnufréttir kveikja grun fólksins um þær breytingar sem hljóta að gerast bak við tjöldin. Og einmitt þegar svo er komið, gera bölsvíkingar æsingaáhlaup sín. Við þessu hafa enn ekki fundist ráð, í frjálsu landi. En hættan verður þó minni, þegar allir embættismenn og menta njóta auðs og mannvirðinga fyrir náð andans og Heimsbankans. En eins og hinn framsýni og stjórnvitri Forsætisráðherra sagði, verðum vér að gæta allrar varúðar, og rasa hvergi fyrir ráð fram.

*Bankastjóri* — Þá höfum vér hlýtt á mál fundarmanna, og geðjast oss misjafnlega ræður þeirra. Oss hefir þótt fyrir að heyra orðið bylting, af vörum mætra manna. Því það orð og reyndar fleiri, eiga engan rétt á sér í ræðu eða riti siðaðra manna. Annars væri einfaldast, að hreinsa orðabækur af þesskonar saur, en banna síðan, að lögum, að þau sjáist eða heyrist. Og ætti stjórnarráðið, að skipa málfræðinga og aðra fræðimenn orðsins í nefnd til þess, en vér munum auka laun þeirra og aðrar mannvirðingar. Á hinn bóginn skorum vér á Aðalritstjóra og stjórnarráðið, að ekkert hættulegt sé sagt né prentað.

*Forsætisráðherra* — Mættum vér fullvissa herra forstjóra Heimsbankans um, að orðið, bylting mun reynast oss hið mesta þarfaþing. Vor æðsta skylda er, að taka orð og óskir háttvirtra kjósenda til greina, en þó um leið halda fast við alt hið gamla og góða. Og er þetta enginn hægðarleikur. Eiginlega ógerningur, nema svo aðeins, að sífeld ruglun sé á hugarfari og hugsunum háttvirtra kjósenda. Þeir mega aldrei botna neitt í því sem vér lofum þeim, og höfumst að. Nú loks er mögulegt að sanna þeim, að bylting eigi sér stað, þar eð gullið er úr sögunni, og fjármál allrar veraldar komin á stjörnustandarð.

Öld heimsins liðin. Öld himnanna upp runnin. Ekkert hafa róttækir ribbaldar jagast um, jafn oft og lengi, eins og gullið; og nú verða þeir að finna annað efni í nýja tuggu. Svo er fyrir að þakka, að allur þorri háttvirtra kjósenda er að miklu leyti á valdi Musterisins og andans; og þegar þeim skilst að stjörnustandarðurinn er af heilögum toga spunninn, og sönn bylting hefir átt sér stað, megum vér vera öruggir og vonglaðir um framtíðina. Að endingu viljum vér með leyfi herra forstjóra Heimsbankans, mælast til, að hin heilaga Musterismey ávarpi oss og háttvirta kjósendur.

*Bankastjóri* — Sú er einnig ósk vor og bæn í andanum.

*Gabríella* — Látum festingu himinsins kunngera verk andans.

*Allir* — Amen. (Vængjahurðirnar opnast. Háreisti, hróp og sköll frá torginu. — Fundarmenn líta hver á annan og ókyrrast.)

*Gabríella* — (Gefur þeim merki um að vera kyrrir. — Grípur útvarpstækið og fer út á svalirnar.) Hljóð! Gefið hljóð — í nafni andans. (Þögn.) Í nafni andans flytjum vér yður mikinn gleðiboðskap, sem er í senn jarðneskt og himneskt evangelíum. Bylting sú, er vér höfum þráð um langa tíð, er í nánd. Loks hefir gullkálfinum verið steypt af stóli. (Fagnaðaróp.) Mammon er fallinn. (Meiri fögnuður.) Gullstandarðurinn er afnuminn, fyrir tillögu hinnar heilögu Höfuðsmeyjar, í ráði með lýðstjórn vorri og herra forstjóra Heimsbankans. Hér eftir skulu öll heimsins gæði miðuð við fjársjóð himnanna, himintunglin. Hér eftir verður himininn öryggisskápur sá, er geyma skal alla fjármuni vora, bæði á himni og jörðu. (Þögn.) Lítið til himnanna! (Fagnaðaróp og hlátur.) Þúsund ára ríkið er að ganga í garð. Allir verða jafnir; því fátækir sem ríkir eiga jafnt aðgang að himninum. Allir mega skoða og dá festinguna. En hún táknar allan auð þessa heims og annars. (Fagnaðarlæti og hlátrar.) Í stuttu máli, allar eignir og viðskifti verða skipulögð á stjörnustandarði. Gullöld vor er runnin í tímans haf, en himnaöld vor hafin. (Fagnaðarlæti, mest hlátrar.)

*Fundarmenn* — Heyr! Heyr!

*Bankastjóri* — (Æpir.) Hallelúja!

*Gabríella* — Og nú boðum vér yður teikn af himni, í nafni andans og hinnar heilögu Höfuðsmeyjar. Látum oss öll sameinast í andanum. (Dauðaþögn. Fundarmenn lúta höfði. Musterið lýsist snögglega upp, þannig að það verður að einum risavöxnum ljóskrossi. Eftir fáein augnablik gerist sprenging í Musterinu, og fellur það í eina öskuhrúgu. Um leið slokkna öll ljós borgarinnar. — Atlas-styttan breytist í ösku. — Aðeins dauf skíma á leiksviðinu. — Ógurleg hróp og köll frá torginu. — Gabríella hleypur inn í salinn. — Hún og fundarmenn ærast og leggja að dyrunum til hægri. — Hans fer til Agnesar og leiðir hana út á svalirnar. Þar standa þau og snúa baki að áhorfendunum, til leiksloka.)

*Bankastjóri* — Bölsvíkingar!

*Gabríella* — Svik! Svik við andann og Musterið.

*Lögfræðingur* — Sabbótas.

*Forsætisráðherra* — Föðurlands svik.

*Hinir* — Út með okkur!

*Öll* — Út! Út! (Þau ryðjast út.)

(Úti fyrir, til hægri, ryskingar og raddir.)

1. *Rödd* — Hingað og ekki lengra.

2. *Rödd* — Haldið þeim, piltar.

3. *Rödd* — Handfljótir nú. Böndin!

4. *Rödd* — Hér eru járnin.

5. *Rödd* — Fljótt nú! Þau eru vís til að stíga til himna.

6. *Rödd* — Og læsa sig inn í öryggisskápnum. (Hlátrar.)

*Rödd Bankastjóra* — Látið mig lausan, og eg skal ánefna ykkur tunglið. (Hlátrar.) Sólina. (Hlátrar.) Sjöstirnið. (Hlátrar.)

6. *Rödd* — Býður nokkur betur?

*Rödd Bankastjóra* — Hvar er lögreglan?

7. *Rödd* — Við erum lögreglan.

*Rödd Forsætisráðherra* — Hvar er landherinn?

*Margar raddir* — Landherinn er háttvirtir kjósendur. (Ryskingar og stunur. — Þögn. Borgarljósin kvikna jafn snögglega og þau dóu).

*TJALDIÐ.*

# Raf

**Kvæðið eftir H. Drachman — Lagið eftir C. Sinding**

★

Þau stóðu og störðu' út á haf!
Og hvítfextar hrannir að landi
þar hrundu og brotnuðu á sandi.
Og þögul þau leiddust við báruborð,
brosandi leituðu og sögðu ei orð.
Hann rétti' henni raf.

Það raf hafði rekið af sjó.
Gullsmiðinn lét hann svo höggva' úr því hjarta
og heitmeynni gaf það með lokkana bjarta.
Hún kysti það, söng við það, sá því ei af—
og sitt hún í stað þess gaf;
en hennar var hjarta, sem sló.

Hann sigldi á hið svellandi haf!
Hún sá hann svo aldrei framar—
það eitt henni sífelt amar.
Hún geymdi það hjarta í hjarta síns stað;
í harmi og gleði ei skildi' hún þau að—
en hans var þó raf.

*G. J.*

# Íslenskt erfðafé

Eftir Jón Jónatansson

---

Þá fossinn hörpu á flúðum slær
af fögnuð' grætur bjarg og hlær
og bergmál nemur barnalund
á blómum fagurskreyttri grund;
þau hlusta' á fossins hörpuslátt
og hrifin stara' í fjallsins átt.

Hann vekur barnsins söngvasál
og söngvar falla' í stuðlamál.
Það eru fræ úr föðurhönd,
sem falla inn á draumalönd,
en verða' að trjám sem þroskast þar
uns þjóð fær litið grein og bar.

En, misjafn vöxtur þykir þó
í þessum fagurlaufga skóg,
og hæðarmun má mikinn sjá,
sum mæna hátt í loftin blá
en önnur vaxa fáein fet
og fá að vonum ólík met.

Þó limfá sé og lág á mörk
hin laufum fagurskreytta björk —
við þollinn háa, er hefst við ský
og himinvötnum laugast í
— hún kveður sína vini við
með vorsins sál í blaða nið.

En vaxtargildir hlynir, hátt
sig hefja' í stormsins andardrátt,
frá háum krónum hljóma ber
til hans, sem smærri máttar er,
en margur það ei metið fær,
sem moldum stendur hærra' og fjær.

Hið þroska minna, litla ljóð
á leið oft verður færðin góð.
Það hurðir knýr, og hleypur inn
í hús, og flytur boðskap sinn.
Í hússins sál er hlýtt um það
og hjartað býr því samastað.

# "Faðir minn átti fagurt land—"

Eftir Þórodd Guðmundsson frá Sandi

Í gamalli þjóðsögu er frá því sagt, að norður í Kelduhverfi, milli bæjanna Sulta og Víkingavatns, hafi búið huldufólk í björgum nokkrum. Undir þeim á stað einum óx rauðaviðarrunnur, mikill og fagur. Drengur frá Sultum hafði þann starfa á höndum að reka kýr þaðan að Víkingavatni í haga skamt frá bænum. Var það siður drengs að slíta hríslu úr runninum, hvert sinn, er hann fór þar hjá og vantaði keyri á kýrnar. Leið nú sumarið fram, og hafði drengur þann sama sið. Fór því runnurinn að láta ásjá, uns hann eyddist með öllu. En um haustið tók að bera á undarlegum veikindum í drengnum. Visnaði fyrst höndin og hann hálfur. Síðan veslaðist hann upp og dó um veturinn. Litlu síðar var maður, er verið hafði sjötíu ár fjármaður á Víkingavatni, staddur nálægt björgum þessum. — Heyrði hann þá kveðið með raunalegri rödd inni í hömrunum:

"Faðir minn átti fagurt land,
sem margur grætur.
Því ber eg hrygð í hjarta mér
um daga og nætur."

Var sú ætlun manna, að runnurinn, sem drengurinn reif upp, hafi verið skemtilundur huldufólksins, og hafi það viljað gjalda honum rauðan belg fyrir gráan, valdið vanheilindum hans og dauða.

— — — Mér hefir á síðustu tímum orðið saga þessi næsta hugstæð og þau lífssannindi, er þar má lesa milli línanna. Vissulega má túlka þau og útskýra á ýmsar lundir, sé sagan gerð að dæmisögu. En til þess er hún óneitanlega vel fallin, enda þótt mér sé ekki kunnugt um, að það hafi áður verið gert. Gæti þá rauðaviðarrunnurinn táknað helgistað heimilis eða þjóðar, borgar eða sveitar; drengurinn eyðingaröflin í mannheimum eða þann hugsunarhátt, er lætur sér fátt um finnast æðri verðmæti; fjármaðurinn hlutlausan áhorfanda, er skynjar, hverju fram vindur og hvílíkan sársauka skeytingarleysið getur valdið þeim, er verður fyrir því, en einnig hinum, sem sekur gerist. Segja má og, að runnurinn fagri gæti táknað andleg verðmæti: tungu, bókmentir, listiðju eða þjóðminjar; drengurinn áhrif utan að komandi afla, sem uppræta gróðurinn á akri þjóðlífsins fyrir tilstuðlan ófyrirleitins æskulýðs; fjármaðurinn aldni gömlu kynslóðina, er man tvennar tíðir og skilur, hve mikils er mist, þegar forn menningarverðmæti fara forgörðum.

Þjóðsögur vorar og æfintýri eru þeir brunnar lífsspeki og mannvits, er seint verða þurausnir, þaðan af síður metnir að verkleikum. Þeir hafa svalað þyrstri alþýðu um raðir alda, enda verk hennar sjálfrar. Vitrustu og bestu fulltrúar hennar slóu töfrasprotum sínum á undirstöðubergið, svo að fram spruttu lífsins

lindir hinum til handa. Svo hugkvæmir gátu þeir verið í allri sinni veraldlegu örbirgð, fásinni og einangrun að byggja hamrana ósýnilegri þjóð, er var svo göfugs og réttláts eðlis að launa góðverk við margfaldri blessun, en hegna mótgerða grimmilega; reisa þar hallir álfa við hlið mannlegra hreysa og gæða þetta hugsaða fólk næstum yfirnáttúrlegum mætti í aðra röndina, en geðþekkum breyskleika í hina, með auð þess og allsnægtum. Þessi fagri og ímyndaði heimur bætti upp fátækt þjóðarinnar, sætti hana við eymd sína og niðurlægingu, hóf hana yfir baslið.

Á menningarsögulegt gildi þessarar staðreyndar hefir margsinnis verið bent. En ekki hefir að sama skapi verið lögð áhersla á hitt, hvern ávöxt siðgæðishugsjónir þjóðsagnanna geta borið, sé giftusamlega á haldið. Jafnvel þótt enginn beri brigður á þau töfrandi og undursamlegu áhrif, sem lestur fegurstu þjóðsagna vorra og ævintýra hafa á hugi yngri sem eldri, þá eru fjársjóðir þessir næsta vandlega geymdir og lokaðir í hirslum og miklu sjaldnar handfjallaðir en vert væri. Ævintýrið um rauðviðarrunnann og huldufólkið í björgunum milli Sulta og Víkingavatns er ekkert eins dæmi, þó að fagurt sé og lesa megi sér til daglegs unaðar og sálubótar. Meðal þjóðsagna og munnmæla er að finna fjölda jafndýrmætra demanta. Af þeim öllum stafar þeirri leifturbirtu, er lýsir upp rökkursvið langra kvölda. Um þá leika friðarbogalitir, ýmist blikandi skærir eða hjúpaðir sefandi blæ mildrar slikju. En allir gleðja þeir augað og hita hjartanu. Og þeir varpa ljóma yfir land feðra vorra og mæðra, lauga það í birtu lita sinna, skíra það í skini elds síns.

“Faðir minn átti fagurt land, sem margur grætur”. Hve margir eru þeir ekki, sem trega mega og gráta gullnum tárum glötuð verðmæti? Nú lesum vér hvorki né lærum á sama hátt og áður óviðjafnanlega fögur vers og ævintýri. Vér nemum varla framar sagnir Noregskonunga og Íslendinga, eddur og þætti með öllum þeim landvættasögum og fallegu munnmælum, sem þar er snildarlega fléttað inn í. Mér finst það stórum íhugunarvert, hvort oss glatast ekki um leið til arðgæfra afnota mikilsverðir dýrgripir. Erum vér ekki um leið að slá úr höndum vorum háspilum við leikborð lífsins og jafnframt að firra oss hetjulega fegurð?

Sannarlega hefir eigi sjaldan verið á það minst, hve fagurt land og saga fléttuðust saman, þarsem stóratburðir í lífi þjóðarinnar lifa í tengslum við ýmsa merkisstaði; og hafa margir snotrir menn um það vélt. En skyldu ekki ævintýrastaðirnir í heimi þjóðsagnanna vera fagrir líka? Þeir eru að minsta kosti ekki eins blóði drifnir og hinir. Sá er og jafnan munur á veröld listarinnar og veruleikans, ævintýrsins og sögunnar. Eru báðar næsta dularfullar, en hvor á sinn hátt.

Víst er hægt að glata verðmætum öðrum en þeim, sem ryð og mölur granda og missa lönd á annan hátt en hernaðarlega. Nægir því til sönnunar að nefna heiðarnar, sem lögðust í auðn, þegar Vesturheimsferðir hófust og jarðirnar, sem eru að hverfa úr tölu bygðra býla þessi árin. Með hverri þeirra minkar Ísland og þjóðmenning þess hörfar undan, líkt og

her á undanhaldi, inn á þrengra svið, markaðri bás, ef svo mætti segja.

Sérkenni íslenskrar menningar, lífs og listar eru einkum bundin við sveitir þess. Þegar bygðir þeirra minka og fólkinu fækkar þar, dregur og úr þessum sérkennum, er gefa þjóðinni gildi og tilverurétt. Dreg eg mjög í efa, að þeim, sem vilja samfærslu dreifbýlisins og jafnvel brottflutning fólks úr sveitum til borga og þorpa, sé þetta fyllilega ljóst. En vegna þessa undanhalds eða flótta frá umræddum vígstöðvum er þörfin á að bjarga því, sem bjargað verður, ennþá brýnni en ella. Á eg þar jafnt við heilbrigða þróun og varðveislu andlegra sem hlutkendra verðmæta. Nægir í því sambandi að nefna tunguna í allri sinni margbreytni framburðar og blæbrigða eftir landshlutum og héruðum, jafnvel sveitum; ævintýrin, þjóðsögurnar og munnmælin í tengslum við örnefni og staði; heimilisiðnað og listiðju hvers konar, lærðra jafnt sem leikra.

Á það skal nú bent og lögð áhersla, að eg legg í þessa viðleitni alla mjög víðtækan skilning, menningarlegs, þjóðlegs og siðgæðilegs efnis, enda er þetta þrent næsta traustum böndum tengt. Hvar væri til dæmis listaog áhrifamáttur ævintýrasagnanna, ef þær ekki væru þrungnar fögrum boðskap og trú á hið sanna og góða? Göfugar siðakenningar ganga eins og rauðir þræðir í gegnum þessi verk, svo sem allar fagrar bókmentir, trú á gildi veglyndis og valmensku, er gefur endurgjald í aðra hönd þessa heims og annars eða í þvísa ljósi ok öðru, sem í Njálu segir. Hins vegar hljóta jafnan þeir, sem beita fláttskap, rætni og rógi makleg málagjöld ilsku sinnar. Er það ekki þessi næma réttlætiskend vorra bestu bókmentahöfunda, nafngreindra og óþektra, sem gera verk þeirra, framar öðru, síung og vermandi hjörtu vor og hugi? Skyldi það ekki vera af þeim ástæðum, sem oss þykir vænt um þjóðlögin, vikivakana, þulurnar, ævintýrin, sögurnar, munnmælin, vísurnar, alþýðulögin, bænirnar, örnefnin og heimahagana, inst inni, með svipuðu móti og vér unnum foreldrum vorum og nánum ástvinum frá bernskudögum?

Og þó erum vér af einskæru ræktarleysi og vanhyggju að fjarlægjast þessar hollu og tæru lindir. Afleiðingin hlýtur að verða visnun gróðurs í akri andans, afturför þess lífs, er sprettur upp úr móðurmoldinni sjálfri. Í stað þess að annast það af kostgæfni dekrum vér óspart við aðfluttar þyrnijurtir, er síður eiga heima í íslenskum jarðvegi, dáumst að vexti þeirra og viðgangi — eða látumst gera það, þó að aldrei geymi þær né gefi þá "gamalla blóma angan", sem ein fær töfrað oss og heillað til hugbótar fullkominnar.

Því fer þó víðs fjarri, að hið unga kjarngresi sé kostasnautt. En mundi ekki nýjabrum þess hafa sótt dýrstan safa í frjólönd huldufólks og útilegumannabygða, skógarsvörð fornra og yngri markmanna, er "mærðartimbur máli laufgað" hefir sprottið úr í þúsund ára ríki þjóðar, sem elskað hefir bókmentir umfram annað á þessari jörð, lifað fyrir þær alla ævi sína, fórnað þeim öllu því besta, sem hún átt hefir?

Vitanlega hefir íslensk þjóð haft fleira sér til ágætis en ást á fögrum ljóðum og frægum sögum. Ósann-

gjarnt og rangt væri að gera lítið úr gestrisni hennar, þrautseigju, trygð og trú á sjálfa sig, guð og góðar vættir í tilverunni. Alúð sú og gaumgæfni, sem fjöldi útskorinna muna, ofinna dúka og saumaðra ásamt mörgu fleira, ber fagurt vitni um göfuga eðlisþætti liðinna kynslóða. En alt þetta er svo nátengt bóklegri iðju og tiginborinni hvöt hlutfallslega margra manna til andlegra viðfangsefna, að allur samanburður á hliðstæðum fyrirbrigðum í mannheimum verður öldungis óþarfur.

Þjóðin er fræg fyrir bókvitið, kærleik á sögnum og sögum, ljóðum og lögum kvæða og rímna, þulur og ævintýri, varðveislu máls og menta í fásinni, alúð og skilning hlutfallslega margra manna á gildi helgidóma sinna, fornra og nýrra. Hún er fræg að ágætum. Ef núlifandi kynslóð eða þeir næstu glötuðu þessari góðu meðaleinkunn, sem þjóðin hefir getið sér, mundu þær verða frægar að firnum og endemum.

Að því stefnir þó straumur tímans að skola þessum verðmætum á haf út. Leysingavatnið, flaumurinn, sem stafar af umróti þessara nýju tíða, veldur margháttaðri byltingu í hugum breytingargjarnrar æsku, við kynni hennar af heimsmenningunni svo nefndu. Samanburður er gerður, oft óhagstæður fyrir Ísland og íslenskar arfleifðir. Því er slegið föstu, að vér Íslendingar stöndum langt að baki öðrum þjóðum, t. d. Vestmönnum, í öllu tilliti, af því að vér höfum náð skemmra en þeir í verklegri kunnáttu og leikni. Séu athafnir vorar metnar á þann mælikvarða efnisafkasta, verða þær harla lítilmótlegar miðað við risavaxin iðjuver og hrikalega himinkljúfa miljónaborganna.

Hér er um að ræða vanmat á dýrlegri eign og um leið vanhelgun hennar. Þetta stafar af skilningsskorti, sem fer vaxandi við samfærslu bygðarinnar og fækkun fólks á heimilum. Hans verður mest vart meðal æskulýðsins í kaupstöðunum og þar, sem straumhraðinn er öflugastur. Eg vil rökstyðja þetta.

Áhrif vélmenningarinnar, (ef menningu skyldi kalla), á kaupstaðabörnin eru miklu djúptækari en áhrif hennar á sveitaunglingana. Nægir þar að nefna kvikmyndir, flugvélar, bíla, dagblöð og margt fleira. Kaupstaðaungmennin vita því fleira en frændsystkin þeirra í sveitinni um vélabrögð hvers konar, minna um líf dýranna; meira um hraða, ys og þys, minna um fjöll og fossa, veður og vinnubrögð. Fyrnefndu ungmennin vaxa upp við eril götunnar, hin þroskast við fjölþætt áhrif náttúrunnar og eigin athafna við búskapinn. Afleiðingin verður tvær ólíkar manntegundir: önnur þjóðleg, hin alþjóðleg; önnur tengd landinu og lík því, hin hvorugt; önnur dýrkandi orðlausrar tignar, hamfara og dutlunga, jafnvel hollvætta landsins —; hin aðdáandi vélaflsins, hraðans, fágunarinnar og hringiðu torgsins.

Þessa mismunar gætir í æ ríkari mæli eftir því, sem kaupstaðirnir vaxa, — einnig meðal fullorðna fólksins. Hér er því ekki aðeins komin vík milli vina og fjörður milli frænda — heldur beinlínis djúp mikið staðfest. En það djúp geta engar vélar né verklegar framfarir brúað, þótt góðar séu til sinna nota. Því kraftaverki er þjóðmenning vor, fyrir til-

stuðlan traustra og farsælla uppeldisáhrifa, ein vaxin. Enginn máttur annar getur þá helgireiti ræktað í hugartúnum, sem jafnan hafa verið vinjar í eyðimörk um þúsund ár.

Enginn skyldi ætla, að sú ræktun hefði verið auðveld. Að henni hafa unnið þúsundir heimila, ekki síst húsmæðurnar. Enn í dag kallar nauðsynin á hjálparöfl til handa þeim gróðri. Nú fremur en nokkru sinni áður er þeirra þörf. Eins og áður gegna góðar mæður þessu hlutverki fremur flestum öðrum. Á síðari árum hafa kennararnir komið þeim til hjálpar. Engin störf í þjóðfélaginu eru hvort öðru tengdari en þessi: húsmóðurverkin og vinna skólamannsins, engin störf mikilvægari fyrir menninguna og farsæld framtíðarinnar. Kennarinn og húsfreyjan eru samherjar í sókninni gegn viltum öflum þjóðlífsins, gegn taumlausum frumhvötum, vonsku og vanþekkingu. Konan, móðirin, og kennarinn eru sáðmenn og vatnsveitufólk í andlegu tilliti. Þau sá og gróðursetja í sál unglingsins frá morgni til kvölds. Engir vinna fremur í hag framtíðinni en þau. Engir hafa þarfari ræktun með höndum, engir vandasamari. Hvers virði er að temja hesta eða kynbæta sauðfé hjá því að gera börn að vitrum og góðum mönnum, vönduðum og vel siðuðum? Af hverju er þetta mikilvæga starf ekki metið og þakkað meira en raun ber vitni um? Fátt útheimtir meiri þolinmæði, umönnun, þrautseigju, nærfærni, samviskusemi, þekkingu og fórnfýsi.

Góðs og umhyggjusams uppeldis er æ meiri þörf eftir því, sem ungmennin fjarlægjast áhrifavald náttúrunnar meira. Leiðbeiningar um val lesefnis til dægradvalar og utanbókarnáms eru æ nauðsynlegri eftir því, sem framboð misjafnra blaða og bóka fer í vöxt. Virðing fyrir helgum dómum, hvort sem þeir eru trúarlegs eðlis, svo sem krossar og kirkjumyndir; heilagir sögustaðir, eins og Þingvellir hjá Öxará; sagnir um vígsluathafnir álfa, sem getur um í sögunni af Tungustapa í Sælingsdal; eða þeir eru skemtilundur huldufólks, eins og rauðaviðarrunnurinn hjá Sultum í Kelduhverfi, — eg segi: virðing fyrir öllum þessum helgu dómum og ótal mörgu öðru er menningarvottur og trygðartákn þjóðhollra manna.

"Faðir minn átti fagurt land, sem margur grætur". Vissulega fer margur villieldur um skóga máls vors og menningar. Ýmsum lundum hafa þeir logar eytt. Fjöldi stráka fyr og síðar hafa í kæruleysi og vanhyggju rifið margan rauðaviðarrunnann upp með rótum, heilladísum landsins og börnum þess, lifðum og ólifðum, til harms og hrygðar. Vissulega grípur alla söknuður á rústum brunninna borga og eyddra skóga. Vér skiljum svo mætavel þann angurblíða trega, er felst í ljóðlínunum, sem fjármaðurinn aldni frá Víkingavatni heyrði kveðnar í björgunum: "Því ber eg hrygð í hjarta mér um daga og nætur".

Mundum vér geta ratað í öllu þyngri raunir en þær, að glata föðurlandi voru? En það gerum vér, ef þess sérstæða menning, vaxin upp úr hörðu og hrjúfu grjótinu við hamrabjörgin, líkt og rauðaviðarrunnurinn hjá Sultum í Kelduhverfi, fer forgörðum. Við sult og seyru hefir þessi menning þróast. En haldgóð og

seig hefir hún reynst, harðgerð og rótföst, svo sem rauðaviður hjá bjargi eða reynir í gljúfrum. Í fáu einu minnir hún á risafurur Californíu eða Rússlandsskóga. En þó hefir hún borið hróður þessarar fámennu og örsnauðu þjóðar um víða veröld. Einstæðar bókmentir hennar hafa veitt miljónum manna, heima og erlendis, ógleymanlegar unaðarstundir, lyft hugum þeirra í hæðir óviðjafnanlegrar listnautnar. Ástin á þeim og trygðin við þær og þá staði, sem eru þeim tengdir, hefir gert kynslóðirnar á undan oss að betri mönnum og göfugri en ella, landið flugríkt í fátækt sinni. Engin aðflutt verðmæti komast til jafns við þenna heimafengna auð.

Sú er æðsta skylda vor að varðveita hann og ávaxta. Það er varnarstyrjöld vor. Eg er ekki svo bjartsýnn að trúa á sókn á þeim vettvangi að sinni. Ef vér vinnum þar, verða það varnarsigrar, og má vel við una, ef vér höldum öllu voru landi, þegar flóttinn úr sumum sveitum er svo ákafur, að nærri liggur, að hálfar og heilar kirkjusóknir leggist í auðn. Hver á þá að gæta að grafarrónni? Útverðir íslenskrar menningar verða enn sem fyr bændurnir, dalbúarnir á takmörkum öræfanna og mannabygða í nyrsta þjóðríki veraldarinnar. Meðan þeir halda velli með heiðri og sóma, er öllu óhætt. — "Faðir minn átti fagurt land". Áar vorir og ömmur áttu landið, þrátt fyrir stjórnlegt og viðskiftalegt ófrelsi. Þau bjuggu á landinu, ræktuðu það að nokkru kringum bæina, höfðu gróna jörð undir fótum. Þau bygðu landið, lifðu á því, þar sem lifað varð, að vísu, oft við sult og ógnir, en háðu sitt stríð á vettvangi héraða og afdala, jafnvel heiða og öræfa. Kappsmál þeirra var að viðhalda bygðinni. Og þar sem þau gátu ekki búið sjálf, bólfestu þau álfa og hollvættir í hömrum og klettum.

Nýja tímans menn, veruleikans fólk og vísindanna, fulltrúar félagshyggju og heimsviðskifta fagna því, að þessir fornu hættir atvinnulífs, hjátrúar og hindurvitna séu að líða undir lok. Þeir biðja kotbúskapinn, sem svo er kallaður, aldrei að þrífast. — Látum svo vera, að álfatrú og fleira séu hindurvitni. En jafnvel framsýnasti maður þessarar þjóðar að fornu og nýju taldi hana vera samfara andlegu fjöri og skáldlegri tilfinningu, sem ekki finst hjá þeim, er þykjast svo upplýstir að trúa engu. Og án þessara eiginleika megum vér síst vera. Segjum, að afdalakotin og nesjabýlin eigi að verða úr sögunni með öllum sínum raunalegu atburðum, basli og bágindum. En vér megum ekki við því að missa þau verðmæti, sem eru ávöxtur hetjulegrar baráttu á þeim vettvangi. Einu gildir, hvort þau ágæti eru falin í gullvægum orðum tungunnar, þjóðsagnaperlum, listahaglegum hlutum, helgum dómum og táknum eða þeim fögnuði sjálfsþekkingar og speki, æðruleysis og prúðmannlegrar göfgi, er þróast hafa í nábýlinu við heiðarnar og fjöllin.

Margir eru hættir að trúa á landið og heilladísir þess, en teknir að tigna hafið. Þökk sé Ægi konungi fyrir allar hans ríkulegu gjafir oss til handa, þó að sumar þeirra séu hefndargjafir. En vér megum ekki missa trúna á landið, enda þótt örlæti þess sé minna en sjávarins. Traustið á

landinu er undirstaða þess, að vér höldum eignarrétti vorum yfir því. Og þar er ekki einungis átt við mold þess heldur og alt, sem úr henni vex og hefir þróast, frá beitijurtum og túngrösum til bókmentagimsteina og fegurstu þjóðlaga, frá litlum skarifíflum að limauðugum björkum, frá vængjasmáum villibýflugum til háfleygustu höfuðgarpa þjóðarinnar.

Aðdáun vor á höfðatölu hersins í meginlöndunum og glæstum búningi hans má ekki villa oss sýn og rugla dómgreind vora á verðgildi eigin myntar. Lengi var hún miðuð við vaðmál, kýr og skinn. Sauðarbjórum og heimafengnum fjöðrum eigum vér að þakka varðveislu margs þess dýrmætasta, er vér eigum og getið hefir oss alheimsfrægð. Orðið gæruskinn hefir sjaldnast verið neitt virðingarheiti. En hvað hefir til síns ágætis nokkuð.

Mér er deginum ljósara, að sjónarmið það eða mark, sem hér hefir verið bent á, á lítilli hylli að fagna og mun síst vera talið eftirsóknarvert af sumum helstu fulltrúum vísinda og atvinnulífs í voru landi. — Skoðanir sem þessar telja þeir bera vott um rómnatíska hugaróra, sem í fáu eigi skylt við staðreyndir, og lítinn hafi rétt á sér, framtíðarlandið sé fjarri, að því beri að stefna, en segja skilið við allar huldufólksbygðir og heiðabýli.

Nei, vér höfum ekki efni á því. Vér megum ekki tapa landinu, heldur verðum vér að vinna það. Skylda vor er að tefla menningunni gegn siðleysinu, trygð gegn ræktarleysi, visku gegn vanþekkingu, trú gegn tómlæti, sannleika gegn svikum, bókmentum gegn blaðri, þjóðhollustu gegn þýlyndi, tignun og aðdáun gegn lítilsvirðingu og óskammfeilni, kærleika, festu og frelsi gegn óvild, rótleysi og ánauð.

Takist þeim jákvæðu öflum að sigra hin, þá vegnar oss vel. En lúti viðreisnaröflin í lægra haldi, er ógæfan vís. Á þessu veltur sjálfstæði vort, farsæld vor og framtíð.

"Faðir minn átti fagurt land—". Já, víst er það fagurt og óviðjafnanlegt, var og verður. Óhappaverk er að ræna það fegurð sinni. En hitt er ekki heldur giftusamlegt að svifta það menningu og minningum. Þau ódæði eru framin með því að vanrækja skyldurnar við góðar arfleifðir og vanhelga dýra dóma.

Þeir, sem trúa á sjóinn einan, harma það ekki, þó að eitthvað af kotbæjum fari í auðn. Vér hinir, sem trúum á landið, söknum þess, og vitum, að við hverja eydda jörð minkar Ísland, nema önnur ný sé bygð í staðinn. Oss er það ljóst, að menningarleg verðmæti fara forgörðum í hvert skifti, þegar skilið er við býli í heiðadalnum og á ströndinni við ysta haf í hinsta sinni. Jafnframt því að seinustu heimamennirnir fara úr gamla bænum, hverfa þaðan og fyrnast þjóðlegar minningar og sérkenni, sem eiga hvergi sína líka fullkomlega. Örnefni glatast; munnmæli rofna úr tengslum við upphaf sitt; lífshættir, bundnir staðnum, ganga úr gildi; vissar lyndiseinkunnir veslast upp; jafnvel ákveðin sérkenni tungunnar, orða og hreims, þurkast út.

Á þessu verða síðla ráðnar bætur til fulls. En vér þörfnumst rækilegrar endurskoðunar á öllum þeim gullum, sem vér erum að týna; gildi

landsins, er gengur oss stöðugt úr greipum; ágæti mannkostanna og gestrisninnar, sem fer forgörðum. Hvað höfum vér fengið í staðinn fyrir gullið, sem horfið er úr hömrum og haugum? Miljónir bankaseðla í erlendum borgum. Hvað fékst fyrir landið, sem vér létum af höndum? Viðurkenning stórþjóðanna á fullveldi, sem þær virða lítils. Hvað fáum vér í stað fórnarviljans, hjálpfýsinnar og hugprýði þeirrar og gestrisni, sem eiga sér langöruggast vígi í "fásinni" afdala og afskektra víkna, þegar einungis fuglar festa þar bygð? Sjálfsagt verður mér svarað því, að gistihús og hallir taki við af hreysunum við heiðaræturnar, sem oft voru vel þegin skýli vegfarendum; sölugreiði komi í stað gestgjafar og tryggingarstofnanir og sjóðir leysi af hólmi hjálpendur í nauðum. En samt held eg, að vér hljótum að missa eitthvað, sem margur grætur, líkt og huldufólkið skemtilundinn, sem lagðist í auðn.

Til þess að bæta úr því er ekki til nema eitt ráð. Vér verðum að halda í heiðri minningunum um alt, sem er oss heilagt, dýrmætt og kært, halda vörð um það, kenna æskulýðnum að meta það, unna því, skilja ágæti þess. Vér þurfum að kenna honum að fá auknar mætur á málinu, sem vér tölum, bókmentum landsins og listagildi þeirra. Vér eigum að láta hann læra sem mest af sögum og ævintýrum, sálmum, ljóðum, þulum og lausavísum og tileinka sér þá trúfestu, sæmd og siðgæði, er þar birtist. Eg veit ekkert heilnæmara lyf, gegn meinum þeim, er þjóðlífi voru ógna; ekkert mótvægi áhrifameira gegn þunga tildurs og tísku; enga sól bjartari til að yfirskyggja mýraljós og Saltvíkurtýrur svikinnar menningar. Vér hljótum að leggja meiri áherslu á það en nokkru sinni fyr, að þaulrækta hvern einstakling betur en dæmi eru til áður og annars staðar.

Af því leiðir, að enn verða lagðar auknar byrðar á bak þeirra, sem hafa umsjá með æskulýðnum. Aukinn vandi hlýtur þá að fylgja vegsemd þeirri, að vera leiðtogi ungmenna. Hert verður æ meir á kröfum þeim, sem gera ber til feðra og forystumanna, en einkum til húsmæðra og kennara. Starf þeirra stétta hefir löngum verið lítils virt, enda þótt þær hafi öðrum fremur lagt undirstöðuna að gerð þess undursamlega musteris, sem nefnt er maður. Húsmóðirin hefir oft verið eiginmannsins þerna, og til kenslu verið valdir þeir menn, er ekki hafa þótt hæfir til annars fyrir vitsmuna sakir.

Gagngerð breyting hlýtur að verða á þessum úreltu viðhorfum. "Traustir skulu hornsteinar hárra sala", og mikils virtir þeir, er þá leggja, eins og brautryðjendur eru í hávegum hafðir. Virðingar, trausts og viðurkenningar þarfnast þessir byggingameistarar, ef musterið á að verða vel reist. En þeim kemur líka vel að njóta skilnings, aðstoðar og samvinnu. Fyrir hönd kennaranna í landinu heiti eg á alla góða drengi til fulltingis. Eg eggja þá lögeggjan mikilvægasta málefni þjóðarinnar til stuðnings.

Án styrks og samúðar almennings, án tilstuðlunar fólksins fá þessir mikilvægu þjónar þess ekki notið sín og störf þeirra ekki borið tilætlaðan árangur, musteri framtíðarinn-

ar ekki staðist. Þá fáum vér hvorki unnið nýtt land né haldið því, er vér eigum. Og þá eigum vér eigi annars úrkosta en gráta það, sem oss er gengið úr greipum — eins og huldufólkið í hömrunum rauðaviðarrunninn fagra, sem rifinn hafði verið upp með rótum.

# Heims skálda háttur

Eftir Jakob J. Norman

Tilefni kvæðisins var þetta: Eg fann tvær smáar jökulfægðar hrafntinnur— líktist önnur hjarta, en hin mannsheila. — Sá eg þá á einu augnabliki: Að eldar og ísar voru og eru helstu heimsskáldin.

I.

ÍSAR OG ELDAR
aflvaka pólum:
Háttbundu hnetti
hrynjandi — sólum.

Ísar og eldar
alheima máttinn:
Greindu frá gasöld
geislalífs-háttinn.

Ísar og eldar
alheima muna:
Kveða til kjarna
kala og bruna.

II.

Helstu skáld heimsins:
hiti og kuldi —
ísa og elda
almáttur þuldi.

Ísar og eldar
almáttar kosti:
Hlutu sem heims skáld
hiti og frosti.

Ísar og eldar
almætti kváðu:
Hjarta og heila
heims mynda náðu.

Ísar og eldar
alhreima ríma:
Hjarta og heili
hættina stíma.

III.

Hjarta og heili
hvað skal nú braga?
Blikandi Bifröst
bygðir og haga.

Fagurt er útlit
alheimar blossa —
hrynja nú jökla
hrímtár í fossa.

Fagurt er útlit
fossanna boga —
lífsgeisla daggir
litofna toga.

IV.

Elda og ísa
allista smíði:
Háttbundinn hróður
hugmynda prýði.

Haglkorn og hrímtár
hlaðgeislum sóma —
grátfögur glódögg
glitkrónum blóma.

V.

Eldar og ísar
eruð þið svona —
Hjarta og heili
hlutgengra vona?

Þá skal og játa
þið eruð mestir!
Hamingju allrar —
heimsskálda bestir!

# Kynni mín af vestur-íslenskri hljómlist

Eftir Guttorm J. Guttormsson

---

Hinir fyrstu menn, sem riðu á vaðið í hljómlistinni á landnáms tíð Íslendinga vestan hafs, svo sögur fari af, voru þeir Baldvin L. Baldvinsson, Sigtryggur Jónasson og Hans Níelsson. Baldvin var conservative og lék "formlega eftir nótum", en Sigtryggur var liberal og lék "vilt eftir eyranu". Hafa þessar tvær stefnur uppi verið síðan.

Þegar Baldvin, á sínum fyrstu frumbýlingsárum stundaði skósmíði í Toronto, var hann Clarinetisti í hljómsveit þar í borginni.

Sigtryggur og Hans voru fiðlarar og léku þeir saman fyrir dansinum á fyrstu samkomunni við Íslendingafljót, sem var aðallega hlutavelta og dans og fór fram í prentsmiðju "Framfara". Eg var þá hvítvoðungur og dró, eða einhver fyrir mig, peningabuddu, prjónaða. Er hún jarteikn þess, að eg hafi verið þar og fari með rétt mál. Móðir mín lærði danslagið. Var það "polki" og kann eg hann enn.

Mörgum árum síðar kom Percy fóstursonur Sigtryggs norður að fljóti í fyrsta sinni, þá lítill snáði. Var hann spurður, hvort pabbi hans léki enn á fíólín. Percy svaraði að pabbi sinn hefði hætt því, því mömmu sinni hefði leiðst það!

Eftir að Baldvin fluttist til Winnipeg snerti hann aldrei Clarinet. En Hans hélt áfram að leika á fiðluna, jafnvel eftir að hann var orðinn blindur og örvasa.

Eftir að þeir Sigtryggur og Hans fluttust burtu frá fljótinu, kom harmonika í stað fiðlunnar, og var það spor aftur á bak mjög tilfinnanlegt. Var harmonika leikin við öll hátíðleg tækifæri, þar á meðal við opinberan postillulestur í prentsmiðju Framfara. Söng söfnuðurinn með harmonikunni: "Hver sem ljúfan guð lætur ráða."

Eftirtektavert er það, að enginn hinna mörgu harmoniku slagara varð nafnkendur fyrir list sína. Má vera, að orsökin sé sú, að hver hafi skygt á annan og ekki unt verið að sjá aðgreining höfðingjanna. En eftirminnileg er meðferðin, sem harmonikan sætti. Var hún miskunarlaust toguð og teygð til beggja handa uns hún stóð á öndinni og kom ekki upp nokkru hljóði. Varð þar þögn í laginu þar til hún var rekin saman aftur, með báðum lærunum auk handanna, og heyrðist þá, auk sönglistarinnar, ógurlegur vindgangur í belgnum — þarmastormur og skruðningar. Gengu kjálkarnir á spilurunum sundur og saman eins og belgurinn, og þegar þeir, spilararnir, vildu vanda sig sérstaklega vel að ná "effect" í músikinni ráku þeir út úr sér tunguna.

Tóku nú fíólínin aftur að ryðja sér til rúms. Gerðist fíólínið um skeið "national" hljóðfæri í Nýja-Íslandi á líkan hátt og belgpípan á Skotlandi. Marga vissi eg leika á fiðluna, sem ekki kunnu að stilla hana. Urðu

margir mjög leiknir að leika fyrir "Square-dans" og "Jumping polka". Var það síst verra en jazz-jarmið eða hljómklámið nú á dögum. En þrátt fyrir alla þessa iðkun og þjálfun varð enginn fiðlarinn frægur nema helst sá sem dró bogann svo langt til og hart á double-forte uppstroki, að hann rak bogann út um glerglugga á danssalnum og drap mann úti fyrir.[1]

Alla, sem fengust við að leika á fíólín eftir nótum, höfðu menn þessir í mestu óvirðingu og niðurlægingu. Sögðu að það væri of þvingað, blátt áfram engin musik, spilari mætti ekki binda sig við neinar nótur. Sjálfir kváðust þeir ekki treysta sér til að smeygja inn í lagið ýmsum trillum og skrauti, nema þeir hefðu frjálsar hendur. Einn sagðist hafa heyrt Alexander Bull, son Óla Bulls spila suður í Dakota, eftir nótum og sér hefði hreint ekki líkað það. Auðvitað átti Óli Bull engan son sem Alexander hét, það er að segja, innan hjónabandsins. Allir þessir fiðlarar áttu sammerkt í því, að þeir höfðu mjög lítið álit hver á öðrum fyrir spilamenskuna, og sýndi það öðru fremur, að þeir höfðu góðan smekk.

Eftir að menn fóru að troða skammel stofuorgelsins, mátti segja, að sönglistin ætti sér bæði sögunarmyllu og vefstól samtímis. Voru organistarnir þegar í byrjun langt á undan fiðlurunum í allri söngment. Þeir gátu leikið eftir nótum tvær raddir með hvorri hönd í ýmsum tóntegundum, þar sem fiðlararnir léku alt í einni. Varð einn organistinn mjög áberandi án þess hann hefði sig mjög í frammi. Af því hann hafði ekkert skrúfstykki að setjast á við orgelið, hækkaði hann sig í vanalegu sæti með því að hlaða undir sig plankabútum, og breiða rósóttan borðdúk á. Hann hélt uppi söngæfingum um langt skeið í norður Nýja Íslandi, helst með ungum drengjum, sem enn höfðu kvenmannshljóð, og gjafvaxta stúlkum, og "leiddi" með orgelspili. Þessar söngæfingar höfðu engan enda. Eftir að söngflokkurinn var orðinn uppgefinn af að syngja hvíldarlaust í marga klukkutíma og farinn heim nærri dauðvona hélt organistinn áfram að spila langt fram á nótt og stundum tjaldaði hann yfir rúmið sitt hjá orgelinu til að geta byrjað snemma í fyrrmálið. Auðsjáanlega þekti hann vel inn á hljóðfærið; enginn mátti koma við orgelskassann meðan hann spilaði; það gat haft áhrif á hljóðið, að hann sagði. Varð mér sú skyssa á, einu sinni, og stöðvaði organistinn söngflokkinn í miðju lagi til að ýta mér frá orgelinu í hæfilega fjarlægð. Ekki mátti skilja vind eftir í því að afloknu spilinu; varð organistinn að styðja á margar neðstu nóturnar í einu til að hleypa úr því vindinum, og heyrðist náttúrlegt hljóð, þegar vindurinn losnaði.

Hann eins og fleiri organistar þess tíma, var sakir yfirburða sinna mjög tregur að koma fram á opinberum samkomum til að spila fyrir þann skríl, sem þá var uppi og ekkert vit hafði á hinni háu list. Sá eg kvenfélags konur ganga á eftir honum með grasið í skónum og bænarstaf, en við það miklaðist hann, sem von var, svo engin von var um ásjá. Alt um það var hann alllengi forsöngvari í kirkjunni og gerði ýmist að spila eða

---

1) Úr þjóðsögunum.

syngja án orgels. Þótti honum þá mest um vert, svo hann yrði einn um það, að syngja lög sem enginn hafði áður heyrt og ekki höfðu orðið til fyr en þá. Verður hann því að teljast forsöngvari forsöngvaranna og fyrstur í þeirra röð.

Annan þekti eg sem stóð, umkringdur söngflokknum, og leitaði á orgelinu að nótu, sem lagið átti að byrja á, en fann ekki nótuna og byrjaði svo sjálfur á nótu sem ekki var til á orgelinu.

Það bar til í þann tíma að fréttist úr öðru bygðarlagi, að maður nýkominn frá Dakota hefði efnt til söngflokks og ætlaði einn að syngja bassann, er söngflokkurinn kæmi í fyrsta skifti fram á opinberri samkomu þá á næstunni.

Söngelskum mönnum í minni bygð þótti þetta eftirtektarvert um bassann og nýmæli. Tókum við okkur ferð á hendur til samkomunnar, en viltumst heim að "vitlausu húsi" og gerðum við okkur til erindis að spyrja til vegar, fullir ótta að við yrðum of seinir til að heyra bassann. Var okkur tjáð alldrýgindalega, að sá, sem ætlaði að syngja bassann, væri þar á staðnum og að ekki værum við of seinir, því án hans yrði ekki byrjað í salnum. Fanst okkur þetta hafa við eitthvað að styðjast. Varð eg bassamanninum samferða það sem eftir var leiðarinnar og fengum við gróft álit hvor á öðrum fyrir mikla lesningu og fágaðan smekk.

Þar sem hann átti að vera bara einn í bassa og jafnframt söngstjóri, gerði eg ráð fyrir að hann mundi standa fyrir framan söngflokkinn, sem var kvenfélag bygðarinnar eða úrdráttur úr því. Aldrei upplýstist það, hvort hann misti móðinn, er hann sá aðsóknina, eða fékk vanmáttarkend, en af einhverjum ástæðum hvarf hann á bak við söngflokkinn. Gátu menn þess til að bassmaðurinn sæti flötum beinum á bak við söngflokkinn, og sæist því ekki, en heyrðist aðeins. Hann gat og hafa legið á bakinu og sungið bassann. Nokkuð var það að bassinn var svo lágur að þvílíkast var sem hann kæmi upp úr jörðinni.

Þegar um "söngkrafta" er að ræða veður ekki gengið fram hjá manni, sem Sigurður hét. Nefni eg hann á nafn, því hann var svo nafnkendur maður fyrir söng sinn, að allir, sem heyrðu hann, hlutu að segja í hjarta sínu: Sigurðar Óp-eru-söngur! Mikil hljóð hafði hann og fögur, ekki vantaði það. Lét hann mjög að sér kveða í kirkjunni við guðsþjónustur.

En af því eg sótti ekki kirkju fór eg á mis við það. Varð hann þess var, heimsótti mig og bauð mér að syngja fyrir mig í heimahúsum. Þakkaði eg Sigurði fyrir nærgætnina, en sleit ekki tali við Jóhann Briem, sem hjá mér var gestkomandi. Sigurður stendur upp og segir: "Nú verðið þið að þegja ef eg á að segja eitthvað" og byrjaði hann lagið "Heiðstirnd bláa hvelfing nætur", hér um bil þremur nótum of hátt.

Þegar kom að efstu nótunum í laginu reyndi Sigurður að taka þær, úr því út í það var komið, þó hann vissi að það var mannlegum mætti um megn og nóturnar hlytu að rifna og verða margraddaðar. En hér varð að duga eða drepast, enda fanst mér húsið þenjast út á alla kanta og gluggarúðurnar tútna út. Jóhann Briem "took to his heels" og flúði í

ofboði framhjá heimilinu sínu. En þess ber að gæta að Jóhann hafði lítt eyra fyrir söng og sagði að alt væri sama, harmonika, horn og hárgreiða.

Eftir þetta consert skrifaði Sigurður mér bréf og bað mig að rita um sig grein í viðurkenningarskyni og birta hana í Heimskringlu. Eg benti honum á, að þar væri maður söngvinn í ritstjórasessi, skyldi hann fara þar inn og syngja "Heiðstirnd bláa", hvað sem ritstjórinn segði; og ef hann kæmist upp með það, mundi ritstjórinn fara að hlusta og sennilega skrifa um hann ritstjórnargrein. Um það leyti sagði ritstjórinn stöðu sinni lausri og hvarf mjög skyndilega til Íslands.

Okkar einkennilegustu og eftirtektarverðustu söngkonu sá eg á dögum séra Bjarna Thorarensens fara með "Soda biscuit box" upp á söngpallinn í Tjaldbúðarkirkju í Winnipeg, um hámessu og syngja með söngflokknum og éta soda biscuit með.

Rétt er að geta þess, að sjálfur var eg einu sinni beðinn að koma fram opinberlega og syngja einsöng, og gerði eg það fyrir fullu húsi, en hef aldrei verið beðinn um það síðan.

Í Winnipeg var maður sem Jóhannes hét, eg veit ekki hvers son hann var og eg ímynda mér að fáir viti það. Hann bjó í Heilagsanda terracinu á Kate. Eg nefni hann af því að hann var líklegur til frægðar og frama, lék vel á píanó en ekki nema eitt lag: Paderewskys Menuet, aldrei annað. Hann hefir gert sér grein fyrir því að lífið er stutt og ekki tími til að æfa nema eitt lag til að gera því sæmileg skil.

Frú Láru Bjarnason gætti mjög í sönglífi Íslendinga í Nýja-Íslandi á landnámsárunum og síðar í Winnipeg. Hún var góð söngkona og lék vel á guitar. Hún er ef til vill fyrsta íslenska kona í Canada, sem eignaðist piano og lærði að leika á það. Sé það rangt hjá mér skal hafa annað sem réttara þykir. Mun Gunnsteinn Eyjólfsson, afburða sönglistarmaður og tónskáld hafa fengið sína fyrstu tilsögn hjá henni.

Gunnsteinn var maður sem ekki lét mikið yfir sér, en gerðist strax á unga aldri víðkunnur fyrir hæfileika sína. Sagði Sigurður tónskáld Helgason mér, er eg hitti hann í Blaine, að hann tæki Gunnstein sem tónskáld langt fram yfir alla Íslendinga sem við tónsmíði hefðu fengist í Vesturheimi. Fékk Gunnsteinn fyrstu verðlaun sem Íslendingadagsnefndin veitti fyrir besta lagið í samkepninni um árið, en Hjörtur Lárusson önnur. Þeir sem um dæmdu voru Gísli Jónsson og prófessor Steingrímur Hall.

Samtíða Gunnsteini voru margir merkismenn á tónlistarsviðinu þ. á m. Haraldur Sigurgeirsson sem hefir ef til vill tekið öllum fram að leika á stofuorgel. Eg skil ekki enn í dag, hvernig hann gat gert svo ómerkilegt hljóðfæri dýrlegt. Fékst hann og við tónsmíði, kom eitt lag út eftir hann sérpentað og hét það: Frelsissöngur.

Sönglist á Gimli annaðist um tíma frú Kr. Paulson og var mælt, að henni færist það vel. Þar var og Sigurður Thorarensen ágætur gáfumaður, söngelskur og hafði á hendi söngstjórn.

Stefán E. Davíðson, sem lengi hefir átt heima í Selkirk, lagði mikla stund á sönglist, lék vel á cornet, lék

í mörgum lúðraflokkum: 90th Band í Winnipeg, Jubilee Band og Selkirk Band, og stjórnaði því síðastnefnda um tíma, hafði næman fegurðarsmekk og fékst við tónsmíði. Tvö yndisleg sönglög veit eg til að hann hefir samið, annað við kvæði eftir Harald Sigurgeirsson: "Hér sefur þú", hitt við kvæðið "Þekkirðu land hvar gul sítrónan grær". Óbætanlegt tjón væri það ef slík sönglög skyldu tapast. Hví safnar ekki Þjóðræknisfélagið slíkum dýrmætum áður en það er of seint?

Halldór Oddson var talinn bjartasta íslenska söngljósið í Winnipeg á sinni tíð. Hann var píanisti og hörpuslagari. Eignaðist fyrstur allra Vestur-Íslendinga ítalska hörpu, stjórnaði íslenskum hljóðfæraflokk í Winnipeg. Var það orkestur, myndað snemma á árinu 1893. Fyrir góðvild Halldórs Swan, sem gefið hefir mér upplýsingar, get eg sett hér nöfn flokksmanna: Fyrsta fíólín: Guðmundur Anderson, Albert Oliver og Gísli Goodman. Annað fíólín (second): Jón Blöndal og Stefán Anderson. Fyrsta cornet: H. Sigurður Helgason, tónskáld. Annað cornet: Valdimar Magnússon. Clarinet: Friðrik Friðriksson. Orgel og píanó: Halldór Oddson. Mun Halldór hafa átt þátt í því að árið eftir, var myndaður sænsk-íslenskur lúðraflokkur.

Halldórs naut ekki lengi við; hann dó á besta aldri öllum harmdauði, sem höfðu þekt hann og heyrt. Einar Hjörleifsson og Wilhelm Paulson ortu eftir hann, og birtust þau kvæði bæði í sama Lögbergs blaðinu. Í kvæði Wilhelms er þetta:

Lék hann kátt á lífsins streng
Létt og dátt sem hörpustreng,
Nú er þögnuð harpan hans,
Harpan þessa glaða manns.

En í Einars kvæði er þetta erindi:

Við kváðum æ með þér vorn kátínu brag,
Er kveinstöfum burt frá oss svifti.
Nú syngur vor æska þér sorgarlag
Í síðasta og fyrsta skifti.

Á þeim árum voru helstu söngmenn hér í Winnipeg og afburða raddmenn þeir kandidat Einar Sæmundsson, Dr. Níels Lambertsen og Jón Gíslason. Voru þeir mjög í afhaldi hjá fólki, svo oft og vel höfðu þeir skemt því með söng sínum. Allir voru þeir ölkærir og heimsóttu hótelin oft. Sagði Jón Gíslason að oft hefðu þeir þrír sungið saman í veitingastofunni við góða áheyrn og þeim orðið gott til drykkja í söngvalaun; og að sumbli loknu hefðu þeir þrír marserað norður Aðalstræti syngjandi "Marselías".

Ástæða væri að skrifa langt mál um Lambertsen læknir, einn hinn ágætasta læknir sem til Winnipeg hafði komið og ef til vill mesta mannúðarmann í þeirri stöðu að undanskildum Dr. Sig. Júl. Jóhannessyni.

Guðmundur Anderson, hið mesta glæsimenni og gáfumaður var talinn fiðlari með ágætum, bæði fyrir sunnan línuna og hér. Sagði Gunnsteinn Eyjólfsson, sem var engin loftunga, að alt yrði fallegt í höndum hans. Guðmundur ferðaðist um íslensku bygðirnar með íþróttamanninum og línuleikaranum Jóni Guðlaugssyni, og gat sér þann orðstír að vera besti íslenski fiðluleikari í Ameríku. Trúi eg því að svo hafi verið á þeirri tíð.

Lék hann aðstoðaður af systkinum sínum, Stefáni og Mrs. Murell, oft á samkomum í Winnipeg.

Helsti kirkjusöngstjóri og organisti meðal Íslendinga á þeim árum var Gísli Goodman. Hafði hann um skeið verið að námi suður í Bandaríkjum að fullkomna sig í orgelspili. Hann tók við söngstjórn í Fyrstu lútersku kirkjunni af frú Láru Bjarnason.

Um sama leyti annaðist um sönginn í Tjaldbúðarkirkju Karl Anderson og síðar Jón Jónasson, Helgasonar organista og söngskálds í Reykjavík.

Þá um það leyti voru helstu söngkonur íslenskar í Winnipeg, Anna Johnson, sem mjög hafði aflað sér mentunar í list sinni, Kristrún Stephensson og Rakel Kröger.

Jón Friðfinnsson, sem síðar varð þjóðfrægt tónskáld var um langt skeið organisti í kirkjum Íslendinga í Argyle og hafði söngstjórn með höndum þar og víða annarsstaðar. Hátíða kontötu hans var af helstu söngkröftum í Winnipeg hleypt af stokkunum honum til verðugs sóma. En það var helsti seint, að hann fékk þá viðurkenningu. "Þakklæti sem kemur of seint kemur aldrei."

H. Sigurður Helgason, frægt tónskáld, stjórnaði söngflokkum og hljóðfæraflokkum í Alberta og víðar. Blandaður kór undir stjórn hans sem eg heyrði í Bellingham er sá besti og áhrifamesti, sem eg hef heyrt meðal Íslendinga hér í álfu.

Síðan fyrir síðustu aldamót hafa alt af nýir og nýir söngvarar og söngkonur brunað fram eins og bjartar stjörnur á himni Vestur-Íslendinga. Verður aðeins fárra þeirra getið hér og helst þeirra sem "snerta Winnipeg og grendina". Eru þeir fáu sem fylgir: Tómas H. Johnson, sem var góður tenór; séra Jón Klemens; Davíð Jónasson, einnig söngstjóri og þjálfaði söngflokka; Halldór Þórólfsson, líka trombónisti eða básúnu þeytari, lék í lúðraflokkum og var oddviti í söngsveitum; Páll Bardal, um langt skeið söngleiðari í Fyrstu lútersku kirkjunni í Winnipeg; Alex Johnson; Pétur Magnús, einnig söngkennari og söngstjóri; Björn Metusalemsson, ágætur barítón; Gísli Jónsson, einnig organisti, stjórnaði söngflokk um skeið í kirkju íslenskra unitara í Winnipeg, tónskáld, þótt hann látið hafi það lítt uppi við almenning.

Menn, sem vit höfðu á, luku lofsorði á alla þessa söngvara, hvern á sínum tíma. Gísli Jónsson var öllum hinum ólíkur, sérstæður, söng í Norðurlanda fegurðarstíl. Hann kom hingað til lands með tuttugustu öldinni og við hefði átt að ávarpa hann sem öldina sjálfa: "Kom þú sem bragur með lyftandi lag."

Söngkonur, sem gerðu garðinn frægan, hver á sínum tíma: Sigríður Hördal, nú frú Hall, sem var hin fyrsta afburða söngkona Vestur-Íslendinga; frú Sigríður Olson, sem Dr. Ólafur Björnsson sagði að minti sig á Prímadonnu í Vienna; frú Engilráð Dalmann, hálærð coloratura og sú eina þeirrar söngtegundar; Lúlú Þorláksson, nú frú Alex Johnson, — söng í Tjaldbúðarkirkju á dögum séra Friðriks og hafði meiri áhrif á áheyrendur en sjálft guðsorðið.

Eg ætlaði mér að hafa þetta erindi bundið við liðna tímann og geta aðeins þeirra sem þá voru áberandi, en

af því eg er "ladies man" (hvernig sem það verður nú þýtt á íslensku), get eg ekki stilt mig um að nefna nokkrar nútíma söngkonur í menningarmiðstöð Vestur-Íslendinga — Winnipeg: frú Th. Thorvaldson, ungfrú L. Davidson, frú Connie Jóhannesson, frú Simmons, frú G. Finnbogason, frú Alma Gíslason, frú Lincoln Johnson, ungfrú Margrét Helgason, og síðast en ekki síst Rósu Hermannsson, nú Mrs. Vernon í Torontoborg. Konur þessar allar hafa sungið sig inn í hjarta mitt og eiga ekki útkvæmt.

Þá er að nefna nokkra þeirra sem hófu göngu sína með öldinni á braut til frægðar og frama.

Prófessor Steingrímur Hall, merkilegt tónskáld, píanisti, pípuorganist, clarinetisti og stjórnandi söngflokka og lúðraflokka beggja megin landamæranna, píanókennari og margra annara hljóðfæra.

Jónas Pálsson, gott tónskáld, var til söngfræðináms í Þýzkalandi og víðar í Evrópu, afburða píanókennari, hafði söngstjórn á hendi í Winnipeg og víðar. Má segja að hann liggi þvers um yfir samtíðina með hausinn í fortíðinni og fæturna í framtíðinni.

Sigríður Fredrikson, píanisti, var tvímælalaust ein af mestu tónsnillingum ísl., sem hér hafa komið fram. Hún dó á æskuskeiði. "Þeir sem guðirnir elska deyja ungir." Má vera að eitthvað sé hæft í því. En áhrif frá einum snillingi geta breytt viðhorfi manns, orðum og athöfnum og haldið áfram að verka óendanlega.

Og hér verða nokkrir taldir sem síðar koma til sögunnar: Einar Páll Jónsson, tónskáld og frægt ljóðskáld, annaðist lengi um kirkjusöng íslenskra Unitara í Winnipeg, þótti það á þeim árum sérstaklega merkilegt um ritstjóra Lútersk Liberal blaðs. Er því talið að hann hafi fyrstur manna komið Lúterum í samband við umheiminn, — lagt sæsíma milli Lútera og Unitara.

Þórarinn Jónsson, bróðir þeirra skáldanna Gísla og Einars var í annan tíma allllengi organisti og söngstjóri í Unitara kirkjunni. Hann var mikilvirkt tónskáld. Hafði próf. Sv. Sveinbjörnsson miklar mætur á honum og raddsetti fyrstu lögin hans. Síðar lagði Þórarinn fyrir sig tónfræði og raddsetti lög sín sjálfur.

Tónskáld, sem engar sögur hafa farið af, var Lárus Melsted, bróðir Sigurðar Melsteds, hljómlistamanns í Winnipeg. Eftir hann kann eg eitt lag og er það perla. Skal eg hafa það uppskrifað, þegar að því kemur að Þjóðræknisfélagið safnar til útgáfu lögum eftir vestur-íslensk tónskáld.

Þorsteinn Johnson var í mörg ár áberandi fiðlari í Winnipeg og kendi fiðluspil. Áður en hann lagði aðallega fyrir sig dansmúsik, stjórnaði hann um skeið álitlegu en litlu íslensku orkestri.

Lovísa Ottenson, uppalin í Winnipeg, gerðist þegar á unga aldri áberandi píanisti og pípuorganisti. Síðan hefir hún getið sér orðstír sem frumlegt og mikilhæft tónskáld.

Ólafur Hallsson á Eriksdale er talinn af þeim sem til þekkja efnilegt tónskáld. Eftir hann hafa lög verið sungin í Winnipeg og West Virginia.

Frú Björg Ísfeld, píanisti með ágætum auk þess pípuorganisti og söngstýra, hóf að kenna píanóspil

norður í Nýja-Íslandi, er hún var á bernsku skeiði og hefir haldið því áfram í Winnipeg. Hún hefir auk annars, unnið dætrum Nýja-Íslands álit fyrir kvenlega fegurð.

Thelma Guttormsson, talin píanisti í fremstu röð, ólst upp í Nýja-Íslandi, en hefir alllengi dvalið í Winnipeg, leikið þar í útvarpið við góðan orðstír og oftar en nokkur önnur íslensk kona. Hún er glæsileg og mikilhæf listakona og "á ekki langt að sækja það."

Frú Lovísa Gíslason hefir frá æsku leikið á píanó af glaðleiftrandi list. Hún hefir verið frumglæðir sönglífs og söngmenta í íslensku bygðinni við Morden, Man., um margra ára bil.

Frú Kristbjörg Sigurðson, píanisti, kendi píanóspil í Árborg og Riverton í mörg ár, og æfði barnakóra með ágætum árangri.

Sigurbjörn Sigurðson lék á cornet og knéfiðlu, stjórnaði söngflokkum og hljóðfæraflokkum í Nýja-Íslandi og söngflokki Fyrstu lútersku kirkjunnar í Winnipeg, núverandi söngstjóri íslenska karlakórsins. Hann er tónskáld og hefir lagt fyrir sig tónafræði.

Gunnar Erlendsson er píanisti af guðs náð, hefir kent píanóleik í Winnipeg um mörg ár. Hann þykir sérstaklega góður að aðstoða listamenn og gera þá áheyrilega eða "tolerable".

Vigfús J. Guttormsson, aðallega organisti, en tók um tíma píanólexíur hjá Jónasi Pálssyni og var einn þeirra nemenda sem Jónas rak ekki af höndum sér. En Jónas vildi ekki eyða tíma í að kenna neinum sem ekki hafði afburða hæfileika. Vigfús lærði og að þeyta bassahorn og lék í lúðraflokkum. Hann var um langt skeið söngstjóri karlakórsins á Lundar, Man.

Ólafur Þorsteinsson, fiðlari og klarinetisti, hefir kent fiðluspil og píanóspil í suðurbygðum Nýja-Íslands og getið sér hinn besta orðstír. Hann er talinn besti fiðlusmiður í Canada. En eins og kunnugt er, eru flest önnur fíólín "factory made" eins og flestir sem á þau leika.

Þau systkinin Jóhannes og Lilja Pálsson, hann fiðlari, en hún píanisti, hafa með kenslu sinni á þessi hljóðfæri útbreitt listarinnar ljós um alt Norður-Nýja-Ísland. Þegar Lilja útskrifaðist í píanóspili var hún sæmd gullmedalíu og gefinn sá vitnisburður að hún væri bestur píanisti þeirra sem þá útskrifuðust í fylkinu.

Ragnar H. Ragnar, stjórnaði hinum fræga íslenska karlakór í Winnipeg og söngflokkum víða í bygðum Íslendinga. Hann er píanisti sem brillíerar á Moonlight Sonata. Hann er og fyrirtaks píanókennari, auk þess kliðmikill ræðuskörungur á íslenska tungu og ágætur "Íslandsmann".

Þá er að minnast á manninn sem upp hefir gengið himnastigann tröppu af tröppu og er nú talinn eitt af höfuð tónskáldum Íslendinga: Björgvin Guðmundsson. Um langt skeið hélt hann saman söngflokkum í íslensku bygðunum í Saskatchewan. Hann hafði afarlangt að sækja söngæfingar og fór það oftast fótgangandi að loknu erfiðu dagsverki. "Eg ætla ekki að hæla séra Oddi Gíslasyni, guð almáttugur gerir það." Eg ætla ekki að hæla Björgvin, það gera þeir sem mér eru æðri.

Alt sem Björgvin um er vitað
Á fyrir sér að verða ritað.

Auðvitað er fjöldi hljómlistamanna í öðrum bygðum Íslendinga en þeim sem þegar eru nefndar og að sjálfsögðu margir stórsigrar og stórviðburðir á þeim vettvangi. En í Winnipegborg einni er að minnast þessara stóratburða:

Séra Hans B. Þorgrímsson, víðkunnur söngvari og söngstjóri, sameinar alla kirkju söngflokka hins Evangeliska lúterska kirkjufélags Íslendinga í Vesturheimi og hefir allsherjar samsöng í Grace Church. Hátíðar kantata Jóns tónskálds Friðfinnssonar sungin, sem áður segir.

Hátíðar kantata Björgvins Guðmundssonar sungin, undir stjórn tónskáldsins sjálfs, af bestu söngkröftum íslenskum í Winnipeg og Sigurði Skagfield.

Afburða snillingurinn Agnes Sigurðson leikur á píanó í Civic Auditorium, fyrir fullum sal hrifinna áheyrenda.

Þá er þar til að taka sem fyrr var fráhorfið.

Á landnámstíð átti heima á Skriðulandi við Íslendinga fljót drenghnokki sem Pétur Jóhannesson hét. Smalaði hann stjórnarláns kúnum ásamt Barða Skúlasyni, sem þá átti heima á Bjarkarvöllum og var á líku reki. Pétur fluttist með foreldrum sínum til Dakota og gerðist fyrsti hornleikari meðal Vestur-Íslendinga, sem sögur fara af. Hann myndaði hornleikaraflokkinn á Mountain og mun það vera fyrsti lúðraflokkur íslenskur í þessari álfu. Flokkurinn var nefndur The Mountain Silver Cornet Band. Tók Halldór Halldórson við yfirstjórn flokksins af Pétri. Flokkurinn er frægur m. a. fyrir það að hafa leikið í samsæti sem séra Matthíasi Jochumssyni var haldið á Mountain.

Um og eftir aldamótin mynduðust hornleikaraflokkar all víða í bygðum Íslendinga. Einn á Garðar undir stjórn próf. Steingríms Hall. Var sá flokkur öðrum fremur vel búinn að hljóðfærum, hafði píkólur, flautur og klarinet auk lúðranna. Annar lúðraflokkur myndaðist við Íslendingafljót — fyrir atbeina Snorra Kristjánssonar, hins ágæta söngmanns er síðar fluttist til San Diego.

Hornleikaraflokk á Gimli mynduðu þeir Albert Kristjánson, sem síðar varð prestur, og bræður hans með aðstoð C. B. Júlíusar.

Þá var og myndaður hornleikaraflokkur í íslensku bygðinni við Shoal Lake, Otto P.O., Man.

Ennfremur í íslensku bygðinni við Borden, Man. Varð sá flokkur mjög vel líkaður og forframaður, fenginn til að leika í sjálfum bænum Morden við mörg hátíðleg tækifæri. Sá sem stjórnaði flokknum hét Páll Tómasson, nú bóndi í Saskatchewan.

Í fyrsta skifti sem eg kom til Winnipeg — það var þegar eg ætlaði að fara að læra til prests — þá á seytjánda árinu — var eg staddur niðri á Aðalstræti hér í Winnipeg og sá í fyrsta skifti hornleikaraflokk. Eg hafði hugsað mér "Band" sem heljarsveran kaðal, strokinn af einhverjum hrika-hrosshárs grana. Eg varð annars vís. Flokkurinn hét Evans Concert Band. Í honum voru þrír Íslendingar, hver öðrum glæsilegri og báru af öllum hinum: Hjörtur Lárusson, Fred Stephenson og Sigurður Melsted.

Þessir þrír voru allir snillingar, Hjörtur á Cornet, Sigurður Melsted

á Euphonium og Fred Stephenson á Clarinet. Þessir menn hlutu að marka djúp spor á listabrautinni.

Júbilee árið myndaðist í Winnipeg íslenskur hornleikaraflokkur undir stjórn Hjartar Lárussonar. Hafði þessi flokkur auk annars árleg "concerts", hið fyrsta í gömlu Wesley kirkjunni, en hin síðari í íslensku lútersku kirkjunni á Nena stræti. Tók Hjörtur upp það nýmæli að raddsetja Norðurlanda lög og íslensk og gera úr þeim langa söngkeðju. Var þetta til útafbreytni á einu "concertinu" og hreif mjög áheyrendur. Þótti flokkurinn leika afburða vel og var það víða rómað.

Mr. Johnson, Kneller Hall graduate, foringi 90th flokksins, hið mesta "authority" sem þá var í Winnipeg, var viðstaddur. Að lokinni skemtiskránni, kom hann ofan af lofti í kirkjunni og heyrðist segja: "This was good", og kallaði Johnson ekki alt ömmu sína. Daginn eftir kom mikið lof um hljómleikinn og hljómsveitarstjórann. Dáðist blaðið sérstaklega að Fred Dalman, sem var 1st Cornetisti í flokknum, svolítill drengstúfur á knébuxum. Sagði blaðið að Fred væri enn of ungur til að vita leyndarmál síðra buxna. Gerðist Fred mikill hljóðfæraslagari, lék jöfnum höndum á lúður, píanó, piccolo, flautu, clarinet og síðast en ekki síst með ágætum á knéfiðlu, svo mikill meistari á það hljóðfæri að hann varð alls staðar hlutgengur.

Það segir í fornsögunum að þessi og þessi hetjan hefði gengið suður til Miklagarðs. Það var nú meiri gangurinn. Hjörtur Lárusson gekk suður í Bandaríkin eftir endalausri listabraut, sömuleiðis Fred Dalman, síðar Páll Dalman. Hygg eg að þessir þrír hafi komist lengst sem lúðurþeytarar af öllum Íslendingum beggja megin hafsins. Er Hjörtur frægastur þeirra fyrir tónsmíðar.

Snemma á öldinni myndaðist undir stjórn próf. Steingríms Hall, alíslenskur lúðraflokkur, The West Winnipeg Band. Einn af þeim sem eftirlifandi er úr þeim flokki er Halldór Swan. Hann hefir nú getið sér orðstír sem tónskáld. Hann hefir mjög við sönglist fengist. Alls staðar verið hlutgengur á sviði söngflokka og hljómsveita. Hann heldur enn trygð við cornetið og er það ekki að undra.

Cornet er eitt merkilegasta hljóðfæri í víðri veröld; með trumpetti blésu menn niður borgarveggi á gamla testamentisins dögum; og með trumpeti verðum við kallaðir til dómsins af séra Gabríel. Cornet eða Trumpet er eitt hið vandasamasta hljóðfæri sem til er í heimi. Engir nema afburða hæfileikamenn geta lært að leika á það. Eg hef séð hálærðan tónlistamann kúgast og sveitast í klukkutíma að bera sig að ná úr því hljóði og gefa það upp í algerðu vonleysi.

Þetta merkilega hljóðfæri er maðurinn sjálfur sem leikur á það. Það er undir manninum komið hvernig hljóðið er. Ef þú ert vitlaus þá fær þú vitlaust hljóð. Öðru máli að gegna um stofuorgelið, styddu á nótu og þar er hljóðið "ready made" fyrir þig, soðið niður í könnu eins og sjálfdauðir kálfar hjá canadiskum sláturhúsum.

Nú eru allir þessir áminstu ísl. hornleikaraflokkar útdauðir fyrir

löngu. Er það enginn menningarvottur vor á meðal.

Við getum hugsað okkur þá fyrirhöfn og kostnað sem þurfti til að mynda alla þessa hornleikaraflokka á meðal Íslendinga. Það þurfti að draga botnvörpu eftir mannfélagsbotninum til að fiska upp nógu marga menn í lítinn lúðraflokk — menn sem gátu lært. Horn liggur Íslendingum afar fjarri. Það er líklega af því að þeir eru fæddir kollóttir.

Vanalega hafa þeir höndina heila dagleið fyrir ofan takkana, og þegar þeir eru búnir að ferðast með höndina niður að tökkunum er tíminn liðinn sem nótunni var ætlað að vara, svo hún kemur á eftir tímanum eins og höggið hjá Júlla.

Á flest önnur hljóðfæri hefir landinn getað lært og jafnvel orðið afburða snillingur. En réttu að honum horn og hann grípur um munnstykkið og hornið losnar frá því og gloprast í gólfið og verður beglt og skeglt eins og andlitið á honum sjálfum þegar hann svo fer að reyna að blása í það og ná úr því hljóði.

Að endingu vil eg geta þess að margir þeirra sönglista manna sem eg hef nafngreint í þessari grein "eiga börn út um allan heim", sem leggja stund á hljómlist og eru í mörgum tilfellum og af eðlilegum orsökum feðrum sínum fremri. En það er efni í aðra grein.

---

# Þú gleymir ekki

Eftir Vigfús J. Guttormsson

---

Þú gleymir ekki að Frón er okkar feðra og mæðra jörð
og friðsælasta land á þessum hnetti;
þar blessast gáfuð framtaks þjóð, með fögrum kostum gjörð,
og frægan orðstír ber með öllum rétti.

Þú flytur burt úr Vesturheimi, gæt þess góði minn,
og gott er það og nauðsynlegt að muna:
Í himnaríki ef þú vilt þér verði holað inn,
þá verður þú að kunna íslenskuna.

# Leiksýningar Vestur-Íslendinga

Eftir Árna Sigurðsson



1

Á nýárinu 1883 var fyrsti íslenskur sjónleikur sýndur í Nýja - Íslandi, af bygðarbúum við Íslendingafljót (Riverton). Það var hvorki hátt til lofts né vítt til veggja á fyrstu leiksviðum Vestur-Íslendinga.

En leikment Íslendinga á Fróni, alt frá "herranóttu" skólapilta í Skálholti til þessa dags, er arfgengt í eðli Vestur-Íslendinga, sem síðar verður vikið að.

Þessi fyrsta tilraun Fljótsbúa, fór fram í húsi Eiríks Eymundssonar að Odda, "sem þótti rúmlegast af þeim húsum, sem þá voru bygð, að stærð 18 X 24 fet."

Leikritið sem sýnt var, var *Nýársnóttin* og leikstjóri var Gunnsteinn Eyjólfsson.



3

Næsta ár var *Jeppe á Fjalli* leikinn í sama húsi undir stjórn Gunnsteins, sem sjálfur lék Jeppe. Það er vafasamt, að nokkurstaðar í víðri veröld, hafi leiksýningar haft jafn þéttskipaðann áhorfendahóp, því bókstaflega sat hver undir öðrum, og oftast stóðu þeir, sem ekkert sæti fundu, og voru þeir skaraðir saman eins og síld í dós.

Árið 1885 var bygt stórt hús, sem kallað var "Safnaðarhúsið", var það ætlað til messugerða og annara andlegra nauðsynja, og efndi þá forseti





4



5



6

Lúterska safnaðarins, Jóhann Briem, til leiksýninga í húsinu og sýndi *Útilegumennina* (Skugga-Svein) og lék sjálfur með. Mjög var þessum leik vel tekið og beið fólk með eftir vænting og fögnuði, að leikurinn yrði endurtekinn. En svo sterk varð einstakra manna andúð gegn því að leikið væri í "Safnaðarhúsinu", að Jóhann fékk lánað hús Jónasar Jónssonar til að sýna leikinn næsta ár. Það hús stendur enn. Þegar skólahúsið var bygt 1891, var leikurinn sýndur aftur í því húsi.

Eins og nærri má geta, var sviðsetning og útbúnaður á þessum fyrstu leikjum, af mjög skornum skamti, en meðferð hlutverkanna var aðal atriðið, sem krufið var til mergjar; í þeim lifði fólk og lék sér lengi eftir í minningum þessara skemtilegu kvöldstunda á frumbýlisárunum.

Á næstu árum voru sýndir nokkrir smáleikir.

1909 var aðllega byrjað að sýna íslenska leiki í Riverton og mun Gísli Einarsson hafa átt mikinn þátt í þeim sýningum, því hann hefir mikinn áhuga fyrir því menningar atriði, og mun hans síðar verða minst í sambandi við framtíðar uppástungu á þessu sviði. Meðal leikrita sem sýnd hafa verið í Riverton voru: *Sigríður Eyjafjarðar sól, Esmeralda, Jón* eftir frú Hólmfríði Sharpe, *Andbýlingarnir, Ebenesar og Annríkið, Hadda Padda, Tengdamamma Tengda Pabbi, Villidýrið, Ævintýri á göngu-för, Piltur og stúlka, Önnum kafni maðurinn,* þýðing eftir Grím Laxdal í Árborg. Auk þess fjöldi einþættinga.



7

Margir þessara leikja voru endurteknir, og sumir sýndir oft í senn, svo sem *Ævintýrið* og *Piltur og stúlka*, sem var leikið ellefu sinnum við mikla aðsókn. Inntekir fyrir þessa leiki gengu til ýmsra félaga í sveitinni.

Á Hnausum var einnig talsvert um leiksýningar á fyrri árum, en þar voru erfiðleikarnir miklir sökum fólksfæðar. Samt sem áður var tilhneiging í þá átt svo sterk meðal bygðar-búa, að þeir létu ekki fámennan áhorfendahóp draga úr áhuganum. Meðal leikja sem mætti nefna var *Hrólfur*, sýndur 1887 í Breiðuvík. Og á næstu árum, *Sigríði Eyjafjarðar-sól*, *Narfa*, og nokkra fleiri ásamt *Hilmar Foss* eftir Kristján Albertson.

Um sama leyti var byrjað að sýna íslenska leiki í Mikley, og þar var til margra ára haldið við leiksýningum, og munu þær hafa verið háðar svipuðum skilyrðum og annarstaðar, að inntektir runnu til ýmsra sveitafélaga, svo sem lestrarfélaga, kvenfélaga og safnaðarmála, og hafa íslenskar leiksýningar vestan hafs verið drjúgur inntektaliður margra félagsmála, sem notið hafa þeirra almennu vinsælda.

Það var að miklu leyti sameiginlegt með öllum bygðarlögum í Nýja-Íslandi á fyrri árum, meðan vegleysur hömluðu samgöngum og farartæki fá, að þeir sem tóku þátt í sjóleikjum, sóttu æfingar langt að, sumir margar mílur gangandi og það stundum eftir að hafa staðið allan daginn, við skógarhögg eða vegavinnu eða akuryrkju, og varð þá hvíldartíminn, stundum, næsta stuttur.

Það er þess vert að geta, sem einn af þessum áhugasömu sjálfboðaliðum íslenskra leiksýninga vestan hafs, sagði, þegar kunningi hans bauð honum þrefalda borgun fyrir verk, sem honum lá á að gert yrði það kvöldið, þá segir hann: "Eg hefði glaður tekið þessu rausnar boði, en eg hef aðeins tíma til að skreppa heim og skola af mér skítinn, því í kvöld er eg Lénharður fógeti".

Geysir var um langt skeið miðstöð leiksýninga í norður Nýja-Íslandi,



8

enda var bygðin svo heppin að hafa á að skipa mjög góðum mönnum til leiðbeiningar, svo sem J. Magnús Bjarnason kennara, J. P. Pálsson læknir og Tímóteus Böðvarsson.

Árið 1896 mun fyrsta leiksýning hafa farið fram, með *Hinrik bakara* eftir J. Magn. Bjarnason. Hann var þá kennari í Geysir. Hann samdi og æfði leiki á hverju ári meðan hann var þar, eða til 1903.

Það á við að birta hér nöfn á þeim leikritum sem kunnugt er að Magnús samdi, þar sem þau eru ekki til á prenti, því ekki orti Magnús í gróða skyni.

Þau eru þessi, — ártöl flestra ekki kunn: *Laugardagskvöld* 1882, *Skipbrotsmaðurinn* 1887, *Vinirnir*, *Oft fer sá vilt er geta skal* 1903, *Márarnir* 1903, *Granada Union*, *Fóstbræðurnir*, *Bragð á móti bragði*, *Greifinn*, *Bláa tunnan*, *Hinrik bakari*, *Hertoginn í Feneyjum* 1906, *MacIntosh Mak*, *Ala-*



9

*din Lampinn, Abraham vert, Gæfubaunin, Nirfillinn.*

Flest öll af þessum leikritum eru nú glötuð, því þau gengu að láni um bygðir Íslendinga í mörg ár, sum af þeim voru sýnd í Geysir. Dr. Pálsson sem þá gekk í skóla hjá Magnúsi, getur þess í Tímariti Þjóðræknisfél. 1945, að, "aðeins einu sinni tók Magnús sjálfur þátt í leik, sem hann nefndi *Nirfillinn* og lék hann aðal hlutverkið. Eg held hann hafi gert það til að sýna okkur hvernig leikari á að fara með hlutverk sitt. — — Okkur varð minnistætt hvernig góði og gjafmildi kennarinn okkar, skifti um ham og varð að hjartalausum níðingi. . . . og þegar skilningsleysi okkar og afkáraháttur gekk fram úr hófi á æfingum, steig hann fram á leiksviðið og tók á sig gervi þessarar eða hinnar persónunnar sem fákænska okkar var að murka úr líftóruna."

Þetta sýnir fjölhæfni hans á því sviði. Svo var áhugi bygðarbúa vakinn fyrir sýningu íslenskra leikja, að eftir að Magnús fór frá Geysir, var það talið sjálfsagt að skólakennari bygðarinnar héldi áfram að æfa leiki, en þá var enskur kennari tekinn við Geysir skóla, J. T. M. Anderson (síðar forsætisráðherra í Saskatchewan) og æfði hann og sýndi á íslensku leikinn *Márarnir* eftir J. M. Bjarnason.



10

1909 sömdu þeir Dr. Pálsson og Baldur Jónsson leik sem þeir nefndu *Rauði boli* og æfði Dr. Pálsson þann leik og fleiri leiki, jafnframt því sem hann lék sjálfur, þar á meðal *Stúdentarnir* eftir sömu höfunda.

1911 eða 12 tók við leiðsögn leiksýninga í bygðinni, Tímóteus Böðvarson. Hann er talinn mjög áhugasamur, lipur og smekkvís á því sviði. Meðal þeirra leikrita, sem sýnd hafa verið síðan eru þessi: *Sigríður Eyjafjarðarsól* eftir Ara Jónsson, *Jeppe á Fjalli,* þýðing eftir Jósef Guttormsson, *Vesturfararnir* eftir M. Joch., *Lénharður fógeti,* E. H. Kvaran, *Smaladrengurinn,* Freym. Gunnarson, *Stormar* eftir Stein Sigurðson, *Ebenesar og ævintýrið, Hertoginn af Feneyjum,* J. M. B., *Oft fer sá vilt er geta skal,* J. M. B., *Hermannaglettturnar,* þýðing, E. H. Kvaran, *Piltur og stúlka,* samið úr samnefndri sögu af séra E. J. Melan.

Meðal einþættinga: *Spegillinn* eftir Guttorm J. Guttormsson, *Óvænt heimsókn* eftir sama, *Þorparinn Pat* þýtt, *Biðlar Elísabetar frænku, Hættulegur leikur,* þýðing Árna Sigurssonar, og margir fleiri. Flestum þessum leikjum hefir Tímóteus stjórnað auk þess sem hann hefir sjálfur leikið í mörgum þeirra.

Í Víðir hafa verið sýndir allmargir leikir eftir 1907 svo sem hér segir: *Litli Rustinn, Umskiftingurinn, Ímyndunarveikin, Malara konan frá Marley, Apinn, Vordísirnar, Ebbenesar og annríkið, Prestskosningin, Vesturfararnir, Ari flækingur* eftir Ágúst Einarson, *Emigrantinn* eftir Valda Jóhannesson, *Misskilningurinn, Wilkins Wedding, Neiið, Sindarella.* Þess utan mesti sægur af einþættingum.



11

Um nokkurt skeið voru leikin smáleikrit, svo að segja reglulega á hverjum mánuði.

Flestir þessir fyrst töldu leikir voru sýndir að tilhlutun Lestrarfélagsins, (sem var fyrsti félagsskapur bygðarinnar) og þar næst kvenfélagsins.

Snemma á árum leiksýninga í Nýja Íslandi var farið að hafa máluð tjöld. Með þeim fyrstu sem getið er um að málað hafi tjöld fyrir ýmsa leiki, bæði í Víðir og annarstaðar, var Guðmundur Guðmundson úr Framnesbygðinni.

Um 1903 var fyrst sýndur íslenskur leikur í Framnes í svokölluðu "Félagshúsi" bygðanna Framnes og Árdals, það var leikritið *Vinirnir* eftir J. M. B. Leikstjóri var Jón Jónsson póstafgreiðslumaður í Framnes, einnig æfði hann *Márarnir* eftir J. M. B., og *Misskilninginn* eftir Kr. Jónsson. *Skugga-Sveinn* var þar einnig sýndur í fyrstu að tilhlutun kvenfélagsins í Árdalsbygð. Og lék Ingimar Ingjaldson (síðar þingm.) Skugga-Svein og Andrea systir Ingimars lék Ástu, en Ásgeir Fjeldsted lék Harald. Ásgeir hafði mikinn áhuga fyrir leiklist og þótti góður leikari og góður söngmaður. Hann æfði síðar *Ævintýri á gönguför* og lék þá Skrifta-Hans.

Meðal annara stærri leikja sem þar voru sýndir, var: *Varaskeifan, Sannsöglið,* þýðing Jóns Jónssonar, *Vesturfararnir, Anderson* þýðing Jóns Jónssonar.

Eftir að samkomuhúsið var bygt í Framnes 1913 voru þar sýndir margir íslenskir leikir, sá fyrsti útdráttur úr *Manni og konu* samið af Guðmundi bónda Magnússyni og æfður af honum. Auk þess voru margir leikir endurteknir, af þeim sem áður er getið .

Sá fyrsti sem fékst þar við tjaldamálningu var Magnús sonur Guðmundar og síðar Guðmundur Guðmundsson, sem áður er getið, þó mun það hafa komið fyrir síðar, að tjöld voru fengin að láni frá Winnipeg.

Búningar allir heimatilbúnir þegar þess þurfti með, og var þá farið eftir gömlum myndum í bókum og tímaritum, fyr á tímum alt handsaumað, því saumavélar voru fáar. Þess er hér getið til gamans en ekki óvirðingar að á einum stað voru karlmennirnir í *Sigríði Eyjafjarðarsól* í mórauðum pokum, skorið gat á botninn fyrir hálsmálið og hornin af fyrir handvegana og belti um sig miðja. Svona að framan að sjá litu þeir sæmilega út sem mórauðar vaðmálsmussur, en sneru þeir sér við mátti lesa verslunarnafnið stórum stöfum

á bakinu, og jók það ekki lítið á skemtunina.

Hárkollur karlmanna gerðu menn ýmist úr ull eða tánum kaðli. Skegg úr ull og brendur korkur fyrir dökkar andlitslínur. Kvenfólk var betur sett á þeim tíma, "það var eg hafði hárið", minnast margar eldri konur nú, sem þá tóku þátt í íslenskum leikjum með fléttur niður að mitti.

Þar sem úrval af íslenskum leikritum var mjög takmarkað á fyrstu árum vestan hafs — og er raunar enn — þá gengu þau sömu að láni sveit úr sveit, en hér, sem annarstaðar verður fylgt þeirri reglu í hverri bygð, að geta aðeins þeirra leikja er sýndir voru af heimafólki þess bygðarlags.

En auk þess var það, og er enn sú venja, eftir að samgöngur bötnuðu, að bygðirnar heimsóttu hver aðra með leiksýningar.

Meðal annara leikja sem Framnesbúar sýndu, var: *Esmeralda*, sett í leikrit af Dr. J. P. Pálsson og J. M. B., *Sigríður Eyjafjarðarsól*, *Bóndinn á Hrauni*, Jóhann Sigurjónsson, *Syndir annara*, E. H. Kvaran, *Jón* eftir Hólmfríði Sharpe, *Vinirnir*, J. M. B., *Skugga-Sveinn*, M. J., *Skipið sekkur*, Indr. Einarsson, *Bjargið*, Sv. Sigurðsson, *Dóttir fangans*, þýtt af Dr. Sig. Júl. Jóhannessyni, *Stígurinn yfir fjallið*, þýtt af frú Ingibjörgu Ólafson, *Brúðkaupskvöldið*, síðasti sjónleikur sýndur þar 1940.

Þegar J. Magnús Bjarnason var um tíma kennari í Árnes 1891 æfði hann íslenskan leik og lék sjálfur aðal hlutverkið. Og síðar 1901 æfði hann þar tvo leiki. Tobías Finnbogason og kona hans sáu um æfingar á *Sigr. Eyjarfjarðarsól*, *Ebenesar*, *Annríkið*, *Vesturfararnir*, og fleirum.

Árborg varð að mestu leyti miðstöð Árdalsbygðar, eftir að samkomuhúsið var bygt þar, hófust leiksýningar þar, sem nærliggjandi sveitir sóttu — og héldust við næstum árlega í 30 ár. Um 20 lengri leikrit hafa verið sýnd þar á íslensku, auk fjölda einþættinga og margra enskra leikja sýndir af Íslendingum.

Meðal leikrita sem Árborgar-fólk hefir sýnt, eru: *Skugga-Sveinn*, *Esmeralda*, *Dóttir Fangans*, *Ævintýri á gönguför*, *Tengdamanna*, *Grænir sokkar*, *Syndir annara*, *Ástir og miljónir*, *Ástaraugun*, *Hún gleymdi . . .*, *Á heimleið*, *Apinn*.



12

Á fyrstu árum voru þeir Ásgeir Fjeldsted og Pétur Magnússon helstu hvatamenn. Á meðan séra Ragnar Kvaran dvaldi í Árborg stjórnaði hann 2 eða 3 leikjum, en síðan hefir Mrs. Hólmfríður Danielson stjórnað því nær öllum leikjum sem þar hafa verið sýndir á íslensku og ensku, hún hefir einnig leikið þar í öllum leikjum síðan 1916. Fyrsti ísl. leikurinn sem hún tók þátt í, í byginni var *Bóndinn á Hrauni*, þá aðeins 10 ára gömul.

Mrs. Danielson er framúrskarandi

áhugasöm og listfeng, og hefir aflað sér talsverðrar þekkingar og tækni á dramatisku sviði, og haft unglingakenslu á hendi, á mörgum stöðum, í undirstöðu leiklistarinnar. 1937 skrifaði hún bækling til leiðbeiningar byrjanda á leiksviði, og var sá bæklingur notaður víða í Manitoba við unglingakenslu á því sviði.



13

Það hafa margir góðir leikkraftar komið fram í Árborg svo sem Ásgeir Fjeldsted, Magnús Sigurðsson, Mrs. Þorbjörg Jónasson og fleiri. — Rúm leyfir ekki að geta margra góðra leikhæfileika, sem væri þó vel við eigandi, af þeim hundruðum sem tekið hafa þátt í íslenskum sjónleikum frá fyrstu tíð, enda vandasamt að draga línu þar á milli, en það má óhætt fullyrða að Íslendingar hafa jafnast því besta sem hér hefir sést, af viðvanings leikflokkum annara þjóðflokka. Í því sambandi er vert að geta þess, að Árborgar leikflokkur undir stjórn Mrs. Danielson, vann Free Press silfurskjöldinn í Manitoba leiksamkepninni (Manitoba Drama Festival) 1932 og þar keptu margir bestu leikflokkar fylkisins. Leikritið sem Árborg sýndi, heitir *"Early Ohios and Rhode Island Reds"*. Þátttakendur voru Mrs. Hólmfríður Danielson, Sigmundur Jóhannson, Mrs. Þorbjörg Jónasson, Mrs. Magnea Sigurdson og Thór Fjeldsted, sonur Ásgeirs, sem fyr er getið.

Þetta er í eina skiftið, sem Íslendingar hafa tekið þátt í hérlendri leiksamkepni, en Árborg tók tvisvar þátt í íslenskri leiksamkepni í Winnipeg sem síðar verður getið.

Síðan Mrs. Danielson flutti til Winnipeg 1939, hefir hún stjórnað



14

jóla táknleikjum í Fyrstu lútersku kirkju, sem 50 unglingar og 45 radda kór tóku þátt í. Auk þess skrifaði hún söngleik á ensku sem hún nefndi *"Moonlight on the Mississippi"* og sýndi 1944 með íslensku leikfólki úr sömu kirkju.

Leiktjöld fyrir Árborg voru máluð, fyrst af Guðm. Guðmundssyni, Framnesi, Snæbirni Pálssyni, Gimli, og Gissur Elíasson, nú í Winnipeg. Síðan 1940 hafa engir leikir verið sýndir í Árborg.

Gimli búar sýndu marga leiki, sér-

staklega á fyrri árum, svo sem: *Skugga-Svein* og *Ævintýrið*, *Kapitólu* og *East Lynne*, sem Mr. og Mrs. Helgi Benson stjórnuðu. Annars var Mr. H. P. Tergesen aðal forvígismaður leiksýninga fyr meir á Gimli, auk þess sem hann lék sjálfur í þeim leikjum mörgum, sem annarstaðar er getið og hann sýndi á Gimli.


16

Snæbjörn Pálsson málaði leiktjöldin, og einnig fyrir Selkirk-búa, sem sýndu nokkra leiki, svo sem *Tengdapabba*, *Frænka Charleys* og fleiri. Þó hér sé ekki sérstaklega getið, hafa íslenskir leikir verið sýndir í hverri einustu bygð Nýja - Íslands af bygðabúum, og suma verið ferðast með til Dakota og Winnipeg.

Þó Grunnavatnsbygð sé fámenn þá samt sem áður hafa Íslendingar þar fengist talsvert við leiksýningar, og það skömmu eftir að bygðin hófst 1890. Fyrsti leikur sem þar var sýndur var *Sigríður Eyjafjarðarsól*, leikin í húsi Sveinbjarnar Sigurðssonar og Erikku Eiríksdóttur, sem var ein af leikendum ásamt Nikulás Snædal, Eirík Hallsson, föður Mrs. Steinunnar Kristjánsson, sem síðar kemur mikið við leiksýningar Íslendinga í Winnipeg, og Hjálmur Danielson, sem lék þá sitt fyrsta hlutverk, þá 14 ára, og síðan í öllum leikjum sem þar voru sýndir, þar til hann flutti til Árborgar, þar sem hann einnig tók þátt í mörgum leikjum.

Eftir að menningarfélagið "Verðandi" var stofnað 1902, beitti það sér fyrir sýningu ísl. leikja, sem mest var þó gert að eftir að Markland samkomuhúsið var bygt í félagi við lestrarfélagið "Mentahvöt" og stóð það hús þá 2 mílur austur frá norðurenda Grunnavatns (Shoal Lake). Varð þar miðstöð leiksýninga á sín-


15

um tíma, og sóttu þangað árlega fólk úr öllum áttum langt að, svo sem frá Lundar, 12 mílur og frá Oak Point, 18 mílur. Það sýnir meðal annars áhuga þeirra sem þátt tóku í þessum leikjum, — því ekki var þar síður erfiðleikum bundið en annars staðar að sækja æfingar — að Kristján Danielson sótti æfingar 9 mílur og hélt heimleiðis eftir miðnætti, oft í versta veðri og vegleysum.


17

En leikkvöldin var þá oft slegið upp í dans á eftir leiknum, þar til birta tók af degi.

Það er óþarfi að geta þeirra mörgu leikja sem þar voru sýndir, því þeir voru, að mestu leyti þeir sömu sem fyr er getið annarstaðar. Þeir sem oftast tóku þátt í þeim, voru auk þeirra sem áður er getið, Jensína Danielson (kona Gutt. J. Guttorms. skálds), Guðný S. Halldórson og Snæbjörn Halldórson, Kristján Danielson, Kjartan Halldórson, Pétur Bjarnarson og Thórhallur Halldórsson.

Síðar færðist leikstarfsemin til Lundar, því margt fólk flutti burt úr Grunnavatnsbygð til Oak Point og Lundar.

Leiktjöld fyrir útisvið voru engin á þessum árum, voru því fremur valin leikrit fyrir stofusvið.

Það verður vitanlega slept mörgum bygðum og bæjum Íslendinga, sem þó er kunnugt að sýnd hafa eitthvað af ísl. leikjum, vegna þess að ekki eru fyrir hendi, ábyggilegar upplýsingar. Því hvergi í annálum vestur íslenskrar þjóðrækni er þessa víðáttumikla og merkilega menningarstarfs getið í heild sinni, og verður því að tína saman úr minni manna og bókum óteljandi félaga sem notið hafa alls fjárhagshagnaðar af þessum leiksýningum.

Morden - bygðin, sem hefir að mörgu leyti verið einangruð á þessu sviði, því ekki hafa þeir orðið fyrir heimsókn annara leikflokka, hafa því orðið að vera sjálfum sér nógir, og hafa sýnt lofsverðan áhuga á því sviði og hafa ýmsar góðgerða stofnanir bygðarinnar notið góðs af.

Þar hafa verið sýnd um þrjátíu leikrit á íslensku, sum þýdd af bygðarbúum. Það er vert að geta nokkurra, svo sem: *Uppreisnin á Brekku,* úr sögu Gests Pálssonar; *Vonir,* kaflar úr *Mannamun, Arfurinn, Anton Muller, Ást og peningar,* þýtt af J. H. Húnfjörð; *Verndarengillinn,* þýtt af J. H. Húnfjörð; *Hermannaglettur, Gleðilegt sumar,* G. G.; *Maður og kona,* og *Piltur og stúlka,* og margir fleiri, auk fjölda af einþættingum, og enn heldur þessi starfsemi áfram í Morden-bygð, þó stríðið hafi orsakað hlé á því um tíma, sem víða annarstaðar.

1892 sýndu Argyle-búar *Sigr. Eyjafjarðarsól,* og síðar *Skugga-Svein* og *Ævintýrið,* leikið að Brú og Skjaldbreið og sem oft voru endurtekin ásamt mörgum fleiri ísl. leikjum.

Í Hólabygð var fyrst byrjað að leika 1894 með *Misskilninginn* eftir Kr. Jónsson og *Ari flækingur* eftir Ágúst Einarson, Glenboro.

Í Glenboro hafa margir leikir verið

sýndir á íslensku, svo sem *Næturvillur, Skygnu augun, Tengdamamma, Tengdapabbi, Happið* og margir fleiri.

Einn af fyrstu forvígismönnum var Sigurður Thorarensen kennari, góður leikari og söngmaður góður. Albert Oliver, Torfi Steinson, Gerða Christopherson G. J. Oleson og fleiri.

Leiktjöld voru stundum fengin að láni frá Winnipeg, máluð af Friðrik Swanson.

Af hinum yngri bygðum Íslendinga er vert að geta Vatnabygðar í Saskatchewan: Leslie, Elfros, Mozart, Wynyard og Kandahar. Í öllum þessum bæjum og nærsveitum hafa verið sýndir fjölda margir íslenskir leikir, — og sumir sem hvergi hafa verið sýndir annarstaðar, — alt frá skömmu eftir aldamót til þessa dags.



18

Í Leslie var Páll F. Magnússon þar aðal forvígismaður til margra ára, með sýningu *Skugga-Sveins,* sem var gamall kunningi Páls frá hans fyrra leikstarfi á Akureyri, er hann lék Skugga fyrsta sinn, og minnist sá er þetta ritar, sem í fyrsta sinn sat á innsta bekk og hélt sér dauðahaldi í bekkinn, þegar Páll í gerfi Skugga steig fram á sviðið og skók atgeirinn með þrumandi röddu.

*Ævintýri á gönguför* var einnig sýnt í Leslie ásamt mörgum fleiri leikjum.

Elfros og Kandahar sýndu nokkra ísl. leiki en eru nú hættir því fyrir löngu.

Mozart-búar hafa þar á móti sýnt lofsverða rækt í því starfi. Frá 1912 til þessa dags, hafa Mozart-búar sýnt íslenskan leik á hverjum fyrsta sumardegi í 34 ár, mest af þeim leikjum voru einþættingar, svo sem *Gyðjurnar, Fjallkonan og fulltrúarnir, Annar hvor verður að giftast, Blessaður engillinn, Góð kaup, Fyrsta rifrildið, Gullnemarnir, Erfiðleikar í ástamálum, Staðgöngumaðurinn, Gilitrutt, Afi flutti burt,* og marga fleiri, auk lengri leikja svo sem, *Vesturfararnir, Tengdamamma, Gæfubaunin.* Kvenfélög bygðarinnar hafa aðallega staðið fyrir þessum sýningum.



20 21

Wynyard var á tímabili miðstöð leiksýninga í Vatnabygð og voru þar sýndir nokkrir leikir á fyrstu árum, svo sem, *Skugga-Sveinn, Litli kofinn á Nesi, Hann drekkur, Hermannaglettur,* og fl. En nokkru síðar, eða þegar þeir Axdals-bræður komu til sögunnar, Þórður og Hallgrímur, voru þeir aðal þátttakendur íslenskra leikja, þeir voru báðir ágætir leikarar og söngmenn góðir. Meðal þeirra




19

leikja sem þá voru sýndir, var: *Grái frakkinn, Dagsetur* eftir Páll Steingrímsson; *Útburðurinn,* eftir Dr. J. P. Pálsson; *Ástir og miljónir, Syndir annara, Dollara prinsinn,* eftir Benjamín Einarsson; *Anderson,* úr sögu E. H. Kvaran; *Apinn,* með þeim leik vann leikflokkurinn sigurmerkið í leiksamkepni í Winnipeg 1928.

Meðan séra Ragnar Kvaran dvaldi í Wynyard, æfði hann *Á útleið.* Allir þessir leikir, auk nokkurra einþættinga, voru sýndir um alla Vatnabygð.

Aðal leiksýning Wynyard-búa var *Óskastundin* eftir Kristínu Sigfúsd. Að ýmsu leyti stærsta leiksýning meðal Íslendinga vestan hafs. Til þess leiks var vel vandað í búningum og tjöldum. Alla búninga saumaði Lóa Johnson og tjöldin málaði Á. Sigurðsson, sem einnig aðstoðaði við æfingar. Aðal leikendur voru Gísli Bendiktson, Herdís Björnson, Hallgrímur Axdal og Þórður Axdal. Með þennan leik ferðaðist flokkurinn fyrst um alla Vatnabygð, svo til Dakota á mörgum stöðum, til Nýja-Íslands, á mörgum stöðum Argyle-



22

bygðar og Winnipeg. Alls var hann sýndur milli 20 og 30 sinnum. Fjöldi af ensku fólki sótti leikinn og var út-



23

dráttur úr leiknum prentaður á ensku til skilningsauka fyrir það fólk, sem ekki skildi íslensku.

Þess er vert að geta í sambandi við sýningu þessa leiks, að Gunnar bóndi Guðmundsson átti mikinn þátt í að ráðist var í þá sýningu, með því að bjóða fram allan fyrirfram kostnað; það mun einsdæmi hér. Á þessum árum, er séra Friðrik A. Friðriksson dvaldi í Vatnabygð, var hann öflugur stuðningsmaður leiksýninga.

Auk þessa voru sýndir afar fjölmennir jóla táknleikir með fyrirlesara á íslensku.

Síðasti leikur sem sýndur var í Wynyard, og fleiri stöðum, var *Öldur* eftir séra Jakob Jónsson. Leikstjóri Hallgrímur Axdal.

Þar sem Vatnabygð er svo fjarri aðalbygðum Íslendinga í Manitoba, nær 500 mílur, þá varð hún sjaldan fyrir heimsókn annara leikflokka, þó kom það fyrir, t. d. frá Winnipeg kom Ólafur Eggertson með leikflokk og frú Stefanía Guðmundsdóttir, meðan hún var hér vestra.

Íslendingadagsnefndin í Wynyard fékk eitt sinn Sambands leikflokkinn í Winnipeg til að sýna *Tengdamömmu* á Íslendingadegi í Wynyard.

Dakota Íslendingar hafa ekki verið eftirbátur annara bygða Íslendinga í Manitoba. Þeir höfðu fá ár dvalið þar í landi þegar stofnað var til fyrstu leiksýninga.

Það má segja um Íslendinga hvar sem er í þessari álfu, að þegar þeir voru nokkurnveginn vissir um að til væru fleiri á áhorfendabekk en upp á leiksviðinu, þá var stofnað til leiksýninga. Og hvergi minnist sá er þetta ritar, að hafa séð innilegri þátttöku áhorfenda í hlutverkum leikandans, eins og meðal *Íslendinga*. Þeir bókstaflega lifðu sorg og gleði sjónleiksins, svo, að margoft hefir það komið fyrir að gripið var fram í eða skotið inn athugasemdum, þegar athæfi leikandans þótti þeim óhæfilegt, þó mjög vel væri leikið af hans hálfu. Rétt, sem eitt slíkt dæmi af mörgum, þegar Halla í *Fjalla-Eyvindi* kastar barninu í fossinn, sem svar við afsökun Höllu: “mér er sama, þetta er svívirðilegt athæfi”! Og á öðrum stað sem leikurinn var sýndur, steinleið yfir tvær konur.

Eftir að Garðar-bygð hófst 1880, réðust þeir í að byggja skólahús þrem árum síðar. Og 15. mars 1884 sýndu þeir leikritið *Hallur* og var Sigfús Bergmann leikstjóri og sama ár var sýndur *Misskilningurinn* eftir Kr. Jónsson. Eftir það var leikið á hverju ári um langt skeið. Fyrir og eftir aldamótin var sýndur næstum hver einasti leikur sem út kom á íslensku og er óþarfi að nafngreina þá alla,

það yrði of langt mál, því leikstarf Garðar-búa var nær því óslitið í 45 ár.

Meðal þeirra sem beittu sér fyrir sýningu íslenskra leikja, var Friðrik J. Bergmann, síðar prestur og Oddur Dalmann og fleiri.

Mörg síðustu árin hafði Theódór Thorleifson leikstjórn á hendi, og getur margra ágætra leikara svo sem Árni H. Helgason (nú í Brown, Manitoba), Thorleifur og Theódór Thorleifssynir, Rósa Dalman, Karólína Dalman, Helga Lindal (skáldkonan "Yndo"), Olla Thorleifson og fleiri.

Eftir 1930 voru aðallega sýndir smáleikir.

Snemma á árum bygðanna Hallson, Svold og Akra, voru sýndir margir ísl. leikir, einnig Pembina, en þar virðist hafa fent í sporin, svo ábyggilegar upplýsingar eru ekki fyrir hendi.

Í Mountain-bygð var sýndur sjónleikurinn *Narfi* 1884 eða 5 í húsi Sveinbjarnar Jóhannsonar. — Meðal fyrstu leikenda var Sveinbjörn Guðmundson, Sigurlaug Sveinbjörnsdóttir, Beta Gísladóttir, Barði Skúlason, Jón Guðmundson, Guðm. Guðmundson. Einnig var leikið í húsi Indriða Sigurðssonar, leikurinn *Afturgangan. Skugga-Sveinn* var fyrst sýndur 1889 og lék Skafti Brynjólfsson Skugga en Jón Guðmundson Grasa Guddu. Svo hvert leikritið af öðru um mörg ár, skal hér getið fárra sem ekki er getið annars staðar, svo sem: *Grímudans, Útsvarið, Hreppstjórinn* eftir Jón Kristjánsson, og *Unglingarnir*, eftir sama höfund, *Maurapúkinn, Flokksforinginn, Sveitalíf* eftir Sigurbjörn Guðmundson, *Kærleiksheimilið* úr sögu Gests P. eftir Jón B. Hólm, *Næturvillur*, þýðing Kristins Ólafssonar.

Auk Brynjólfssons bræðra sem mikinn þátt tóku í leikjum fyrir aldamót, voru; Jón Blöndal og Björn Blöndal, Björg Björnsdóttir og Ósk Hólm. Og síðar H. B. Grímson, H. T. Hjaltalín, S. J. Hallgrímson, S. A. Arason, Thórdís Reykjalín, Margrét Arason, Louise Arason.

Þau félög sem aðallega stóðu fyrir leiksýningum, voru kvenfélögin, bindindisfélögin og lestrarfélögin. Eins og annarstaðar voru margar leiksýningarnar endurteknar oft og víða, þess er jafnvel getið að sjónleikafélag frá Pembina ferðaðist með leik til Winnipeg og sýndi hann í Íslendinga félagshúsinu við Jemima stræti.

Af íslenskum leikritum í enskri þýðingu má nefna *Hadda-Padda* og *Fjalla-Eyvind*, sem voru sýnd að tilhlutun íslenskra stúdenta við landbúnaðarháskólann í Fargo, "undir leiðsögn hins ágæta leiðbeinanda í þeim efnum og Íslands vinar, próf. Arvolds" og var Friðrik Swanson fenginn til að mála tjöldin og aðstoða við sviðsetningu.

Winnipeg hefir verið miðstöð íslenskra leiksýninga vestan hafs.

Þar eru Íslendingar flestir á einum stað, og því úr miklu að velja, og lengst af betri tæki en annarstaðar til leiksýninga. Þrátt fyrir það, eftir meir en hálfa öld, hafa Íslendingar enn ekki eignast alment samkomuhús, með sæmilegu leiksviði.

Leiklistin meðal Vestur-Íslendinga hefir frá fyrstu tíð verið ambátt ýmsra félagsstofnana, hún hefir, að undanskildum örfáum skammlífum tilraunum, aldrei "átt með sig sjálf",

en hún hefir um langan aldur reynst mörgum góðum stofnunum trygg fjárhagsstoð í þeirra starfi; sjálf hefir hún lifað við skort og aldrei náð sæmilegum þroska.

Þrátt fyrir það hefir hún áreiðanlega verið, einn merkasti þáttur í þjóðræknisstarfi Vestur-Íslendinga.

Ekki er með vissu vitað hvenær fyrst var sýndur íslenskur leikur í Winnipeg. Þó mun það hafa verið um 1880. Því eftir að Framfarafélagið kom sér upp samkomuhúsi, sýndi það nokkra ísl. leiki. Jón Júlíus mun hafa verið hvatamaður þeirra sýninga, sem hófust með *Sigríði Eyjafjarðarsól*, og lék hann sjálfur í þeim leik, og fleirum, — ásamt Sigurbjörgu Sigfúsdóttur, Magnúsi Pálssyni, S. Björnsd. o. fl.



24

Þá voru einnig sýnd leikritin *Hrólfur, Narfi, Misskilningurinn, Hallur og Nýársnóttin*. Og haustið 1883, réðist félagið í að sýna *Útilegumennina* (Skugga-Svein), og lék þá Eyjólfur Guðmundson Skugga. Sveinn Björnson lék Ketil. Vilhelm Pálsson lék Harald. S. Björnsdóttir lék Ástu. Magnús Pálsson lék Sigurð í Dal. Arngrímur Jónsson lék Grasa-Guddu. Jón Blöndal lék Gvend smala. Leikstjóri var Stefán Pálsson.

Síðar, veturinn 1884, var *Skugga-Sveinn* sýndur í Victoria Hall, fyrir framgöngu Helga Jónssonar, ritstjóra Leifs.

Með þeirri sýningu munu Íslendingar hafa hlotið þann heiður, — samkvæmt enskum annálum úr sögu Winnipeg, að hafa verið fyrstir allra þjóðflokka í borginni, að sýna heimaæfðan sjónleik.

Að undanskildri þessari sýningu *Skugga-Sveins*, voru allir sjónleikir sýndir í norður Winnipeg, sem þá var miðstöð Íslendinga. Í húsi Framfarafélagsins, og North West Hall, Isabelle og Ross stræti, og í Unitarian Hall og víðar. 1887 sýndi íslenska kvenfélagið tvo leiki, *Eiturlækning* og *Tilræðið*. 1888 stjórnaði Einar H. Kvaran leikflokk, sem sýndi *Hermannaglettur* og *Sambiðlarnir*.

Meðal annara leikja, sem Kvaran og Jón Blöndal stjórnuðu, var: *Erasmus Montanus, Tíu kvöld í drykkjukrá* og *Ævintýri á gönguför*. Þar lék Einar, Kranz Kammerráð og Blöndal, Skrifta-Hans.



25

Síðar æfði Kvaran *Skugga-Svein*. Þorbergur Fjeldsted lék Skugga og Guðjón Hjaltalín, Grasa-Guddu. Á þeim árum var farið að vanda meir til leiksviðs útbúnaðar, þó enn væru notuð kerti og steinolíulampar, sem annarsstaðar, fyrir gólfljós og bak við hliðar-stæði. Nú voru notuð máluð leiktjöld, betri en áður, máluð af Friðrik Swanson listmálara. Hann málaði flest öll tjöld fyrir Íslendinga í Winnipeg, frá fyrstu leikárum, þar til hann dó 1942.

*Nýársnóttin* var sýnd í Unitarian Hall á Nena og Pacific, Hannes Blöndal var leikstjóri.

Eftir að leikfélag Good-Templara stúkunnar Skuld var stofnað 1901, sýndu þeir árlega íslenska leiki og voru þeir Ólafur S. Thorgeirsson, Friðrik Swanson og Ólafur Eggertsson aðal hvatamenn. Var fólk úr stúkunni Heklu einnig í þeim flokk, og sýndu þeir, meðal annara leikja *Pernillu* í þýðingu eftir Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, — með þann leik ferðaðist flokkurinn um bygðir Íslendinga í Manitoba og Dakota. *Frænka Charleys, Ævintýri á gönguför, Fólkið í húsinu, Nýársnóttin, Neiið, Varaskeifan, Leikfýsi, Hjartadrotningin.* Eftir að stúkurnar bygðu þeirra núverandi samkomuhús á Sargent og McGee, sýndu þær sameiginlega, marga ísl. leiki.



26

Mörg síðustu árin stjórnaði Óskar Sigurðsson leikjum Good-Templara. Hafði hann lengi tekið þátt í leikjum, bæði á Gimli og í Winnipeg, meðal annars leikið Grasa-Guddu 27 sinnum. Meðal annara leikja sem hann stjórnaði var *Bóndinn á Hrauni* eftir Jóh. Sigurjónsson.

Einnig æfði Jódís Sigurðson nokkra smáleiki ásamt lengri leik sem hún samdi og nefndi *Danslíf* 1923.

Nú eru Good-Templarar hættir fyrir mörgum árum að sýna íslenska leiki; ekki síðan þeir breyttu svo samkomuhúsinu, sem gerði það óhæfilegt til leiksýninga, og var það stórtjón fyrir Winnipeg Íslendinga og nærsveitir, því þar var til margra ára, langhæfilegast leiksvið.

Íslenskir stúdentar sýndu 1903, *Dóttir fangans,* þýðing Dr. Sig. Júl. J. í Alambra Hall á horninu Market og Main.

Eftir að Eyfirðinga klúbburinn "Helgi Magri" var stofnaður 1902 sýndi hann meðal annara leikja *Andbýlingarnir* og *Hermannagletturnar.* Á fyrstu árum voru þeir Bjarni Lyngholt og Hannes Blöndal aðal hvatamenn, en síðar þeir Ólafur S. Thorgeirsson, Friðrik Swanson og Á. Sigurðson. 1912 réðist klúbburinn í það stórræði, að fá Guðrúnu Indriðadóttur leikkonu frá Íslandi til að æfa og leika í *Fjalla - Eyvindi* og lék hún Höllu; Ólafur Thorgeirsson, Björn Hreppstjóra; Ólafur Eggertson, Arnes, og Á. Sigurðson, Eyvind. Með þann leik var ferðast víða í Manitoba og Dakota við afar mikla aðsókn. En sá leikur hefir aldrei verið endurtekinn meðal Íslendinga.



27

Sömuleiðis æfði Guðrún söngleikinn *Apinn* og fleiri. Síðan hefir klúbburinn enga leiki sýnt.

Snemma á árum beitti Ólafur Eggertson sér fyrir sýningu íslenskra

leikja og lék oftast sjálfur, hann var öflugasti stuðningsmaður þeirrar starfsemi frá fyrstu árum Íslendinga í Winnipeg til dánardægurs. — Hann var ágætur leikari, og gaf sig mest allra Íslendinga í Winnipeg við leiklist. Auk þess, sem hann lék í leikjum fyrir ýms félög, ferðaðist nokkrum sinnum með einleiki og tvíleiki með þeim Rósu Egilson og Rannveig Einarsson, sem báðar voru góðar leikkonur.



28

1919 æfði hann *Ævintýri á gönguför* með söngfólki úr Fyrstu lútersku kirkju. 1920 mynduðu nokkrir menn "Leikfélag Íslendinga í Winnipeg". Auk Ólafs Eggertsonar þeir Friðrik Swanson, Ólafur Thorgeirsson, Halldór M. Swan og Óskar Sigurðson, og bauð félagið frú Stefaníu Guðmundsdóttur leikkonu, hingað vestur, sem kom með þrjú af börnum sínum, Önnu, Emilíu og Óskar Borg.

Og sýndi þá leikfélagið *Kinnarhvolssystur, Heimilið, Hinrik og Pernillu, Ímyndunarveikin, Malarakonan frá Marley,* og *Gleðilegt sumar,* og var ferðast með þessa leiki um flestar bygðir Íslendinga. Seinna sýndi leikfélagið *Þjóninn á heimilinu,* í þýðingu Dr. Sig. Júl. Jóh. og ferðaðist Eggertson, sem var leikstjórinn, með þann leik um Manitoba, Dakota og Saskatchewan.

En þetta leikfélag varð skammlíft og endaði með því að Ólafur var einn á ferð með 3 einleiki.

En ekki lagði Ólafur árar í bát, því



29



30



31

nokkru seinna í félagi við Friðrik Swanson, gengust þeir fyrir því að fá "Little Theatre", fjölment enskt leikfélag á þeim árum í Winnipeg, — til að sýna *Fjalla-Eyvind* á ensku, og lék Ólafur sitt gamla hlutverk, Arnes, — hann var eini landinn sem tók þátt í leiknum. — Friðrik sá um málningu á tjöldum.



32

Í febrúar 1927 var stofnað til íslenskrar leiksamkepni í Winnipeg undir umsjón Good-Templara. Formaður þeirrar nefndar var Soffanías Thorkelsson, Einar Haralds, Hreiðar Skaftfeld, Ólafur S. Thorgeirsson, Hjálmar Gíslason, en Ólafur Eggertson var framkvæmdarstjóri.

Þrír leikflokkar keptu, og léku 2 kvöld. Þessir tóku þátt í samkepninni: Glenboro með *Happið* eftir Pál J. Árdal; Winnipeg leikflokkur undir stjórn Ó. Eggertsonar með *The Parrot* eftir Dr. J. P. Pálsson. Seinna kvöldið, Árborg með *Tengdamömmu* eftir Kristínu Sigfúsdóttur og hlaut sá flokkur sigurmerkið, sem Ólafur Eggertson gaf með því augnamiði að kept yrði um það árlega.

Næsta ár 1928 var aftur stofnað til leiksamkepni. Þessir leikflokkar keptu: Árborg með *Syndir annara* eftir E. H. Kvaran; Leikfélag Sambandssafnaðar með *Brúðkaupskvöldið* þýtt; Geysir með *Stormar* eftir Sv. Sigurðson og Wynyard með söngleikinn *Apinn,* og vann sé flokkur sigurmerkið.

Eftir leikmótið voru lög samþykt fyrir þessi árlegu leikmót og hlaut nafnið "Samband íslenskra leikfélaga í Vesturheimi" og fyrsta stjórn þess kosin. Dr. A. Blöndal, forseti; Aðalbjörg Johnson, skrifari; Friðrik Swanson, féhirðir. Síðan hafa engin leikmót verið haldin.

Af ásettu ráði verður síðast talið það leikfélag, sem afkastamest og lengst hefir sýnt íslenska leiki í Winnipeg, "Leikfélag Sambandssafnaðar". Og það má óhætt bæta því við, að leiksýningar þess hafa að jafnaði verið best vandað til. Í raun og veru

telur það aldur sinn frá því að Unitara söfnuðurinn var stofnaður 1891 eða öllu heldur frá 1893 er fólk úr söfnuðinum sýndi fyrst íslenskan leik, og þaðan í frá, fram yfir aldamót. Eftir að Ungmennafélag safnaðarins var stofnað 1909, hófust reglulegar leiksýningar á hverju ári. — Fyrst smærri leikrit svo sem *Skrifarinn í vandræðum, Sinnaskiftin, Hér er töluð franska, Saklaus þjófur, Alice við arineldinn,* og fleiri.



33

1914 færir það út kvíarnar, er það með *Lénharði fógeta* byrjaði að sýna stærri sjónleiki, sem það hélt uppi um nokkur ár, þar á meðal *Heimkoman* 1915. Meðal aðal leikenda í þeim leik var John Tait, sem í mörg ár hefir skemt Íslendingum á leiksviði félagsins, auk þess sem hann lék í fjölda leikja með enskum leikflokkum í Winnipeg. *Afturgöngur,* Ibsens, *Iðjuleysinginn, Stoðir samfélagsins* Ibsens, *Syndir annara* E. H. Kvaran.

Öflugastir stuðningsmenn þessara leiksýninga voru séra Rögnvaldur



35

Pétursson, Friðrik Swanson og Jakob Kristjánson. Þessa tvo leiki Ibsens þýddi séra Rögnvaldur og Jakob Kristjánsson.

Þegar Unitarar, eða Sambandssöfnuður eignaðist sinn núverandi samkomusal, var skömmu síðar, eða 1924 stofnað núverandi Leikfélag safnaðarins, með aðal leikendum úr áður nefndu ungmennafélagi, svo sem Björn Hallson, sem hefir lengur og oftar tekið þátt í íslenskum leikjum en nokkur annar landi í Winnipeg, frá fyrstu árum safnaðarins til þessa



34


36


37


38


39

dags, auk þess sem hann lék oft fyr meir með öðrum félögum.


40

Meðal aðal leikenda félagsins í meir en 30 ár má óhætt telja Mrs. Steinunni Kristjánsson Miss Elin Hall og Jakob Kristjánsson, sem byrjuðu á fyrstu árum ungmennafélagsins. — Aðrir aðal leikendur, sem oftast hafa leikið fyrir félagið eru: Ragnar Stefánsson, Hafsteinn Jónasson, Páll S. Pálsson, Miss Guðbjörg Sigurðson, Mrs. Halldóra S. Jakobson.

Það er vel þess vert að birta hér lista yfir leikrit, sem leikfélagið hefir sýnt frá stofnun þess, — auk sumra þeirra sem áður er getið og félagið hefir endurtekið, — og eru þau þessi frá 1924: *Tengdamamma,* Kristín Sigfúsdóttir; *Augu ástarinnar,* þýtt; *Tengdapabbi,* þýtt; *Ævintýri á gönguför; Landafræði og ást,* þýtt; *Brúðkaupskvöldið,* þýtt; *Á útleið,* þýtt; *Snurður hjónabandsins,* þýtt; *Sherlock Holmes,* þýtt; *Hallsteinn og Dóra,* E. H. Kvaran; *Galdra-Loft-*


41


42


43


44



45



46



47

vestan hafs meðan séra Ragnar Kvaran stjórnaði félaginu.

Aðrir, sem æfðu leiki fyrir félagið voru Steindór Jakobson og Á. Sigurðson. En sá sem mestan þátt átti í að

ur, Jóhann Sigurjónsson; *Drengurinn minn*, þýtt; *Maður og kona*, E. Thorarensen; *Skugga-Sveinn*, Matth. Jochumsson; *Jósafat*, E. H. Kvaran; *Stapinn*, eftir Jakob Jónsson; *Ofurefli*, eftir Árna Sigurðsson (úr sögu E. H. Kvarans); *Öldur*, eftir Jakob Jónsson.

Alla þessa leiki hefir félagið sýnt víðsvegar í bygðum Íslendinga. Leikfélagið hefir notið hins lang færasta og fjölhæfasta leikstjóra og leikara

gera leiksviðin fögur og aðlaðandi var hinn óþreytandi listamaður Friðrik Swanson, sem málaði flest öll tjöld fyrir félagið frá fyrstu tíð.

Meðan á stríðinu stóð, varð hlé á leiksýningum, — eins og víða annarstaðar, — en vonandi tekur leikfélagið aftur til starfa innan skamms, því of lengi hafa Íslendingar í Winnipeg, ekki síður en annarstaðar, saknað leikkvölda félagsins. — Bygðir Íslendinga víðsvegar þurfa nú, engu



48

síður uppörfunar í þessu þýðingarmikla menningar og þjóðræknis atriði, þó ekkert einasta ár hafi fallið úr, að ekki hafi verið sýndur sjónleikur á íslensku, einhversstaðar í bygðum Íslendinga vestan hafs í 63 ár, þá er því ekki að neita, að uppvaxandi kynslóð nýtur því nær eingöngu niðursoðinnar leiklistar frá stórverksmiðjum í Hollywood.

Einn af gömlum og góðum stuðningsmönnum íslenskra leiksýninga, Gísli Einarson í Riverton, á þá uppástungu, sem æskilegt væri að tekin yrði til greina:

"Að Þjóðræknisfélagið sjái um, að sýndur væri góður íslenskur sjónleikur árlega á þingsamkomu félagsins í Winnipeg, og síðar ferðast með hann um allar aðalbygðir Íslendinga."

Ekkert sem er mikils virði, fæst fyrirhafnarlaust. Það tæki margar afburða snjallar ræður að hafa jafn almenn og varanleg þjóðræknisáhrif á Vestur-Íslendinga, eins og einn góður íslenskur sjónleikur.

Það á vel við, að nota sem niðurlagsorð þessarar ritgerðar, það sem Lárus Sigurbjörnson, — sem mest og best hefir ritað um leiklist í höfuðstað Íslands, — sagði:

"Það er ein leyndardómsfylsta sannreynd leiklistarinnar, að áhorfandinn tekur virkan þátt í sköpun þess listaverks, sem við köllum leikafrek. Á þeirri sannreynd byggist það, að leiklistin er einhver öflugasta lyftistöng menningarinnar, því að áhrif hennar eru geymd í huga fólksins, varðveitt þar fersk og lifandi sem hver önnur reynsla, sem orðin er að endurminningu. Þar er að finna þann fjársjóð, sem góður leikari eftir lét samtíðarmönnum, þegar tjaldið er fallið í síðasta sinn."


49

# Skýringar myndanna

1. Greinarhöfundur.
2. Mynd af húsi Eiríks Eymundssonar við Íslendingafljót, þar sem fyrstu tveir íslensku sjónleikir voru sýndir í Nýja Íslandi 1883 og 4.
3. Gunnsteinn Eyjólfsson.
4. Jóhann Briem.
5. Valgerður Coghill.
6. Guðrún Björnsson, Riverton, var fyrsta konan vestan hafs sem lék Grasa Guddu í Skugga-Sveini 1885-6.
7. Guttormur J. Guttormsson og Gísli Einarsson (með pípuna), Riverton.
8. Geysir Hall.
9. Jóhann Magnús Bjarnason.
10. Tímóteus Böðvarson.
11. "Biðlar Elísabetar", Björn Bjarnason og J. G. Skúlason.
12. Árborg leikendur í "Apanum" 1939. Frá v. til h.: Mrs. Þorbjörg Jónasson, Magnús Sigurðsson, Thór Fjeldsted, Mrs. Hólmfríður Danielson, Davíð Jensen.

13. Mrs. Hólmfríður Danielson.
14. Árborgar leikendur úr "Tengdamömmu". Fremri röð: Mrs. Herdís Eiríksson, Mrs. Þorbjörg Jónasson. Aftari röð: Mrs. G. Carscadden, Miss Sella Johnson, Mrs. Hólmfríður Danielson.
15. Táknleikur sýndur á jólum 1940; Mrs. Danielson æfði.
16. H. Pjetur Tergesen.
17. Hjálmur Danielson.
18. Páll F. Magnússon.
19. Wynyard, Saskatchewan.
20. Hallgrímur Axdal.
21. Þórður Axdal.
22. Leikendur í "Apanum" 1928: Miss Þorbjörg Bjarnason, Mr. Haraldur Helgason, Mr. Árni Sigurðsson, Mr. Hallgrímur Axdal, Mr. Þórður Axdal.
23. Úr "Óskastundinni": Herdís Björnson og Þórður Axdal.
24. Jón J. Júlíus.
25. Einar H. Kvaran.
26. Óskar Sigurðsson.
27. Ólafur S. Thorgeirsson.
28. Ólafur Eggertson.
29. Leikendur úr "Fjalla-Eyvindi" 1913, á járnbrautarstöðinni í Somerset, Man., daginn fyrir járnbrautaslysið, sem endaði leikför flokksins vestan hafs. Nr.: 1. Guðrún Indriðadóttir; 2. Ólafur S. Thorgeirsson; 3. Ólafur Eggertson; 4. Árni Sigurðsson; 5. Friðrik Swanson; 6. Edward Thorlákson; 7. Egill Erlendsson; 8. Jónas Stefánsson; 9. Jódís Sigurðsson; 10. Petra Ólafson; 11. Jósep Thorgeirson; 12. Thorleifur Hanson; 13. Sylvia Bildfell.
30. Mrs. Sigríður Thorsteinson, Mr. Halldór M. Swan í "Ímyndunarveikinni".
31. "Þjónninn á heimilinu", v. til h.: Friðrik Swanson, Ólafur Eggertson, Christopher Johnson.
32. Mrs. Goðmunda Þorsteinsson, sem Guðný í "Lénharði fógeta" 1914.
33. John Tait.
34. "Heimkoman" 1915. Aftari röð, v. til h.: Jakob Kristjánsson, Árni Sigurðsson, Sumarliði Sveinsson, Steindór Jakobson, Aðalbjörn Jónasson, Miss Elin Hall, John Tait. Fremri röð: Guðmundur Thorsteinson, Miss Emelía Pálmason, Björn Hallson, Miss Guðrún Björnsson, Mrs. Kristín Oliver, Mrs. Steinunn Kristjánsson.
35. Leikfólk úr "Tengdamömmu" 1924, v. til h.: Jakob Kristjánsson, Steinunn Kristjánsson, Elin Hall, Sigfús Halldórs frá höfnum, Guðbjörg Sigurðsson, Björn Hallson.
36. Björn Hallson.
37. Frú Steinunn Kristjánsson.
38. Jakob F. Kristjánsson.
39. Elin Hall.
40. Hafsteinn Jónasson og Steinunn Kristjánsson í "Stapanum" eftir Jakob Jónsson.
41. Ragnar Stefánsson.
42. Páll S. Pálsson.
43. Frú Halldóra Jakobson.
44. Steindór Jakobson.
45. Ragnar E. Kvaran.
46. Miss Guðbjörg Sigurðsson.
47. Friðrik Swanson.
48. "Stapinn" 1939, eftir Jakob Jónsson, v. til h.: Friðrik Kristjánsson, Grace Péturson, Ingibjörg Halldórson, Guðbjörg Sigurðsson, Hermann Melsted, Hafsteinn Jónasson, Lóa Davíðsson.
49. Fyrsta hlutverk Árna Sigurðssonar, sem sálusorgarinn í "Piparsveina gildinu".

# Tuttugasta og sjöunda ársþing Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi

var sett af forseta þess, í efri sal Goodtemplara hússins í Winnipeg, þann 25. febrúar 1946, kl. 9.30 f.h. að viðstöddu miklu fjölmenni bæði úr borginni og bygðum Íslendinga.

Hófst þingið með því að þingheimur söng sálminn nr. 32 í kirkjufélags sálmabókinni: "Þín miskun ó guð". Gunnar Erlendsson aðstoðaði við hljóðfærið.

Þá hafði séra Rúnólfur Marteinsson orð fyrir þingheimi í bænargjörð.

Að því loknu las skrifari þingboðið eins og það hafði birst í íslensku vikublöðunum Lögbergi og Heimskringlu:

Tuttugasta og sjöunda ársþing Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi verður haldið í Goodtemplara húsinu við Sargent Ave., Winnipeg, 25., 26. og 27. febrúar 1946.

Áætluð dagskrá:

1. Þingsetning
2. Ávarp forseta
3. Kosning kjörbréfanefndar
4. Kosning dagskrárnefndar
5. Skýrslur embættismanna
6. Skýrslur deilda
7. Skýrslur milliþinganefnda
8. Útbreiðslumál
9. Fjármál
10. Fræðslumál
11. Samvinnumál
12. Útgáfumál
13. Bókasafnið
14. Kosning embættismanna
15. Ný mál
16. Ólokin störf og þingslit

Þing verður sett kl. 9.30 á mánudagsmorguninn 25. febrúar og verður fundur til kvölds. Gert er ráð fyrir, að Ingólfur Gíslason læknir, sem verður fulltrúi ríkisstjórnar Íslands á þinginu, flytji ávarp sitt eftir hádegið þann dag. Um kvöldið heldur "The Icelandic Canadian Club" almenna samkomu í Fyrstu lút. kirkju. Hon. Niels G. Johnson, dómsmálaráðherra í Norður Dakota, flytur aðalræðuna.

Á þriðjudaginn verða þingfundir bæði fyrir og eftir hádegi. Að kvöldinu heldur deildin "Frón" sitt árlega Íslendingamót, nú eins og í fyrra í Fyrstu lútersku kirkju. Ingólfur Gíslason læknir verður aðal ræðumaður.

Á miðvikudaginn halda þingfundir áfram og eftir hádegið þann dag fara fram kosningar embættismanna. Að kveldinu verður almenn samkoma í Sambandskirkjunni. Verður þar sýnd kvikmynd af Íslandi í litum, og fleira til skemtunar.

Winnipeg, 9. febrúar 1946.

Í umboði stjórnarnefndar Þjóðræknisfélagsins.

Richard Beck, forseti
Halldór E. Johnson, ritari

Þá bauð forsetinn fulltrúa Íslands og stjórnar, herra Ingólf læknir Gíslason og frú hans, velkomin til þingsins. Sömuleiðis bauð hann velkominn til þings Hon. Niels Johnson, dómsmálaráðherra Norður Dakota ríkis, sem var viðstaddur.

**ÁVARP FORSETA**

Háttvirtu gestir og fulltrúar!
Heiðraði þingheimur!

Vér, sem nú erum uppi, lifum á dögum mikilvægra tímamóta í sögu þjóðanna. Árið. sem liðið er síðan vér komum hér saman á seinasta þjóðræknisþingi, var bæði hið atburðaríkasta og að sama skapi örlagaríkt fyrir framtíð allra þjóða, stórra og smárra, mannkynsins alls. Það var mikið fegins og fagnaðarár í þeim skilningi, að þá var bundinn endi á hina geigvænlegu heimsstyrjöld, sem legið hafði eins og mara á mannkyninu í ná-

lega sex ár. Hinar sameinuðu þjóðir og málstaður þeirra, frelsis og mannréttindastefnan höfðu sigrast á hersveitum harðstjóranna og kúgaranna; oki hernáms og ánauðar hafði verið létt af fjölda þjóða.

Mikill var því fögnuður manna um gjörvallan heiminn yfir styrjaldarlokunum, ekki síst hér í Canada og Bandaríkjunum, er átt höfðu svo mikinn og margháttaðan þátt í þeim sigri, sem nú hafði unninn verið. Vér Íslendingar, sem einstaklingar og þegnar umræddra landa, fögnuðum þeim úrslitum stríðsins af heitu hjarta og einlæglega þakklátum huga, því vafalaust hafa stríðsárin, með öllu, sem þeim fylgdi, látið oss skiljast betur en áður sannindin í orðum Stephåns G. Stephånssonar:

Og lífsins kvöð og kjarni er það að líða,
og kenna til í stormum sinna tíða.

Þessvegna er eigi verið að seilast út fyrir svið áhugaefna vorra, þó vikið sé að miklum og örlagaþungum atburðum nýliðins árs á þessum vettvangi, enda er þegnskuld vorri við þau lönd, sem vér búum í, og greiðslu hennar á sem drengilegastan og ávaxtaríkastan hátt, skipað öndvegi í stefnuskrá félags vors.

Vil eg því í félagsins nafni láta í ljósi samfögnuð vorn með öllum þeim félagssystkinum vorum, sem heimt hafa heila heim af vígvöllunum sína nánustu, en votta hinum, sem eiga á bak að sjá ástvinum sínum af völdum styrjaldarinnar, djúpa og innilega samhygð vora. Í auðmjúkri þökk minnumst vér sérstaklega þeirra allra úr hópi félagsfólks vors, sem færðu fórnina mestu, lögðu lífið í sölurnar, málstað þjóða vorra og samherja þeirra til sigurs.

Hrópandi rödd þeirra hljómar sem brennandi eggjan til þjóða og einstaklinga um að leysa hin mörgu vandamál viðreisnarinnar eftir styrjöldina með þeim hætti, að friðurinn verði sem best trygður. Hið mikla hlutverk framundan er **að vinna friðinn**, en það verður því aðeins gert, að almenningsálitið víðsvegar um lönd hallist sem eindregnast og ótrauðlegast á þá sveif. Hver og einn, hvar sem hann er í sveit settur, getur lagt sinn skerf til þeirrar sigurvinningar friðarins með jákvæðri og ákveðinni afstöðu sinni til þeirra mála. — Hversu kröpp, sem kjör vor kunna annars að vera, getum vér öll kosið oss það hlutskifti, "að unna því göfuga og stóra."

Vikið var að því, sem aldrei verður of oft sagt né heldur of kröftuglega, að þegnskuldinni við kjörlönd vor, vöggustöð barna vorra, löndin, sem vinna vor er vígð, eins og skáldið sagði fagurlega, þeirri skuld, er skipað í æðsta sessinn í stefnuskrá Þjóðræknisfélagsins. Hitt er eigi minna grundvallaratriði, að stofnendur félagsins og þeir hinir mörgu, sem fylgt hafa þeim í spor og gera enn, telja varðveislu tungu vorrar og annara menningarverðmæta, með öðrum orðum, heilbrigða þjóðernisvitund og þjóðarmetnað, nauðsynlegar undirstöður þess, að vér verðum "sem bestir borgarar í hérlendu þjóðlífi". En því aðeins blessast sú þjóðernis- og þjóðræktarviðleitni vor til langframa, að sambandið við þjóðstofn vorn haldi áfram að vera sem traustast og fjölþættast, samúðin og samvinnan milli Íslendinga beggja megin hafsins sem djúpstæðust og öflugust, enda er sú hlið málsins og hefir verið meginatriði í allri starfsemi félagsins.

Umhugsunin um ættlandið, móður og minningaland vor allra, sem þar erum borin og áttum þar vor þroskaár, verður því ofarlega í hugum vorum, er vér komum saman á hin árlegu þjóðræknisþing vor. Svo fer oss einnig að þessu sinni, enda gerðust margir þeir atburðir á hinu nýliðna ári, sem draga hugann þangað.

Það var sögurikt og örlagaríkt ár fyrir Ísland eigi síður en önnur lönd heimsins. Fögnuðurinn yfir styrjaldarlokunum og sigri sameinuðu þjóðanna var þar í landi mikill og einlægur, eigi síður en annarstaðar, og af góðum og gildum ástæðum, því að íslenska þjóðin hafði á vígvelli hafsins fært miklar fórnir, sér í lagi þegar tekið er til greina hve fámenn hún er, og átt sinn þátt í sigurvinningu hins góða málstaðar. Á þetta lagði forseti Íslands, herra Sveinn Björnsson,

réttilega áherslu í hinni athyglisverðu ræðu sinni við hina sögulegu athöfn 1. ágúst síðastliðinn, er hann var settur inn í embætti sem fyrsti þjóðkjörni forseti Íslands.

Íslenska þjóðin hélt að sjálfsögðu hátíðlegt á síðastliðnu sumri fyrsta afmæli hins endurreista lýðveldis síns víðsvegar um landið, og var þess atburðar einnig minst með hátíðahöldum á ýmsum stöðum hérna megin hafsins. Dró það afmæli að nýju athygli vora að merkilegri sögu ættþjóðar vorrar, sigursælli sjálfstæðisbaráttu hennar, og þeim dýrmætu menningarverðmætum, sem vér höfum þaðan að erfðum hlotið, og búa yfir því frjómagni til dáða og þeim andlega þroskamætti, er oss ber að notfæra oss sem best og varðveita sem allra lengst.

Annar atburður hins liðna árs getur eigi síður verið oss til áminningar um auðlegð og lífsgildi hinnar íslensku menningar-arfleifðar vorrar, en það var aldar-ártíð Jónasar Hallgrímssonar, sem minst var fagurlega og virðulega á Íslandi og einnig í ræðum og ljóðum hér vestan hafs. Jónas Hallgrímsson var hvorttveggja í senn mesti ljóðsnillingur hinnar íslensku þjóðar og einn af allra áhrifamestu vökumönnum og menningarfrömuðum hennar. Hann kendi þjóðinni að meta margbreytta og sérstæða fegurð lands síns, hreinsaði og fegraði tungu hennar, og glæddi henni í brjósti trú á sjálfa sig, framtíð sína og hlutverk. Hann var, eins og alkunnugt er, einn þeirra eldheitu hugsjóna- og framsóknarmanna, er stofnuðu tímaritið **Fjölni** og bera síðan í sögu þjóðarinnar heiðursnafnið "Fjölnismenn". Voru þar að verki vakandi og langsýnir þjóðræknis- og þjóðræktarmenn, sem enn geta verið oss öllum, sem þeim málum unna og vilja vinna, hin fegursta fyrirmynd. Þeir skildu það flestum betur, hversu djúpt sálarlegar rætur manna liggja í mold ættlands þeirra og menningarlegum jarðvegi þess, og þeim var það jafnljóst, hve einstæð um margt og lærdómsrík saga hinnar íslensku þjóðar er, sé hún rétt lesin og skilin.

En það eru einnig aðeins djúpskygnir og langsýnir menn af vorum eigin stofni, sem séð hafa og skilið varanlegt gildi vorrar sögulegu og menningarlegu arfleifðar. Altaf öðru hvoru sjáum vér merkileg dæmi þess, hversu miklar mætur gáfaðir og lærðir útlendingar fá á Íslandi, íslenskri tungu og bókmentum; er það eitt sér órækk sönnun þess, hvern fjársjóð vér eigum þar sem þær eru, og ætti fyrirmynd þeirra erlendu ágætismanna, sem hér er um að ræða, að vera oss hin sterkasta áminning um lífrænt gildi þeirrar arfleifðar vorrar og lögeggjan til dáða varðandi viðhald hennar og ávöxtun.

Varð mér þetta á ný ríkt í huga er eg fyrir nokkrum dögum síðan var að endurlesa í ritsafni dr. Sigurðar Nordals, Áföngum, hina prýðilegu minningargrein hans um André Courmont, hinn skarpgáfaða frakkneska málfræðing, er tók slíku ástfóstri við Ísland, að það varð, að dómi greinarhöfundar, "annað föðurland, ástríða hans, örlög hans". Eigi var minni ást hans á íslenskri tungu, en hana kallar hann "yndislegasta garðinn", sem hann hafi fundið, enda geymir hún minjar skarpskygni hans og skilnings á henni, því að honum hugkvæmdist fyrst að nota orðið "litróf" fyrir útlenda orðið "spectrum". Í grein sinni um þennan mikilhæfa ásthuga Íslands, tungu vorrar og bókmenta, farast dr. Nordal þannig orð, og mættu þau verða oss nokkurt umhugsunarefni og sjálfsprófunar:

"Íslendingum hættir við að líta smátt á sjálfa sig. Jafnvel versti þjóðarrembingurinn er ekki annað en grímubúin vantrú á þjóðina. Heilbrigð sjálfsvirðing kann sér betra hóf, skynsamlegt sjálfsálit telur fram það, sem þjóðin á, en ekki það, sem hún átti að eiga, eða gæti átt. Vér vitum hvorki nógu ljóst, hvað vér eigum frá fornu og nýju fari né hvers virði það er í hlutfalli við auglegð annara þjóða. Þess vegna erum vér of fljótir að elta skugga erlendra hugsana, siða og menningar, — grípa þar í tómt, um leið og vér glöprum úr hendinni eigu sjálfra vor."

Nú er því eigi að leyna, að þau orð hafa oftar en einu sinni verið látin falla við mig, að vér þjóðræknismenn og kon-

ur lítum of mikið um öxl í félagsstarfi voru. Eitt er víst, að vér fáum eigi, svo farsællega gefist, lifað í fortíðinni, né heldur til lengdar lifað eingöngu á afrekum þeirra, sem á undan oss gengu og ruddu brautina, á hvaða sviði sem er. Eigi að síður er hitt jafnsatt, sem Davíð Stefánsson frá Fagraskógi segir í þessum ljóðlínum:

Minning þeirra, er afrek unnu,
yljar þeim, sem verkin skilja.

En því aðeins erum vér verðugir arfþegar slíkra manna og kvenna, að vér höldum hátt á lofti merki þeirra hugsjóna, sem þeir helguðu starf sitt og berum það fram til nýrra og stærri sigra; getum, með öðrum orðum sagt, að því er snertir þjóðræknisstarfsemi vora, þau menningarverðmæti, sem vér höfum að erfðum fengið, lífrænt afl í samtíðinni, orkulind nýrra dáða, minnug eftirfarandi orða Einar Benediktssonar:

Vér eigum sjálfir á eftir að dæmast,
af oss skulu forfeður heiðrast og
sæmast, —
sem studdu á lífsins leið vorn fót,
sem ljóðin við vöggurnar sungu.
Það fagra, sem var, skal ei lastað og
lýtt,
en lypt upp í framför, hafið og prýtt.
Að fortíð skal hyggja, er frumlegt skal
byggja
án fræðslu þess liðna sést ei hvað er
nýtt.

Þá ætla eg, að viturlega sé að verki verið í félagsmálum vorum, ef þeim leiðarmerkjum er fylgt í starfinu: aldrei mist sjónar á sígildum menningarverðmætum vorum frá liðinni tíð og fyrirdæmi þeirra, sem brautina ruddu, né heldur þeim kröfum, sem samtíðin gerir til vor, og skyldum vorum við framtíðina, afkomendur vora.

Á liðnu starfsári höfum vér, sem að undanförnu, átt á bak að sjá mörgum ágætum félagssystkinum, sem stutt höfðu drengilega starfsemi vora og sýnt með því í verki ræktarsemi sína við arfinn íslenska. Í þeim hópi voru þau hjónin Jóhann Magnús Bjarnason, sagnaskáldið vinsæla og heiðursfélagi vor, og Guðrún kona hans, er það alkunnugt, hve djúpstæð var ást Jóhanns Magnúsar á Íslandi, tiginni tungu vorri og menningararfinum íslenska í heild sinni, og hvern hlýhug hann bar til félags vors; hann lagði einnig ólítinn skerf til tímarits þess með sögum sínum og ritgerðum.

Auk þeirra hjóna, hafa þessir félagsmenn og konur látist á árinu, eftir því, sem fjármálaritari, Guðmann Levy, tjáir mér: Mrs. Oddfríður Johnson, Winnipeg; Magnús Peterson bóksali, Norwood, Man.; Sigurður Sigurðsson, Vancouver, B. C.; Jón J. Húnfjörð, Brown, Man.; Mrs. Svafa Líndal, Winnipeg, Man.; Mrs. Guðrún Sölvason, Winnipeg; fræðimaðurinn Magnús Sigurðsson frá Storð, Gimli, Man.; Mrs. Katrín Egilsson, Wynyard, Sask.; Mrs. Guðrún E. Björnsson, Wynyard, Sask.; Björn M. Paulson, lögfræðingur, Árborg, Man.; Mrs. Guðrún Jóhannsson, Winnipeg, og Mrs. Þóra Gíslason, Reykjavík, Man.

Minnumst vér þeirra allra með söknuði og einlægu þakklæti fyrir samstarfið, og vottum ættmennum þeirra og vinum heilhuga samúð vora. Sýnum svo minningu þessara föllnu samherja vorra tilhlýðilega virðingu með því að rísa á fætur.

Stjórnarnefndin hefir á árinu leitast við að leysa sem trúlegast og heppilegast af hendi þau mál, sem síðasta þjóðræknisþing fól henni til athugunar og framkvæmda, samhliða öðrum málum, sem henni hafa borist til meðferðar.

**Útbreiðslumál**

Í þeim málum má fyrst geta þess, að forseti hefir af hálfu stjórnarnefndar staðið í bréfasambandi við próf. Tryggva J. Oleson, sem nú er kennari í sagnfræði við fylkisháskólann í British Columbia, viðvíkjandi stofnun þjóðræknisdeildar í Vancouver. Bréf frá honum rétt nýkomið flytur þá góðu frétt, að íslensku félögin "Ísafold" og "Ingólfur" þar í borg hafi sameinast og samþykkt að gerast sambandsdeild í Þjóðræknisfélaginu. Er oss þetta að vonum mikið ánægjuefni og

bjóðum hina nýju deild hjartanlega velkomna í félagið. Jafnframt því, sem vér óskum henni langra og blessunarríkra starfsdaga, vil eg í félagsins nafni þakka próf. Oleson ötula forgöngu í þessu máli og öllum þeim vinum félags vors og styrktarmönnum, sem studdu hann að starfi, en meðal þeirra var fyrv. forseti félags vors og umboðsmaður þess á vesturströndinni, séra Albert E. Kristjánsson.

Nefnist hið nýja félag "Ströndin" og er stjórnarnefnd þess skipuð eftirfarandi mönnum: Forseti, próf. Tryggvi J. Oleson; vara-forseti, Óðinn Thorsteinsson Thornton; skrifari, Stefán Kristjánsson; vara-skrifari, Einar Haralds; féhirðir, Óskar Hávarðarson (Howardson); vara-féhirðir, Sam Samson, og skjalavörður, Stefán Árnason.

Undirbúningi að deildarstofnun að Lundar var einnig haldið áfram, og vann ritari, séra Halldór E. Johnson, sérstaklega að því, með aðstoð ýmsra annara góðra manna norður þar. Hafði útbreiðsluferð þangað með deildarstofnun í huga verið ákveðin síðastliðið haust, og kom forseti norður til Winnipeg sérstaklega til þess að taka þátt í þeirri ferð, ásamt með skjalaverði, Ólafi Péturssson, og Bergþór Emil Johnson, fyrv. ritara félagsins, er góðfúslega höfðu lánað bíl til ferðarinnar og lofast til að taka þátt í henni; einnig var í ráði, að vara-forseti, séra Valdimar J. Eylands, yrði með í förinni. — Vegna rigninga og ófærra vega, varð þó að hverfa frá þeirri ferð að því sinni. Voru það oss öllum, sem þar áttum hlut að máli, mikil vonbrigði, að þannig skyldi fara. Bíður það hlutverk því næstu stjórnarnefndar að byggja á þeim grundvelli, sem þegar hefir lagður verið að deildarstofnun á Lundar, og er eg ekki í neinum vafa um, að það geti tekist, því að margt er ágætra Íslendinga á þeim slóðum, sem bera í brjósti ræktarhug til ættlands síns og eru menningarerfðir vorar hugstæðar.

En í þjóðræknisstarfsemi vorri sannast eftirminnilega hið fornkveðna, að það er hvorki minni vandi né ómikilvægara að gæta fengins fjár en afla þess. Því er það grundvallaratriði í útbreiðslustarfinu að halda sem nánustu og fjölþættustu sambandi við hinar eldri deildir félagsins, jafnhliða stofnun nýrra deilda. Að viðhaldi þess sambands hefir einnig verið unnið með ýmsum hætti á árinu af hálfu stjórnarnefndarinnar.

Vara-forseti heimsótti deildina í Árborg og flutti erindi á Laugardagsskóla samkomu hennar. Hann hefir einnig flutt kveðjur félagsins við ýms tækifæri, svo sem á Íslendingadeginum að Gimli. Ritari heimsótti deildarfólk í Saskatchewan, er hann dvaldi á þeim slóðum um tíma í haust. Geta má þess í því sambandi, að fjármálaritari er forseti deildarinnar "Frón", og vara-fjármálaritari, séra Egill H. Fáfnis, var forseti deildarinnar í Argyle þangað til hann flutti úr bygðinni síðastliðið haust.

Forseti hefir á árinu heimsótt deildarfólk í Mikley og Norður-Dakota og flutt erindi á samkomum í þeim bygðalögum; einnig flutti hann ræður á Íslendingadegi sambandsdeildarinnar "Vísir" í Chicago, og á opinberri samkomu deildarinnar "Frón", er síðar mun getið; ennfremur á 70 ára afmælishátíð íslensku bygðanna í Minnesota og á árssamkomu Íslendingafélagsins í Fargo, og flutti að sjálfsögðu á báðum þeim stöðum kveðjur frá félaginu; það hefir hann einnig gert víðar á samkomum, meðal annars á 60 ára minningarhátíð Hins evang.-lúterska kirkjufélags, er haldin var í Winnipeg. Auk þess sendi hann mörgum Íslendingadögunum, sér í lagi þeim, er deildir félagsins stóðu að, og öðrum samkomum íslenskum, bréflegar kveðjur félagsins. Forseti hefir einnig haldið áfram landkynningarstarfi sínu í þágu Íslands og Íslendinga með ræðum og erindum á ensku máli um íslensk efni, og með greinum og ritdómum um sömu efni í amerískum og canadiskum tímaritum. Meðal annars hefir hann nýlokið við yfirlit yfir íslenskar bókmentir að fornu og nýju, sem út kemur bráðlega í New York í yfirgripsmiklu safnriti um heimsbókmentir.

Mun þá hið helsta talið af viðleitni stjórnarnefndarinnar að útbreiðslumálunum, en sjálfar hafa deildirnar unnið

